# Ármann á Alþingi

eda

almennr Fundur Íslendínga

Ársrit

fyrir búhölda og bændafólk á Íslandi.

---

Fjórdi Árgángur

fyrir árid 1832.

---

Útgefid af

Þorgeiri Gudmundssyni og Balduini Einarssyni
Cand. theolog. Cand. juris.

---

Kaupmannahöfn 1832.

Prentad hjá C. Græbe & Syni.

# Öllum Íslendíngum

en sérílagi öllum

**Kostgæfum og árvökrum búmönnum**
**Trúum og dyggum vinnuhjúum**
**Audsveipum og námfúsum únglíngum**

senda

**Þorgeir Gudmundsson og Balduin Einarsson**

kvedju sína!

Þad er nú í fjórda sinni ad oss audnast þad eptirlæti ad senda ydr, heidrudu og elskudu landar! ársritid Ármann á Alþíngi, og hefir þad þetta inni ad halda.

1) dálitinn inngáng sem tengir þennan árgánginn vid þann í fyrra. Í þessum inngángi eru 2 kvædi merkiligust, ort af Ögmundi Sigurdarsyni. Þau eru bædi snotur.

2) Velmeint meiníng um landþíngisnefndar *) skipan á Íslandi, ritud af Baldu.

*) Provindsialstønd eda umdæmastönd þykir ekki eiga vid vort mál, en þar allir mannfundir kallast þíng, og vér eigum ordid landþíng, þótti oss þad best gegna þánkanum. Land kallast fleira enn þad sem umflotid er, svo hafa héröd verid nefnd bædi í Danmörku og Norvegi, svosem Hálogaland, Jótland, Holsetuland, og fl. Dönum þykir og betra ad nefna Landdag enn Provindsialstønd, þvi þad fyrra skilst, en hitt ekki, af málsins edli.

Einarssyni. Hofundinum þótti þad tilhlýdiligt ad láta Armann vekja almennings eptirtekt og eptirþánka á svo mikilvægu og alþjódligu málefni; fylgdi hann í því eptirdæmi og fortølum Dana, er hafa ritad mikid um þad efni, og sýnt hversu árídandi þad sé ad undirbúa alþýdu undir svo mikilvæg umskipti, med opinberum ritum. Eigi ad sídr væntir hofundrinn ad sumir menn muni finna bædi ad hofundinum, og ad fyrirtækinu, og ad því hversu fyrirtækid er framkvæmt Hvad hinu fyrsta vidvíkr, þá játar hofundrinn, ad hann vanti mikid til ad geta útlistad svo mikilvægt efni svo fullkomliga sem skyldi, og ad margir séu miklu betr til þess fallnir enn hann; en af því hann sá engin líkindi til, ad nokkr annar madr mundi rita um þad efni, þá héldt hann ad hann bæri svo mikid skyn á Islands háttu og á fylkjanefndanna edli, þeirra er konúngr ætlar ad skipa í ríki sínu, ad hans hugmindir þarum mættu vekja almúgans eptirþánka, og eigi leida á afvegu. Þad er og víst, ad ekkért rit og engin meiníng er betri eda verri, réttari eda rángari í sjálfri sér fyrir þad, hvort hofundrinn er lítils eda mikils umkominn, hvort hann er úngr eda gamall, hvort hann er í embættum eda ekki, hvort hann hefir metord og nafnbætr eda ekki. Sérhvort rit og sérhvor meiníng á ad standa eda falla fyrir sig, og ekki med sínum hofundi.

Varla get eg skilid ad nokkr madr ókki ad ekkert sé talad eda ritad um Landþínganefndirnar, því sá madr bæri ekkért skyn á landþínganefndanna edli, og sýndi líka, ad hann hefdi enga hlutteknìng í tídaranda þeim, er konúngrinn vill leitast vid ad vekja og styrkja hjá þegnum sínum.

Flestir mundu því snúa adfinndni sinni til ritlíngsins sjálfs, og gerir höfundrinn ráð fyrir, ad menn finni þá fyrst og fremst ad því, ad höfundrinn hefir útlagt Tilskipanina af 28 Maii f. á., þarsem hún þó sé utgefin bædi á íslenzka og danska túngu. Höfundrinn bidr landa sína ad misvirda þad eigi, því hann vissi eigi af því, ad Tilskipanin var útgefin á íslenzku líka, fyrri enn hann var búinn ad láta prenta fyrstu og adra örkina, væntir hann þess heldr bænheyrslu, sem hann nú sér, ad honum hefir tekist vonum framar ad hitta á réttu meiníngu, og opt þau sömu ord sem Tilskipanin hefir; og ætlar hann því ad útleggíngin geti vel ordid til leidarvísirs þeim, er eigi hafa sjálfa Tilskipanina.

Einkanliga munu menn finna ad því, ad höfundrinn hefir farid svo mörgum ordum um þad, sem Tilskipanin eigi gefr neitt tilefni til, og heldr virdist ad vera gagnstædt hennar ordum. Ef nokkr segdi ad slíkt væri ekki leyfiligt, þá vísar höfundrinn til blf. 30—32 hér-áeptir, því þar hefir hann hrakid þá vidbáru; en ef

einhverr segir, ad þad hafi eigi verid skynsamligt, þá svarar höfundrinn, ad þad geti verid honum nóg afsökun og réttlæting, ad þrír danskir merkismenn hafi látid somu meiningu opinberliga í ljósi á undan honum. En höfundrinn vill eiga færa sér þessa réttlæting í nyt, og þad því sídr, sem þessi meining eptir nákvæma yfirvegan, var nokkrnvegin fullþroska hjá honum, laungu ádr enn tédir merkismenn létu sína þánka um þad efni í ljósi. En þegar höfundrinn á annad bord taladi um þetta efni, þá var þad hans skylda ad segja sína meiníngu um þad, eins og hún var, á hvern hátt Landsþínganefndienar gætu ordid Íslandi ad sem mestum notum. Hefdi hann ekki gert þad, þá hefdi hann hræsnad, án þess ad vita, fyrir hverjum hann skyldi hræsna, því engin þága er kóngi vorum í því, ad menn tali annad enn sannleika um opinber efni; nei hid gagnstæda er honum, sem von er af slíkum kóngi, mjög á móti skapi. Hefdi hann ekki gert þetta þá hefdi hann sýnt, ad hann geymdi enga sanna ást til kóngsins eda födurlandsins í sínu brjósti, þá hefdi hann sýnt, ad honum þætti lítilsverdt ad spauga med almennings velferd. En þótt þad verdi eigi, sem höfundinum hefir þótt líkligast, þá veldur þad enga ónægju, því allir láta sér lynda þad, sem kóngr segir.

3) Leidarvísir til ad kenna börnum ad

lesa, ritadr af Herra Stiftsprófasti Arna Helgasyni. Höfundrinn hefir leidt margar rökſemdir ad því, ad mönnum yrdi svo erfidt ad kenna börnum ad lesa, af því menn kynnu eigi þá réttu adferd, eda hefdu ekki lag á því. Mun alþýda þakka honum fyrir ritling þenna, er inniheldr svo margar ágætar stöfunarreglur, og gledja sig vid þá von, ad fá fleiri þvílíkar ritgjördir eptirleidis frá hans hendi.

4) Nokkrar hugleidingar um þilskipaveidar á Islandi, ritadar af Herra Kaupmanni Gudmundi Scheving, fyrrum Sýslumanni í Bardastrandar Sýslu. Hefir höfundrinn fyrst og fremst sagt frá því, hvad ordid hefir ágengt med þilskipaveidar á vestrlandinu; þarnæst hefir hann skýrt frá, hvad þad mundi kosta, ad smída þilskip, og hvörn ávinning hann hefir haft i medal ári; loksins hefir hann sýnt þilskipaveidanna yfirburdi yfir bátaveidar, í hvörju hlutfalli þilskipaveidar og landgagn ættu ad vera sín á milli, og hvörjar afleidingar þilskipaveidarnar muni hafa fyrir landsins vöxt og framfarir. Getum vér eigi betr séd, enn ad höfundrinn hafi leyst verkefni sitt ágætliga vel af hendi, enda var þad oss sönn gledi, ad fá ritgjörd um þad efni frá svo reyndum manni. Þykjumst ver og sjá, ad eigi hafi hann gert ofmikid úr ábatanum, heldr sagt hreint og einlægt frá öllu.

það kann að vísu að þykja lítill ávinníngr, að fá eigi meira enn svosem 350 Rbd. árliga í ábata af skipi, auk ábyrgdarpenínga (assúrance) og rentna, en þessi ábati er þó eins stór eins og rentan af 8000 Rbd. það er og aðgætandi að höfundrinn hefir reiknað árslitin, og árligar endrbætur frá, svoað það sem afgángs er, er hreinn ábati.

það er annars auðséð af þessari ritgjörð, að menn hafa enn eigi komið sér saman um, að nefna viðu í þilskipum íslenzkum nöfnum, og væri þess þó mjög að óska. þannig hefir höfundrinn haldið útlendu nöfnunum, „kjølsvín, kjølpúði og apakøttr" er vér eigi þekkjum, líka hefir hann „pullerta" fyrir uppstandara, „kollarda" fyrir hnélista, „lejbommu" fyrir folkuslá, „Bidíngar" fyrir vinduskólpa, „Garnering" fyrir innanbanda þiljur, og s. frv. hefir höfundrinn án efa fylgt dagligu og almennu máli vestra í þessu, sem eigi er að undra, þar hann mátti eiga von á, að menn skildu hann ekki ella.

5) Nokkr orð um nytsemi innlendra fræva og hvarsu þeirra megi afla, rituð af Prófastinum Síra Jóni Gíslasyni á Hvammi. þessi snotri ritlingr mun koma mørgum í góðar þarfir, þeim er leggja vill stund á garðyrkju, enda er hann því meira verðr sem höfundrinn talar af eigin reynslu.

6) Um ljáasmiði, ritað af Herra Sveini

Nielsfyni, Djákna til Grenjadarstadar. Þeir sem vita hversu mikid heyskaprinn er kominn undir því, ad menn hafi góda ljái, munu álíta þennann stutta ritlíng mikid nytsamligann, og taka á móti honum med gledi. Einnegin þessi höfundr hefir talad af eigin reynslu, og innibundid mikid í fám og snotrum ordum.

7) Tilsögn til ad mæla ílát og tilbúa svo þau taki víst mál, allt eptir mælíngu innanrúms þeirra (med lengdar kvarda) ritud af Sira Gudmundi Jónssyni á Stad á Ölduhrigg. Þessa snotru ritgjörd munu allir þeir taka med þökkum, er nokkud kunna í reikníngi, og þad því heldr, sem aldrei hefir fyrri verid ritad um þad efni á íslenzka túngu, svo vér vitum.

8) Fáein ord um helztu atridi skinnaverkunar, ritud af Balduini Einarssyni. Vér héldum ad ritgjörd um þetta efni gæti ordid ad gódum notum á Islandi, þar skinnaverkun er þar svo lítid kunnug. En höfundrinn býst vid, ad mönnum muni þykja þad ad ritgjörd þessari, ad hún eigi lýsir einni adferd vid hvört atridi, heldr segir frá mörgum; þad geri ekki annad enn villi. Hértil svarar höfundrinn, ad þar svo margbreytt adferd sé til vid hvört atridi, þá sé eigi hægt ad vita hvör bezt sé, og sé því betra ad lýsa fleirum; menn sjái þá og betr, í hvörju skinna-

verkunin sé innifalin, í raun og veru, og vekjist framar til eptirþánka, og til að haga sér eptir ásigkomulagi í hvört skipti, án þess að rígbinda sig við neina vissa aðferð. Höfundrinn hefir og við hvört atriði sagt sína meiníng um það, hvörsu hann mundi fara að, ef hann vildi barka skinn. Þetta hefir hann ekki sagt í því skyni, að hann ætlist til að menn skuli fylgja því blátt áfram, heldr hefir hann sagt það til dæmis uppá, að svo gæti hvör einn tekið upp þá aðferð, sem hönum þykir líkligust og hagað sér eptir ásigkomulagi.

Það munu menn finna annað að ritlíngi þessum, að hann eigi kennir at verka skinn til söðla, til bókfella eða til fatnaðar, og ekki heldr að lita þau; en það kemr til af því, að seinni hluta ritgjörðarinnar vantar, sem á að kenna þetta; höfundrinn gat ekki látið prenta meira í ár, rúmið leyfði það ekki; en að ári skal það koma sem vantar, ef guð lofar.

9) Verðlag á íslenzkum varníngi í Kaupmannahöfn vetrinn 1831—32.

Héraf sjáið þér þá, heiðruðu og elskuðu landar! að ársrit vort nálgast meir og meir því, er til var ætlað í fyrstu, því að undanteknum tveim smá ritlíngum, inniheldr árgangr þessi ritgjörðir fra reyndum og vitrum mönnum á Íslandi, svoað vér egum lítinn annan þátt í hönum enn þann, að koma hönum

á framfæri. Ársrit vort er þannig ordid geymsla fyrir reynslu hinna reyndu, svoad hún ekki deyi út med þeim sjálfum; þad er ordid verkfæri fyrir hinn fróda til kenna hinum fáfródari, og fyrir hinn fáfródari til ad spyrja hinn fróda ráda, þad er ordinn almennr fundr Íslendínga í raun og veru. Er þetta oss útgefurunum enganvegin ad þakka, heldr ydr, sem styrkid fyrirtækid med ølln móti. Vér vonum því, ad þér, heidrudu og elskudu landar! munid halda áfram ad styrkja þad, og halda ársriti þessu á lopti, bædi med hluttekníngu og med rádum og ritgjørdum, og þad því fremur, sem landþínganefndirnar geta alþýdligar samrædur enn miklu naudsynligri enn ádr, hvørnig sem þeim verdr háttad med tilliti til Íslands; og svo er tilætlad í Danmørku, ad menn láti meiníngu sína um þá hluti í ljósi í opinberum ritgjørdum, er landþínganefndirnar yfirvega, bædi ádr en þad verdr, og eins á eptir, hvørsu þær hafi leyst verkefni sitt af hendi, og ætla menn þad muni fremr ølln ødru halda fulltrúunum vakandi.

Þess ber oss ad geta, ad vér eigi fengum samda ritgjørd um túna og engja ræktun, er vér þó hálfvegis lofudum í fyrra; bar tvent til þess, fyrst þad, ad vér vildum láta annara manna ritgjørdir vera í fyrirrúmi, og þarnæst þad, ad vér þóttumst eigi hafa fengid hæga

uppfrædíng um þad efni, og hafa þó 2 eda 3 merkismenn frædt ofs ágætliga um marga hluti, er þar ad lúta. Vér leyfum ofs því, heidrudu og elskudu landar! ad ítreka tilmæli vor þau í fyrra, ad þér vildud gefa ofs hugvekjur vidvíkjandi túna og engja ræktun, en einkanliga er ofs hugr á ad vita allt þad, er mælir med og á móti túngarda hledslu; líka tökum vér allar frásagnir þær med þökkum, er sýna á hvørn hátt menn hafi ræktad og endrbætt jardir, svoad þær hafa fleytt miklu meiri peningi enn ádr. Auk þessa höldum vér, ad mikil nytsemi mætti verda ad ritgjörd, er kendi ad vardveita og matreida maturtir svo ad þær verdi sem ljúffengastar og til sem mestra búdrýginda; dyrfumst vér því ad mælast til, ad einhvørr reyndr gardyrkjumadr sendi Ármanni ritgjörd um þad efni.

Fyrir utan þetta, tekr Ármann med þökkum allskonar ritgjørdir, er vidvíkja Íslands háttum, og mega verda jafnt til gagns og gamans, uppvakníngar og eptirþánka; og vonum vér ad þér, heidrudu og elskudu landar! munid eigi láta Ármann vanta umtalsefni.

Gud veri med ydr øllum!

Ritad í Kaupmannahøfn þann 1 April 1832.

# Helztu prentvillur

## í 2m Argángi Ármanns fyrir árið 1830.

| blf. | lin. | |
|---|---|---|
| VI, | 7 | afslaka l. afbaka |
| VII, | 9 | til að matar l. til matar |
| 7, | 12 | pað l. það |
| 14, | 11 | áburðu l. áburði |
| 16, | 9 | nyðja l. niðja |
| 25, | 5 | Marls l. Karls |
| 28, | 11 | hessu l. þessu |
| 36, | 22 | nð l. að |
| 38, | 15 | kirnar l. kynnar |
| 46, | 5 | reysa l. reisa. |
| 47, | 16 | sterka l. sterkann |
| 60, | 25 | litklietr l. litilleitr |
| 67, | 2 | Húnavatnsþíngi l. Hegranesþíngi |
| — | 15 | og l. eg |
| 69, | 22 | hiðan l. hiðin |
| 77, | 14 | stnni l. sinni |
| 80, | 6 | Not. **) sjá l. hjá |
| 90, | 4 | á tala l. á að tala |
| 95, | 14 | þafa l. hafa |
| 99, | 8 | 1658 l. 1758 |
| 100, | 3 | Not. *) Asturfiørdr l. Astufjørdr |
| 103, | 2 | seinnast l. seinast |
| 106, | 3 | Not. skypti l. skipta, og s. s. l. 15 skrifta l. skifta |
| 121, | 11 | túna engja l. túna og engja |
| 124, | 9 | Sæundr l. Sæmundr |
| 127, | 7 | freiri l. fleiri |
| 130, | 6 | úrlegging l. útlegging |
| 136, | 1 | ediligt l. edliligt |
| — | 24 | þvíð l. þríað |
| 140, | 18 | natúruvitrara l. náttúruvitrara |
| 150, | 9 | holda l. halda |
| — | 25 | stittri l. styttri |
| 115, | 24 | þó l. þá |

| blſ. | lín. | |
|---|---|---|
| 157, | 18 | Þar l. Það |
| 160, | 6 | Vorſléttan l. Vorſléttan |
| 162, | 13 | Þókir l. Þykir |
| — | 20 | útvillinum l. útvellinum |
| 165, | 26 | ſkipabér l. ſkipaber |
| 167, | 11 | fyrraſuma l. fyrraſumar |
| 169, | 20 | árir l. árið |
| 170, | 15 | aðnr l. áðr |
| 173, | 4 | teckið l. tekið |
| 175, | 1 | hannſt braut l. hann brautſt |
| 180, | 10 | allmenna l. almenna |
| 182, | 9 | eikanliga l. einkanliga. |

Seinuſtu blaðſíðuna á 3ðja árgánginum í fyrra, er hefir prentvillurnar, gat hvorugr útgefaranna rétt vegna forfalla, enda ſendi prentarinn hana til hvorugs þeirra, og því er margt rángt á henni. Þará medal er þetta: l. 2. dønſkinn manui l. dønſkum manni; l. 5 reſkningar l. reiknſngur; l. 8 afaukið l. ofaukið; l. 13 af l. of; l. 15 vanninn l. vaninn; l. 19 ſtau l. þau; l. 20 á ekki að vera; l. 21 hanu l. hann; l. 23 munn l. munu; l. 24 goðſuſun l. góðfúſann; l. 25 vorn l. voru.

(Framhald frá í fyrra.)

Hann gekk tígugliga utast í mannþraungina, og vard mönnum litid eptir hönum, en þegar menn litu aptr til steinsins var Ármadr allr áburt horfinn; þótti sumum þad illa farid, en sumir urdu því fegnir, hvíad þeim var farid ad leidast ad hlýda á hjal manna, en einkanliga á rædur bóndasonar, því þeim þótti hann ofúngr til þess ad tala á mannafundum. Þeim þótti líka, ad hann hefdi ofmikla mælgi, og sumum þótti hann tala um lítilvæga hluti, sem eigi væru umtalsverdir. Bóndason heyrdi, ad menn stúngu þessu hvorjir ad ödrum í hljódi; þykktu vinir hans þad fyrir hann, og hvöttu hann til ad reka af sér slidru-ordid. Bóndason vard styggr vid, og kvad þad skyldi aldrei verda. Sjáid þér eigi sjálfir, segir hann, ad þeir hafa mikid til síns máls? eg er úngr, og ætti því ad hlýda á, þegar hinir eldri tala, og ad vísu var þad minn tilgángr, þegar eg kom híngad hid fyrsta sinn; en þegar enginn af hinum eldri mönnum vildi verda til ad fara uppá steininn í hitt ed fyrra, þegar Ármann

hét á menn til uppgaungu á steininn, þá ólgadi mitt úngа og ókyrrláta blód, þegar eg ímyndadi mér, hvílíka svívirdu allr þíngheimrinn mundi hafa af því, ef hann færi heim aptr vid svobúid. Þótti mér þad betra, ad eg einn yrdi fyrir ámæli fyrir framhleypni og bernsku, enn ad öldúngunum yrdi brugdid um atgerdarleysi í svo mikilvægum efnum, sem þar átti ad yfirvega. Þetta er mín afsötun. Þeir segja satt: eg á ad hlýda á, þegar hinir eldri tala, en þad er þá þeirra skylda ad tala, svoad eg megi hlýda, skal þá og enginn hlýda med meira athygli enn eg. Segid þid þíngheiminum, ad eg sé fús ad bidja forláts á því, ad eg hafi farid uppá steininn, og ad eg aldrei skuli stíga uppá hann meir, þegar adrir vilji verda til þess; þeim sé audveldt ad koma mér til ad þegja, ef þeir vilji tala.

Þeir munu ennframar hafa rétt ad mæla, er segja, ad eg sé ærid fjölordr; mér er nú áfátt í því. En þad kann máske ad koma til af því, ad mér er annt um, ad allir skilji þad, sem eg meina án frekari umþeinkíngar, undireins og þeir heyra ord mín. Eg gæti sagt mér til málbóta, ad sumum hætti vid ad vera of fáordum og myrkordum, og mundi almenníngi eigi falla þad betr, og líka hitt, ad eg hafi heyrt, ad þeir menn, er mestir hafa þótt mælskumenn, sjaldan legdu stund á, ad innibinda þánka sína í sem fæstum ordum. Fáir rata medalhófid í

þessu heldr enn ödru, en eg skal leggja allt kapp á ad nálgast þad svo mikid, sem eg get, til þess mér audnast sá aldr, ad mér þyki hæfiligt ad tala.

En svosem eg játa, ad menn hafi rétt ad mæla í þessu tvennu, svo get eg ekki betr skilid, enn ad þeim misshnist, sem bera mér á brýn, ad eg tali einúngis um lítilvæga og ómerka hluti; mun æsku minni ad kenna um þetta ámæli, þvíad þeir menn, sem hafa haft nægann aldr, og virdíngar hverjum manni meiri, hafa talad optar enn einusinni um hina sömu hluti, sem eg hefi rædt um. Hitt hefdi mér þótt líkligra, ad mönnum hefdi þótt þad óþarfi, ad eg skyldi ræda um þad, sem adrir mér eldri og vitrari menn hafa ritad um á undan; en hefdi menn fundid ad því, þá munda eg svarad hafa, ad um sumt hafi aldrei ritad verid á íslenzka túngu, og þaradauki mætti menn ekki láta æsku mína aptra sér frá ad skoda, hvort eg hafi ekki sagt ödruvísi frá sumu enn þeir, og bætt mörgu vid, sem ekki hefir fundist hjá þeim. Farid, gódir menn! og segid þeim, sem bera mér þetta á brýn, ad þad sé ekki nóg, ad þeir segi, ad eg eda adrir fari med lítilsverda hluti; þeir eiga ad sanna þad; en umfram allt sé þad þeirra skylda, ad lofa mér eda ödrum ad vita, hvad þeir álíti mikilsverdt og umtalsverdt, þvíad þad getr eigi farid hjá því, ad eitthvad sé til,

sem verdskuldar ad heita svo. Segid þíngheiminum ennframar, ad mér sé mikil þökk á ad heyra, hvad þeir finni ad rædum mínum, en mest þyki mér varid í þad, ad þeir segi mér þad opinberliga og lagfæri mig; þad hafi ekki verid ætlan mín, ad kénna ödrum, heldr einsog hver annar, ad segja meiníngu mína um ýmsa hluti, til þess ad koma þeim til ad tala, sem eldri eru og vitrari.

Vinum bóndasonar þótti þetta kynligt, því þeir ætludu ad hann mundi eigi þola adfinníngina; þeir urdu kynligir, og yfirgáfu hann, og sögdu kunníngjum sínum ord bóndasonar; bárust þau skjótt um allann þíngheiminn; létu menn, sem þeir heyrdi þad eigi, því menn voru matþurfa, og höfdu tekid til snædíngs. En eptir þad gengu menn til leika uppí þíngbrekku, og mátti þar sjá bædi fimleika og hrausta atgaungu. Hinir eldri menn horfdu á, og gátu varla haldid sér kyrrum, þvíad úngdómsfjörid vaknadi í þeim vid ad sjá þad fyrir augunum. Eptir leika fóru menn til saungva; ámedal annars var þetta súngid:

## Ö. S.

## (Í samsæti Brædralags Íslendínga, því er Alþíng nefnist).

1.

Heill sé þér, kæra Sveinasjót!
sýnfagri hríngur Íslendínga!
(sem alla módur sama brínga
nærdi, og bar med blíduhót),
samheldid gamla og sidu fría,
sem hérmed viljid endurnýa
:,: lángfedga ydar eptir sid,
erlendis þegar trödu svid. :,:

2.

Hér, eins og þeir, med hugrekk brjóst
hvørr annann vin og bródur kallar,
og málid hjartans munnr spjallar,
samlyndid eydir øllum þjóst:
eitt létu yfir alla gánga,
alla þar sømu heillir fánga;
:,: allra var sama augnamid
eins og nú, Brædur! hafid þid. :,:

3.

Hér ad minnast þín, fagra Frón!
med fjørdum, dølum, lindum bláum
og fjallatindum himin-háum,
þó vorri hulin sértu sjón:

hér, einsog børn af einni módur,
allra sem vilji er hreinn og gódur,
:,: eptir sem leyfa efni hans
ad auka heillir fødurlands. :,:

4.

Blómgist þú, kæra Brædralag!
unz bjørgin hrynja og himnar klofna,
og allar skepnur útaf sofna,
sem skédur fyrst á dómadag;
þá fáum allir, barmar blídir!
brædralags syngja helgar tídir,
:,: framgengnir betri' í føgnud há
fløtunum Paradísar á. :,:

P. Sigurdsson.

---

Heill sé þér, kæra Fedra-frón!
fjøll þín ígegnum aldir standi,
þó vøtn og eldur verøld grandi,
gledji þau þinna sona sjón!
Ginnúnga upp úr gapi' óholla
gráhærda réttu fjallakolla,
:,: ad vér frá Gimli getum sjá,
hvar gamla Ísland fordum lá! :,:

---

## Ö. S.

Sterk eru lokin Alþíngi' á,
yndælt brósir haudur og lá,
sætt er ad ríða
um Frónid fríða
félaga med, sem kátr er!
Adurenn súpum skilnadar-skál,
skilnadar syngja hljótum mál:
um gædin Isa
gaman-vísu,
gódir vinir! byrjid hér!

2.

O, hve fagurt er Fróni á
firdir, dalir og lindir blá!
glitra fjöllin
glæst af öllu
geisla-Födur ljósa-blæ;
Hvergi' er fegri heimsins brá,
heldrenn hínum ströndum á;
hér vil eg freyja,
hér vil eg deyja,
hér mest gott eg unnid fæ.

3.

Hvergi' er fegri heimsins brá,
heldrenn Isa-ströndum á;

kristalls aldan
fjörurnar faldar,
Fósturmódur sæt er strynd.
Mörg þó beri' á baki' ár
búkonulig hún ennþá stár;
mér gedjast eigi
adrir segi,
ad hún líkist beinagrind.

4.

Saudir enn hoppa hlídum í,
Heklu-tindar enn gródrar-ský
til sín draga,
haudr og hagar
heilsa' úr náttdögg sólar-yl.
Fiskar enn leika brims í brún,
blómga ad venju engi' og tún;
laxar í elfum
höfdi hvelfa,
hverfa med þeim sjáfar til.

5.

Nýtinn böndi nóg á hvörr,
nóri veidist og silúngr;
ædarfuglinn
er á rugli
útum sjó og vid bæjardur.
Baulur og hestar högum í

hala og makka veifa frí;
ekki strídin
eyda lýdum;
aldinn födur gledur bur.

6.

Blómstri þú fagra Födurland!
fjölgi þín gædi' og batni stand!
hvörs þíns nidja
er ósk og ydja:
í þér helst eg lifi' og dey.
Afstad rída er nú mál!
upplífgadir í hami' og sál
grípum nú klára,
girdum nára-
gjardir fast, svo meidist ei!

7.

Södul oss verpum sídan í,
sveimum heimad, létt sem mý;
ad heilla-störfum
hugann örfum,
hugsjúk væntir Konan oss.
Mann hún skírir sérhvörn sinn,
sem ad rídr um gardshlid inn,
börnin tápud
tala um Pápa,
tállaus vor þar bídr koss!

8.

Blómgi þú fagra Fedraland!
fjølgi þín gædi' og batni stand!
volgt í ædum
blód medan blædir
blessan þína gyrnist fjót!
Blómgi heillir um bygd og klett!
blessist hvørr í sinni stétt!
heilir mynnumst!
heilir finnumst
hvar sem vega liggja mót.

Ádr enn menn ridi af þíngi, kom Ønundr ad máli vid Sighvat og Þjódólf; kvadst hann gjarnan vilja fylgja rádum þeirra, og sagdist vilja þyggia vist med ødrum hvørjum þeirra um sumarid, hvad sem lengr kynni ad verda. Þjódólfr baud hønum med sér ad fara, og vard þad ad rádi gert. Ønundi þótti vinnan þúng hjá Þjódólfi í fyrstu, en hann vandist smámsaman vid, svo hønum vard hún bærisligri. Þjódólfr kall lét hann aldrei skilja vid sig, og sagdi hønum nákvæmliga fyrir øllu. Lét Ønundr þad á sér heyra, ad hann hefdi eigi ætlad, ad Þjódólfr mundi slíkr madr vera sem hann reyndist hønum. Þegar leid framá haustid, mæltist hann til vetrvistar og tók Þjódólfr því vel. Ønundr kunni nú øllu betr vid sig enn ádr i Reykjavík;

lagdist hann nú hvern aptan í hvílu med gódri medvitund um, ad hafa framkvæmt eitthvad gott og nytsamligt um daginn, og fanst honum þad yndisligra, en nokkur drykkjugledi. Honum fanst nú meira varid í Flóamenn og adra sveitamenn enn ádr, meiri uppbygging í húss-lestrinum og meiri skemtan og fródleikr í fornmannasögunum enn ádr, en minna varid í utlendt glis og útlenda sidu. Þjódólfi þótti þetta vel farid, og sást þad á, ad hann þóttist af því ad hafa komid þessu til leidar; leid nú af vetrinn, og bar ekkert til tídinda.

Eitt sinn um vorid kemr Þjódólfr ad máli vid Önund, og tekr svo til orda:

Nú hefir þú verid næstum því eitt ár í mínum húsum, Önundr minn! og mun þá eigi þykja offnemt ad eg spyrji þig hvernig þér hefir fallid vistin?

Önundr. Vel hefir mér fallid hún, og miklu betr enn eg vænti í fyrstu, mundu og fáir hafa trúad því, ad vid ættum skaplyndi saman, eda ad þad félli svo vel á med okkr.

Þjódólfr. Þad hygg eg og; en ætlardu til Alþíngis í sumar?

Ön. Já, ef þú ferd Þjód. minn.

Þjódólfr. Já, eg fer hvad sem tautar; mig lángar til ad heyra hvad hann segir í ár, hann Þarna bóndason, og svo þeir hinir, en nú er svo

komid fyrir okkr, ad vid getum ekki ordid Alþíngi til eins mikils gagns eins og ádr, af þvi vid høfum nú líkari meiníngar hvørr ødrum, og eigum betr skapsmuni saman enn vid hugdum. Nú skulum vid láta sem vid séum slíkir sem vid høfum verid, þú skalt vera nokkud dønskuskotinn og ákafliga nýúngagjarn eins og ádr, en eg ætla ad vera eins óbeiganligr eins og fyrri, og halda því gamla fram af øllu megni. Vid skulum gefa hvørr ødrum hnífilyrdi eins og fyrri, og láta sem allt sé eins og var, því mørgum þykir meira gaman ad hlýda á þad, enn á nytsømustu rædur.

Ønundr kvad svo vera skyldu; leid nú fram til þíngs; bjuggust menn þángad fjølmennir. Segir ekki frá ferdum manna fyrri enn þeir komu á Alþíng á Jónsmessunótt; tjøldudu menn búdir sínar og sváfu af til þess um morguninn.

Um dagmálabil kom Ármann, hann gékk eins og hann var vanr ad steininum og sté uppá hann, og heilsadi þíngheiminum á allar hlidar, og tók svo til orda:

# B. E.

## velmeint Meiníng

um

# Landþíngisnefnda skipan

## á Íslandi.

---

Islendingar og gódir menn!

Þad er nú í fjórda sinni, ad eg hefi þad eptirlæti ad sjá ydr hér samansafnada á þessum helga stad forfedra ydvarra, til ad yfirvega málefni födurlands ydar; kann eg þad med sanni ad segja, ad aldrei hafi eg notid slíkrar gledi í mínum aldrdómi, sem nú er glædd í brjósti minu, þvíad þó ad mér hafi þótt vænt um ad sjá ydr hér ad undanförnu, þó ad mér hafi þótt naudsyn á ad þér hugleiddud málefni lands ydar, hverjir med ödrum, þá fagna eg þó hérkomu ydar nú meira enn adr, þvíad nú ber meiri naudsyn til hennar enn ádr. Þad er ydr öllum kunnigt, ad Fridrik konúngr hinn gódi hefir látid þann fagnadarbodskap út frá sér gánga, ad hann vildi frædast nákvæmliga um ástand þegna sinna, og heyra rád þeirra um opinber málefni, og um þad hversu bezt mætti efla almenna velfarnan. Vill hann eigi frædast um þetta af þeim einum, er hann sjálfr hefir útvalid (embættismönunnum), heldr og

einnig af þeim mönnum, sem þegnar hans hafa siálfir kjörid til þess. Fæ eg eigi útlistad konúngsins tilgáng á annann hátt betr, enn med því ad lesa ydr útleggíng af tilskipan þeirri, er hefir lýst tédum fagnadarbodskap. Tilskipanin hljódar svona:

# Tilskipan
um
# Landþínganefnda skipan
í
# Danmörku.

Vér Fridrik enn Sjötti af guds náð Danmerkur konúngr og s. frv. gjörum vitanligt: ad vér höfum ályktad, ad skipa rádleggjandi Landþínga nefndir í vóru ríki Danmörku, eins og í vorum hertagadæmum Slésvík og Holsetulandi, til þess ad vér og vorir eptirkomendr í hásætinu, ætíd getum fengid hina nákvæmustu þekkíng á öllu því er efla má velfarnan vors kæra og trúfasta Fólks, til þess ad binda þau bönd enn inniligar, er samtengja Konúngsættina og fólkid, og til þess ad studla til ad glæda almennann þjódaranda. Til þess ad undirbúa slíka fullkomnan þessarar vorrar ályktunar, er samsvari vorum landsfödurliga tilgángi, höfum vér fyrirfram látid yfirvega þetta mál, en þótt því sé enn eigi svo lángt komid, sem þyrfti, til þess ad því nú

þegar megi tilskipa í öllum þess greinum með fullkomnu lagaboði, svo hefir oss þó þótt það tilhlýðiligt nú að opinbera slíkar almennar ákvarðanir, sem eiga að vera undirstaða þeirrar lögnnar sem vér viljum veita Landþínganefndunum í voru Danmerkur ríki.

Í þessu tilliti viljum vér hérmeð allranáðugast ákvarða sem fylgir:

§. 1.

Í voru Danmerkur ríki skulu hinar ráðleggjandi Landþínganefndir hafa tvö þíng, eitt fyrir Sjálands, Fjóns og Lágalands og Falsters stipti og einnegin Ísland, og annað fyrir Norðr-Jótlands stipti öll saman fjögr.

§. 2.

Hvørt þessara þínga skal skipa svo mörgum mönnum, sem vér munum nákvæmar ákveða, og eiga þeir að veljast af meðborgurum sínum. Jarðeigendr og húseigendr á landinu og í borgunum öðlast valrétt (rétt til at velja fulltrúa), og neyta þeir hans með slíkum skilmálum og eptir þeirri röð og reglu sem vér munum ákvarða í tilskipan þeirri er vér ætlum at útgefa þarum útaf fyrir sig; þó viljum vér gefa landsetum lögbýfa (gaardfæstere) hluttekníng í valréttinum, vegna þeirrar stöðugu ábúðar sem lögin heimila þeim. Á líkan hátt skal fasteign vera nauðsynligr skilmáli til þess að geta öðlast kosníngarrétt (rétt til að verða valinn til fulltrúa); og þótt vér að almennu eigi viljum útiloka þá af vorum em-

bættismønnum frá landþíngisſetu, er eiga faſteignir, þegar þeir verda til fulltrúa koſnir, ſvo má þó enginn embættismadr ſem hefir embættisbréf eda ſkikkunarbréf eda ſtadfeſtíngarbréf uppá embætti, ſem af oſs er undirſkrifad, þyggja ſlíka koſníngu, nema hann hafi þartil fengid vort allramildaſta leyfi.

§. 3.

Vér høfum ennframar í hyggiu ad tilnefna limi af háſkólanum og af andligrar ſtéttar mønnum til ſetu á Landþíngunum, og eptir áſigkomulagi einſtaka adra menn, ſem vér, bædi med tilliti til þeirra ſtødu og eiginligleika, álítum einka hæfa þartil.

§. 4.

Adr enn vér útgefum nokkurt løgmál, ſem breyti vorra undirſáta perſónu=eda eignarétti eda ſkattgjaldi eda annari þegnſkyldu, viljum vér láta leggja ſlíkt lagaframvarp fram fyrir hvørutveggi Landþínganefndirnar, eda, ad ſvo miklu leiti ſem þad kann ad áhræra eitt eda fleiri einſtøk hérud, þá framfyrir þá Landþíngisnefndina ſem héradid heyrir til, ſvoad Landþíngid geti yfirvegad lagafrumvarpid, og ſídan gefid ſitt allraundirgefnaſta álit þarum.

§. 5.

Þegar Landþíngunum þykir naudſyn á ad óſka nokkurrar umbreytíngar í landſins almenniligu løg=

um, eda þeim einka lögum og stiptunum sem vidkoma einstökum hérudum, eda ef þeim kynni ad þykja efni til ad kvarta yfir því, hvörsu lögunum er framfylgt eda hinum ýmsu stiptunum er stýrt, þá eiga þau kost á ad frambera slíkt fyrir oss, ásamt med áliti sínu og tillögum; sídan skulum vér yfirvega slíkt, og þarnæst leggja vorn úrskurd þará.

§. 6.

Þared vér álítum þad gagnligt, ad nefndarþíngin ödlist hluttekníng í sveita og safnada félags málefnum (svosem fátækra málefnum), svo viljum vér nákvæmligar yfirvega hvörsu slíku geti ordid framkvæmt, og sídan leggja nákvæmari álykan á þad mál.

§. 7.

Landþíngin verda haldin þegar vér bjódum þad, og mun þad verda annad hvört ár; en þar fyrir utan viljum vér kalla þíngin saman ef oss þykir þess þurfa. Hvörsu lengi þíngin skuli standa, viljum vér í hvört skipti ákvarda eptir því sem ástendr, og sídan látum vér kunngjöra fulltrúunum nær þínginu skal slíta.

§. 8.

Nákvæmari ályktanir viljum vér auglýsa um þad,

hvörsu margir menn verdi valdir til Landþíngis med-lima, og hvörsu tölu þeirra verdi nidrjafnad á hin ýmsu hérød; svo og um hina nákvæmari skilmála fyrir val-réttinum og kosníngar-réttinum, og um atferli það er mönnum ber ad fylgja vid kosnínguna og á Landþíngunum. En ádr enn nokkurt framvarp til þessara nákvæmari lagaboda verdi framlögd fyrir oss, viljum vér láta sammankalla nokkra upplýsta menn frá ríkisins ýmsu pørtum, til þess ad yfirvega þá hluti, er í þessu tilliti munu verda frambornir fyrir þá, og til ad segja sína meiníngu þarum, grundvallada bædi á þekkíngu á málefnisins eigin edli, og á héradanna ásigkomulagi. Skyldu menn med tímanum verda þess varir, ad þessar nákvæmari ákvardanir þurfi umbreytínga vid, svo verda þó slíkar umbreytíngar eigi framkvæmdar, fyrri enn vér, samkvæmt hinni 4du §., höfum leitad nefndarþínganna álits um það.

Gefid i vorum konúngliga adsetursstad Kaupmannahöfn þann 28 Maii 1831.

undir vorri konúngligu hendi og signeti

**Fridrik R.**

---

Stemann.

Monrad. Ørsted. Lassen. Kjerulff.
Lange. Hansen.

Svona hljódar tilskipan þessi, sagdi Ármann; Er það audsært af inngángi hennar, ad það er tilgángr

konúngsins, ad koma þegnum sínum til ad leggja meiri hug á opinber málefni, ad gefa þegnum sínum tækifæri á, ad frambera almennar naudsynjar fyrir sig, og ad geta fengid sem nákvæmasta þekkíng á hag þegna sinna, svoad hann þess betr geti séd fyrir rádi þeirra. Er þessi velgjøríngr Fridriks konúngs ens Sjøtta því meira verdr, sem han hefir veitt þegnum sínum hann af sjálfsdádum og eigin vilja, þarsem adrir konúngar, er hafa veitt þegnum sínum slíkaun eda þvílíkann rétt, hafa gert þad naudugir, til ad kaupa sér hylli þjódarinnar, eda til ad sefa óvinsældir sínar. Er því þá eigi allsjaldan þannig varid í ødrum løndum, ad Þjódin ber ekkért eda mjøg lítid traust til stjórnarinnar, og ætlar ad hún muni eigi hyrda um sín rád eda um sína velfarnan og frelsi, en stjórnin aptr ad sínu leiti, þykist eigi sjá annad hjá þjódinni enn íllvilja og blindann og skynlausann efja og eigingyrni, svoad sjálfs afneitun og hógværd sé eigi ad finna nema hjá sjálfri sér. Hverju fyrir sig þykir ad sitt gagn sé hins gagnstædt. Af þessum misskilníngi og þaraf leidandi vantrausti, lítr fólkid og stjórnin hvørt annad óvina augum, þau hertía sig og berast banaspjót á, en þad sem lýtr í lægra haldi má kaupa sér grid sem hertekid væri og sæta afarkostum.

Þetta er nú øldúngis gagnstædt því sem vera

ber, og tálmar jafnt gagni og velferd beggia, því stjórnin og þjódin eru eitt: ein sál og einn líkami, eitt hús og heimili. Taki eg nú sál og líkama til dæmis, og láti sálina þýda stjórnina og líkamann med sálarinnar einstöku verkunum, þjódina, þá er þad audséd, ad sálinni ríðr einkum á, ad limirnir séu árvakrir í því, ad gera hana vara vid þad sem ber vid útvortis, því ef augun geta eigi um þad sem fyrir þau ber, eyrun eigi um þad sem þau heyra, nasirnar eigi um þad sem þær lykta, túngan eigi um þad sem hún smakkar, og hudin eigi um þad sem snertir hana, þá er sálin í rádaleysi, og fær hvörki séd fyrir sér eda líkamanum. Í sömu vandrædum væri sálin ef hún bæri slíkt vantraust til limanna, ad hún þyrdi aldrei ad reida sig á þad sem augun segdi eda eyrun eda nasirnar og. s. frv., því hún fengi enga skynsamliga ályktan gert ad heldr. En þad er ekki nóg ad limirnir frædi sálina dyggiliga um þad sem vidber, svoad hún geti gert rád sín þareptir, limirnir þurfa einnig ad vera svo lidligir fimir og æfdir, ad þeir geti leyst þad vel af hendi, sem sálin skipar þeim. Ætti sálinni því ad vera einkar umhugad um, ad limirnir æfi sig sem bezt, bædi í því ad gefa gætr ad því sem vidber, og líka í því ad framkvæma sálarinnar bodord og vilja, því án limanna adstodar og hjálpar fær sálin ekkért framkvæmt í þessu lífi. En þetta er ekki einasta áríðandi fyrir sálina, heldr

og einnig fyrir limina, því þar sálin á ad bera umhyggju fyrir þeim, svo er þeirra velferd komin undir því, ad þeir styrki sálina sem bezt í hennar framkvæmdum. Beggja gagn og tilgángr er: ad øllum manninum lídi vel, og þad verdr þá bezt, þegar bædi eru samtaka og treysta hvørt ødru. En ef sálin leitadist vid ad kúga og nidrbrjóta líkamann, þá gerdi hun sér sjálfri mestan skada med því; Á líkann hátt væru limirnir sér sjálfum vestir, ef ad þeir leyndu sálina því sem hun þyrfti ad vita, og tálmudu hennar skynsamligum framkvæmdum.

Eg vil taka annad dæmid af heimili nokkru. Ef ad húsfadirinn eigi ber neitt traust til hjúa sinna og barna, og enga umhyggju fyrir velferd þeirra, ef hann hugsar eigi uppá annad, enn ad láta hjú sín og børn erja fyrir sig, en hyrdir eigi um þó þau þoli sullt og klædleysi, þá ávinnr hann hvørki trúnad þeirra né kærleika, enda verda þau hønum hvumleid og ótrú og framtakslítil; húsbóndinn er sífellt í óróa og illu skapi, og píniſt af ótta og tortryggni. Ekkert fer vel fram á heimilinu. Á líkan hátt fer, ef ad hjúin og børnin ad sínu leiti, skilja sitt gagn frá húsbóndans gagni, ef þau eru hønum ótrú og hvumleid, og hyrda eigi um annad enn ad hafa nádir, og ad draga sem mest til sín fra húsbóndanum; þar fer aldrei vel fram á því heimili; þar er engrar blessunar ad vænta, því þar vill hvørr

sköinn ofan af ödrum. En þar sem húsfadirinn leggr allt kapp á ad koma heimili sínu í þad lag, ad þad verdi sem hagkvæmast fyrir hjú hans og börn eins og fyrir hann sjálfann, þar sem húsbóndinn ber vitsmuni til ad skynja, ad hann fái þá bezt séd fyrir heimili sínu, þegar hann kappkosti ad efla hjú sín og börn í öllu gódu, ad bera umhyggju fyrir velferd þeirra, ad ávinna sér trúnad þeirra og kærleika; þar sem hjúin og börnin eins, ad sínu leiti, hafa þá trú, ad þau sjái þá bezt fyrir sínu gagni, þegar þau kappkosta ad efla gagn húsfödursins, ad leysa hans skipanir vel af hendi, ad ávinna hans hylli og velþóknan: þar sem innbirdis trúnadartraust er hússins grundvöllr, þar gróa fridarins ávextir á kærleikans tré, þar blessast og farsælist allt, eykst og margfaldast. En þetta trúnadartraust á milli húsfödursins og barnanna, getr verid veikara og kröptugra, daufara og skýrara, allt eptir ásigkomulagi. Á medan börnin eru úng og lítt viti borin, verdr fadirinn öllu einn ad ráda; börnin medtaka þá alla hans velgjörnínga med þakklæti, og vidrkenna hans umhyggju fyrir sér, án þess ad þau geti gert sér ljósa grein á því, hvílíkir þessir velgjörníngar eru, eda ad hvad miklu leiti födursins umhyggja fyrir þeim er sambodin þeirra eiginligu þörfum. Þetta er eins og í þoku fyrir þeim. En þegar þeim færist aldr yfir höfud og þeim vaxa vitsmunir og þekkíng,

þá gera þau sér ljósari grein á þessu. Þau skynja nú þarfir sínar eins vel eda betr enn fadirinn, þau þekkja heimilid og búſtjórnina, og vita hvad bezt hagar. Ef ad fadirinn væri nú svo einþykkr, ad hann vildi eigi leyfa börnum sínum ad bera fram fyrir sig naudsynjar sínar, eda ad gera sig varann vid þad sem hönum væri áridandi, eda ad leggja rád sín til í húsſtjórnarefnum, en vildi sjá allt einn og ráda einn í öllu eins og adr, þá færi eigi hjá því ad hönum skeist yfir í mörgu, þó hann hefdi enn bezta vilja. Þegar börnin verda þess vör, og sjá ad fadirinn hefdi getad komist hjá því, hefdi hann viljad heyra rád þeirra, þá vekr þad kala á milli hans og þeirra; traustid og hlýdnin og elskan til födursins mínkar, og framkvæmdarlistin dofnar; því öllum ber saman um þad, ad því minna sem madr sé rádandi í hverjum hlut, því minna liggi hann hönum á hjarta; má þá og nærri geta, med hvílíkri alúd madr framkvæmi þad, sem hann sér ad muni verda til óheilla. Nokkud bætir þad ad vísu, ef fadirinn útvelr eitthvert af börnunum til ad hafa umsjón og til ad vera í rádum med sér, en þó þykir hinum börnunum þad ekki nóg, þeim þykir ad milligaungumadrinn eigi þekki vel til alls, og stundum virdist þeim hann færi heldr úr lagi. Húsfadirinn rekr sig á þetta líka, ad sínu leiti, og sér ad þad muni vera betra fyrir sig og börnin og allt heimilid, ad leyfa börnun-

uin til sín ad koma, og ad heyra á naudsynjar þeirra og á ráð þeirra. Þetta verdr; og fadirinn gledr sig yfir því, ad hann nú þekkir betr enn ádr naudsynjar barna sinna, ad hann veit nú betr enn ádr hvad bezt gegnir í hvert skipti, hann gledr sig yfir því ad börn hans, er ádr í fjarlægd gáfu gætr ad serhvörju því er födurnum várd á, og voru sein og viljalaus til framkvæmda, standa nú í kríngum hann, eins og sterkir og framgjarnir adstodarmenn í öllu gódu. Börnin fagna yfir því, ad fadirinn hefir veitt þeim tækifæri til ad sameina sína lífs og sálar krapta med hans, til þess ad vinna ad heill og velfarnan heimilisins, ad hann nú fer med þau eins og mindugа menn og ekki eins og óvita. Þyki födurnum ráð þeirra eigi gód, þá misvirda þau þad ekki, því þau treysta því, ad hann hafi vit á ad velja þad sem bezt er; mistakist eitthvört fyrirtæki, þá kenna þau sjálfum sér um þád framar enn födurnum. Inniligasta trúnadartraust og kærleiki tengir fedginin enn nánara saman; og gánga þau þannig hönd í hönd, med hrödum skigum, gegn því takmarki, sem þeim er sameginligt hvörutveggjum. (Þetta sídasta lýsir Landþínganefndanna edli.)

Í Danmörku hefir sambandid á milli konúnganna og lídsins um lánga tíma verid slíkt sem þad er á milli góds födurs og gódra barna, en einkanliga má þad med sanni segja um Fridrik konúng

enn Gjøtla og þegna hans. Það hefir eigi vantað að þeir hafi getað náð tali við konúng, og borið upp nauðsynjar sínar fyrir honum, hvørr einstakt fyrir sig; en hitt hefir eigi verið, að landsmenn ættu kost á að skipta sèr af opinberum málefnum í sameiníngu. Danir hafa ei heldr óskað þess, því þeir hafa verið traust til konúngsins og elskað hann, og þótt gott að eiga øll sín málefni á konúngs valdi. Fridriki konúngi var því miklu minni þørf á að gera breytíngu á stjórn sinni, enn nokkrum øðrum konúngi í Norðrálfunni. En hann vildi launa þegnum sínum trúskap þeirra með sama móti; hann ber traust til þeirra eins og þeir til hans, hann elskar þá eins og þeir hann; vildi hann nú og sýna að sèr þætti gott að eiga nokkuð undir þeim, eins og þeim undir honum. Honum virðtist að nú væri sá tími kominn, að betr færi að þegnar hans hefði nokkurn þátt í opinberum málefnum, og jafnsnart sem hann var sannfærðr um þetta, frestaði hann ekki að láta það verða. Og þótt sumir maktarmenn, eptir søgn, hafi leitast við að tálma því, hefir þeim eigi orðið ágengt. Blindir mættuð þèr því vera, Íslendíngar! ef að þèr eigi skynjuðuð hvílíkr þessi mikli velgjørníngr er, vanþakklátir, ef að þèr eigi viðrkenduð hann, og tilfinníngarlausir og doſnir, ef að þèr eigi kappkostuðuð að færa yðr hann í nyt. Allir góðir og skynsamir menn í Danmørku hafa mikiliga fagnað þessum velgjørníngi, og margir hafa

látid þad í ljósi í ritgjørdum, sem hafa vakid mikinn eptirþánka hjá Dønum. Og því skyldud þér þá eigi fagna eins og þeir? því skyldud þér eigi leitast vid ad útlista þad hvørr fyrir ødrum, hvílíkr velgjørníngr ydr er bodinn, og hvørnig þér eigid ad færa ydr hann í nyt, svoad konúngsins tilgángr uppfyllist? þvíad engum hluta Danaveldis hefir verid eins mikil þørf á Landþíngisnefnd eins og Íslandi. Fyrst er þad svo ólíkt Danmørku, (og ødrum løndum í nordrálfunni) í øllu því sem mikilvægast er, øllu því sem gjørir þjódirnar ad þjódum. Þad er ólíkt Danmørku ad landslagi, ad loptslagi, ad lunderni innbyggjendanna, ad málinu, ad landsløgum, ad bjargrædisvegum og atvinnu, ad borgataligri nidrrødun. Verdr því eigi réttiliga dæmt um Ísland af Danmørku, og eigi heldr ætlast til, ad þad sem fer vel í Danmørku fari vel í Íslandi. Þarnæst er Ísland svo fjarlægt Danmørku, ad mjøg fáir Danir hafa rétta hugmind um þess sanna ásigkomulag. Er þess því sídr ad vænta, sem ekkért rit er til, er lýsir landinu til fulls, eda svo sem þarf í allann máta. Héraf sézt þá, ad Íslandi var miklu meiri þørf á því enn Danmørku, ad landsmenn fengi leyfi til ad fræda konúng og ríkisrádid um landsins hag, og leggja sínar rádleggíngar til þess er ábótavant sýndist.

Enn má þad telja, ad vér erum nú ordnir svo

mjøg á eptir Dønum í landstjórn og búnadi, og þeim vísindum øllum er þarad lúta, ad oss var naudsyn á einhvørju sem kæmi oss á hreifíngu. Forfedur ydar voru ydr miklu fremri í búnadarvísi og landstjórnarvísi eins og í flestu ødru; en eptir ad landid kom undir konúng og Ísdrinn eigi átti lengr neinn verúligann þátt i landstjórninni, kom svo mikil stødvan á bid borgáraliga líf, ad því eptir þad fór heldr aptr enn fram, einkanliga í hallærunum á 14du øld, og síдan hefir þad stadid í stad, allt til þessara tíma. En svosem eg er viss um, ad Landþíngisnefndin munk koma hinu borgaraliga lífi á hreifíng, svo er eg þess fulløruggr, ad þessi hreifíng verdr landinu til hinnar mestu uppreistar; og engann hlut ætla eg til þess betr fallinn, því ad hún lífgar þjódarandann, en þjódarandinn er øflugri enn gull og silfr, sem þó hafa verid køllud afl þeirra hluta er gerast skulu.

Þegar Ármann hafdi talad þessi ord, hófst Þjódólfr upp úr eins manns hljódi og kalladi hátt svo allir heyrdu

Eg vil enga umbreytíngu hafa, Ármann! Eg vil eiga allt undir nád konúngsins eins og híngad til. Eg vil ad vid sendum til konúngs og segjum hønum þetta. Þad kemr landinu í mikinn þokka hjá hønum, ef vid gerum þetta; Kannske hann sendi okkr peníngа fyrir þad.

Önundr. Þá ertu vid efnid ennþá, Þjódólfr! ertu hreint gal! Vid ættum ad fá adra eins constitum (Constitútión, stjórnarformi) eins og þeir í Fránkaríki; þeir hafa þád gott þeir kallar, þeir kæra sig ekki um hvad kóngr segir.

Sighvatr. Störum misklíkar mér tal ykkar, Félagar godir! En eg flýt því til þín Ármann! ad halda svorum uppi vid þá í svo mikilvægu efni.

Ármann. Eigi hefir þér skilist þad, Þjódólfr minn! sem eg sagdi ádan, þvíad þaraf hefdir þú mátt ráda, ad konúngr ætladi eigi ad rýra sinn einvaldsrétt í nokkurn máta, med því ad skipa Landsþínganefndirnar, og ad öll opinber málefni væru á valdi hans eins eptir sem ádr; Adaltilgängrinn med tédar nefndir er sá, eins og eg hefir ádr sagt, ad konúngr og stjórnarrádid fái svo nákvæma þekkíng á landsins hag, sem verdr, svoad hann ásamt med því geti því betr séd fyrir rádi þegna sinna. Þar nú allt konúngsins mædusáma starf midar til þess ad geta eflt velgegni þegna sinna, og þar hann álítr Landþíngjsnefndirnar eitthvort hid kreptugasta medal þartil, svo sérdu þad sjálfr, ad honum muni eigi vera nein þága í því, ad vér eigi þyggjum hans velgjörníng. Hann mundi miklu framar styggjast vid þad, ad vér snérum bakinu vid hans gódfýsi, og tálmudum hans óþreytanligu umönnun fyrir vorri velferd. Vér yrdum líka ad athlátri hjá öllum Þjódum, og haldnir

hin vesælasta og heimskasta og latasta þjóð í allri veröldunni. Þú hefir heldr eigi svo virdugliga þönka um konúnginn sem vera ber. Fridrik hinn Sjötti var öruggr í því óformi á únga aldri, strax eptir ad hann tók þátt í landstjórninni undir födur sínum, ad létta ánaudarokinu af bændum í Danmörku, hann vard seinna fyrstr allra konúnga til ad fyrirbjóda mannsal í Vestindíum, og þó hyggr þú ad hann muni nú af sjalfsdádum bjóda þegnum sínum þann hlut, er hann vill gefa sé til ad menn þyggi eigi! slíkt er hin mesta fávizka!

Þjóðólfr. Þú segir satt Armann! Ég vissi ekki hvad þessar nefndir áttu ad þýda fyrri enn núna, og þessvegna kom mér þetta til hugar. Eg huradi kónginum mundi vera þægd í því; — Eg elska hann víst eins mikid eins og þú.

Arm. Vel farast þér ord, Þjód. m. og var þess af þér ad vænta. En nú snýég mér til þín, Önundr! mér skýldist á þér, ad þú vildir óska ad konúngr legdi nidr einvaldsrétt sinn, og ad Landþíngsnefndirnar fengi slíkan myndugleika sem fulltrúaþíngid á Frakklandi og Englandi; en enganvegin [g]et eg samsynt þér í því, og víst hygg eg ad þá [f]æri allt verr enn ádr, og flokkadrættir og ósamlyndi [m]agnadist og tálmadi öllum gódum framförum; enda [m]unu og fáir æskja þessa med þér, því flestum mun [þ]ykja gott ad eiga rád sitt á konúngs valdi, og þad

þeim mun fremr, sem þeim nu er leyft ad lýsa högum sínum fyrir hönum. Og hvad Frakka áhrærir, þá vegnar þeim opt illa, af því ad þeir gefa ofltítinn gaum ad konúngum sínum, og ættu menn ad láta ser vîti þeirra ad varnadi verda.

Sighvatr. Þetta fellr mér vel í geð, gamli madr! En ad einu vil eg spyrja þig: Heldurdu ad fulltrúar vorir verdi sendir sudr til Danmerkr, eda þyki þér hitt líkligra ad konúngr gefi oss vora eigin fylkisnefnd í landi voru? Mér sýnist svosem þad sé naudsynligt til þess ad konúngsins nádugi tilgángr uppfyllist hjá oss, eins og ödrum hans þegnum?

Önundr (grípr framí). Nei þad væri mesta óráð; fulltrúarnir þurfa ad vera menn uppá móðin, og þad læra þeir utanlands, og....

Ármann. Skynsamlig er spurníng þín ad vîsu, Sighvatr! en vandt er úr henni ad leysa. Sumir kynnu og ad mæla, ad úrlausn hennar væri eigi leysilig, þarsem þad þegar sé ákvardad í Tilskipan af 28 Maii f. A., ad Ísland skuli hafa sameiginligt þíng med Sjálandi og eyunum, sem liggja þarum kríng; en þad er þó svo lángt frá ad þad sé svo, ad konúngrinn hefir sagt med berum ordum í prentfrelsis tilskipaninni af 29 Sept. 1799 §. 7. „ad þad sé enganvegin sinn vilji, ad rádvandir og upplýstir menn, hindrist frá med einurð og sidsemi, ad opinbera sína meiníngu um þad sem þeir halda eptir

beztu vitund ad kynni ad efla almenna velfarnan; þad skuli ei heldr vera neinum manni meinad, ad segja sína meiníng um þad, hvad hann haldi ad kynni ad þurfa ad lagfæra í landsins lögum, tilskipunum og ödrum opinberum málefnum, þegar hann fari med hæverskligum ordum, og gleymi eigi þeirri lotníngu er hann einsog borgari og undirsáti sé stjórninni og löggjafanum umskyldugr." Þetta sama er ad finna seinast i sömu tilskipan. En allraljósast sést þad af tilskipanninni um Landþínganefndirnar, ad þad er enganvegin óleyfiligt eda konúngi og stjórnarrádi hans á móti skapi, ad menn láti meiníngu sína í ljósi um opinber málefni, þvíad þad er Landþínganna tilgángr ad upperfa menn til þess. Konúngr hefir og sjálfr gert rád fyrir, í enda tilskipaninnar (af 28 Maji f. A.), ad tídin kynni ad sýna, ad hinar fyrstu tilskipanir um fylkjanefndirnar þyrftu umbreytínga vid, og sýnir þad ljósliga, ad konúngr ætlast til, ad þær skuli umbreytast í því sem þörf gerist.

Sighvatr. Eigi hefdir þú þurft, gamli madr! ad færa svo margar röksemdir til rettlætíngar máli voru, því mér virdist þad svosem sjálfsagt, ad sérhverr gódr konúngr vilji vita allt þad sem betr má fara, og líka umbreyta því í lögum sínum sem naudsyn ber til. En eg get frædt þig um einn annan hlut, sem líkliga réttlætir oss meira enn nokkud

annad hjá sumum mönnum, og það er þetta: að Danir hafa sjálfir talað um þetta efni í vetr. Mér hefði víst aldrei komið til hugar að leggja fyrir þig spurníngu þessa, hefði eg eigi af hendíngu séð bréf hjá Sýslumanninum mínum, sem hann fékk frá Kaupmannahöfn í vor með skipunum. Kablinn sem áhrærði þetta efni hljóðaði svona:

„Margt hefir hér orðið til tíðinda síðan í fyrra, er vakið hefir nýúngagyrni Dana og athuga þeirra, en enginn atburðr hefir átt lángann aldr hjá þeim, þvíað einn hefir rekið athugan á öðrum á flótta, svo að menn virðtust að gleyma þeim hvörjum eptir annan, á fárra daga fresti; þó er sá einn hlutr sem eigi fyrnist hjá Dönum, heldr glæðir hann eptirtekt þeirra meir og meir, eptir því sem tímar líða fram, og eru það landþínganefndirnar, sem konúngr ætlar að skipa í ríki sínu. Hafa margir vitrir menn ritað um þær, og leitast við að útlista þeirra eðli; líka hafa þeir látið ýmsar meiníngar í ljósi sem hafa verið fráleitar tilskip. af 28 Maji f. A., t. d. að það mundi eigi ráðligt eða hagkvæmt, að veita þeim einum valrétt og kosníngarrétt sem eiga fasteignir, að Ísland þyrfti að hafa landþíngisnefnd útaf fyrir sig og fl. Einn herramaðr, komst þarum svo að orði:

„„Hvað það áhrærir, að ríkin er skipt í Landþíngadæmi, þá réttlætist það af sjálfu ser"" —

„ „Einasta med tilliti til Íslands kynni þad mætti ad vera efasamt, hvört þad land er hefir svo marga einka eginligleika, svo frábrugdna landstjórn, og landslög, og lögvenjur (Retsfædvaner), og þessauk 50,000 innbúa, eigi skyldi álítast sem adskilid land er fengi Landþíngisnefnd fyrir sig. Þessi spurníng er þeim mun mikilvægari, sem ýmsar ferdasögur geta þess, ad ennþá lifi ómedal þessa lands framúrskarandi innbúa, gömul laungun eptir slíkum landstjórnartilskipunum (politiske Institutioner), er fordum var þeirra heidrsvardi, og menn álitu sem vörn á móti ríki og veldi embættismannanna, sem ætíd er svo hætt vid þeir vanbrúki, þegar þeir eru svo fjarlægir frá stjórninni." " *)

„Svona komst þessi herramadr ad ordi. En annar madr, sem hefir dæmt um herramannsins rit, **) hefir kroptugliga mótmælt hönum í því, ad þad væri hendtugt og gott ad Jótland fengi adra Landþíngisnefnd enn Sjáland og eyarnar, en med tilliti til Íslands komst þessi dómari svo ad ordi:"

„ „Þarámóti samsinnir dómarinn ad öllu leiti

*) Greifi Holstein: om de Danske raadgivende Provindsialstænders Væsen og Værd S. 27.

**) í Maanedsskrift for Litteratur 4 Aarg. 2 Hæfte S. 165. ff.

rithöfundsins velgrunduðu ráðleggíngu, að veitá Íslandi adgreinda Landþíngisnefnd, þvíað hér er það adgreiníngarefni, er hann (rithöfundrinn) sjálfr hefir heimtað, nefniliga edliligr aðskilnaðr frá Danmörku, bæði að landslægi, þjóðaranda og landstjórn, að einkennum og nauðsynjum, endrminníngum og eptirvæntíngum. Máské og að þeir tilburdir er orðið hafa á hinum síðari tímum, styrki þó athugasemd rithöfundsins, að á Íslandi sé einkanliga nauðsynlig vörn á móti embættismannanna næstum því ótakmarkaða veldi.“ “ *)

„Hinn þriðji maðr sem einnegin hefir dæmt herramannsins rit og önnur tvö um sama efni, er Prófessor Davíð og Prófessor Sibbern hafa ritið **) kemst svo að orði áhrærandi Ísland; „„Þar Próf. Sibbern sjálfr á blś. 89 (í hans riti) hefir framfært þá spurníngu, hvört það eigi mundi vera æskiligt, að öll önnur lönd eða fylki (enn Jótland) í Danmerkur ríki, fengi Landþíng hvört fyrir sig, svo hefir dómarinn undrast það, að hann, þegar hann neitaði þessari spurníngu, eigi undanskildi Ísland. Eptir tilskip. 28 Maii f. a. §. 1. á Ísland að senda sína fulltrúa til landþíngsins í Sjálandi. Dóm. vildi hér

---

*) Maanedskrift for Literatur 4 Aarg. 2 H. S. 181.

**) Próf. J. Møller i Literatúrtíðindunum fyrir árið 1832. Nr. 7, 8 og 9.

allrahelzt, (og miklu fremr enn fyrir Jótland), óska, ad Ísland yrdi undanskilid (þ. e. fengi landþíng fyrir sig), 1) vegna þess fjarlægdar, 2) vegna þess málid, lifnádarháttrinn, þarfirnar, og hin borgaral. nidrrødun eru þar svo ólík því sem hér er, 3) vegna eyarinnar tignarligu fornaldar og dýrmætu endrminnínga, og hefir Dr. Henderson sagt, ad alþíng sé jafnan ó medal þeirra í fyrirúmi." " *)

„Eg verd enn ad geta þess, ad enn fjórdi madr hefir verid á sømu meiníngu eins og hinn sídarst nefndi dómari, um, ad þad mundi vera betra ad Jótland hefdi sameginliga landþíngisnefnd med Sjálandi og eyunum; **) hann nefnir ad sønnu ekki Ísland, en hann segir, ad ef ad Norvegr hefdi nú verid Danmørku áhángandi, þá hefdi þar verid allt ødru máli ad gegna; en þar hann segir svo um Norveg, svo mundi hann eigi segja þad sídr um Ísland, ef hann minntist á þad. Þykir mér nú eigi ólíkligt, ad þar Dønum þykir ad Ísland hafi svo mikla þørf á adgreindri Landþíngisnefnd, þá muni Íslendíngum eigi þykja þad sídr; má eg og eigi leyna því ad eg er einn í þeirra tølu."

*) sama stad Nr. 9. S. 136.

**) Kjøbenhavnsposten Nr. 28.

Sighvatr kvadst nu eigi muna meira úr bréfinu og lauk svo tali sínu.

Þjóðólfr. Aðgætinn madr ertu, Sighvatr! og eptirþánkasamr, og þykir mér saga þín öll merkilig, enda vil eg nú í trausti alls þess, sem bædi eg og þú hölum nú fært oss til afsökunar, leitast vid ad svara spurníngu þinni. En eg bid bædi þig og adra ad gæta þess, ad úrlausn mín er getgáta ein, og kann því vel ad vera ad hún sé raung. Eitt get eg þó sagt med vissu, og þad er þetta, ad sjái konúngr ad Ísland þurfi adgreinda Landþíngisnefnd fyrir sig, þá fær þad hana.

Mín adalmeiníng er hin sama sem hinna dönsku manna, ad konúngsins dýrmæti tilgángr med Landþínganefndirnar uppfyllist eigi í Íslandi, ef þad á ad hafa sameiginligt landsþíng med Sjálendíngum; en ef landid fær sitt Landþíng fyrir sig, þá verdi þad til hinnar mestu uppreistar. Eg byggi þetta á eptirfylgjandi rökum:

Þad er í fyrsta máta naudsynligt, til þess ad tilgángr Landþíngisnefndanna uppfyllist, ad eigi mjög fáir taki þátt í nefndarinnar rádagjördum, eda med ödrum ordum, ad eigi allfáir menn verdi kjörnir í nefndina; því þad væri þá miklu líkligra, ad hvorr hlutr yrdi vandligar yfirvegadr og á fleiri vega; landid bæri þá og meira traust til nefndarinnar, sem eigi má vanta, ef vel á ad fara. En ef fulltrúarnir

væru mjøg fáir, svosem 2 eda 3, þá væri hættara vid, ad þeir færu á afvegu, og léti leida sig af vanþekkíng, eda sérlyndi eda eigingyrni, og gerdu þannig landinu ógagn og enga nytsemi. Nú er þad audsært, ad ef fulltrúar Íslendínga eiga ad fara sudr til Danmerkur í hvørt skipti, þá geta þeir eigi ordid margir, og eigi fleiri enn tveir eda þrír, í mesta lagi, en ef ad þér fáid Landþíngis-nefnd útaf fyrir ydr, þá geta þeir ordid miklu fleiri.

Ønundr. Þad sé eg ad eg verd ad herda mig og leita skynsamligra røksemda, ef eg á ad geta hrundid þér, Árm.! En þad vilda eg þú athugadir, ad því fleiri sem fulltrúarnir verda, þess verr gengr allt, því þá argar hvørr í munninn á ødrum, og enginn endi kemst á neitt. Og ef fulltrúarnir fara nidr til Danmark, þá er þad meira enn nóg, ad þeir séu 2 eda 3, því þeir dønsku verda nógu margir; þeir lagfæra þá og segja þeim þad, sem þeir ekki vita., Þa verda heldr ekki adrir valdir til fulltrúa enn embættismenn; þeir standa sig nok.

Ármann. Tvo hluti hefir þú nú tekid til ástædu fyrir þinni meiníng, Ønundr minn! sem í raun og veru eru ástædur fyrir minni. En þar sem þú segir, ad hvørr argi í munninn á ødrum, þar sem margir séu, þá svara eg: ad þar munu verda reistar skordur vid, med hendtugum reglugjørdum. Þú segir, ad ef fulltrúarnir fari sudr til Danmerkur, þá

séu 2 eda 3 nógu margir, hvíað Danir taki þá þátt í rádagerdum þeirra, og lagfæri þá. Nei, þetta færi ødruvísi. Fulltrúarnir í Danmørk þekkja mjøg lítid til Íslands, og því mundu þeir láta Íslendínga eina ráda, en þá væri landsins hagr ad miklu leiti í hendi tveggja eda þriggja manna. En ef Danir létu eigi Íslendínga ráda, og yrdu á móti þeim med atkvæda-fjølda, þá mundi þad þó eigi betur fara, sem ei væri von, hvíað þar dæmdu þeir um þad sem þeir eigi þekktu. Þetta er mín ønnur ástæda fyrir því, ad Íslendíngar hafi eigi sameiginlig Landþíng med Dønum. En þar sem þú segir, ad embættismenn einir verdi valdir til fulltrúa, þá bid eg þig ad athuga, ad slíkt væri gagnstædt tilskipaninni af 28 Maii f. A. og gagnstædt Landþínganefndanna edli og tilgángi. Tilskipanin segir, ad embættismenn verdi ad fá konúngligt leyfi til ad geta ordid valdir, líka er tilgángr Landþínganefndanna sá, ad konúngr fái ogsvo ad vita af ødrum enn embættismønnunum hvørnig þegnum hans lídi. Þad er embættismannanna skylda, ad gera konúngi nákvæma grein á øllum opinberum málefnum, og ad bera fram þeirra rádleggíngar um þad, sem þeim virdist ábóta vant; en konúngi hefir eigi þótt þetta nóg og því hefir hann stiptad Landþínganefndirnar; þad er og audsært, ad þóad embættismennirnir yrdu valdir, þá fengi þeir adeins tækifæri til ad fullnægja enni sømu skyldu,

sem fylgir embætti þeirra, á nokkud ödruvísi hátt, svoad mjög lítid ávinnist þarvid. Þeirra hugmyndir og rád yrdu óumbreytt, almúgans raust heyrdist eigi framar enn ádr, og þó eitthvad kynni ad virdast ábóta vant vid embættisverk þeirra, þá yrdi eigi audveldliga rádin bót á því. Þaradauki hafa embættismennirnir þad álit í öllum löndum, ad þeir séu konúngsins þjónar, og dragi því stundum framar hans taum enn almúgans; allt þetta mundi gera þad ad verkum, ad landsmenn hefdu lítid traust á fulltrúum sínum, ef þeir væru allir embættismenn. Þad er og enn tilgángr Landþíngnefndanna ad glæda almennann þjódaranda, og ad vekja almenníngs eptirtekt á opinberum málefnum, er aptr leidir til ljósari þekkíngar á sinni borgaraligu tilveru, og til framfara í framkvæmd og velgengni. Ef ad embættismennirnir sem hafa þetta framar ödrum til ad bera, yrdu einir valdir til fulltrúa, þá nædist eigi þessi mikilvægi tilgángr, og eg sé ekki betr, enn ad Landþíngisnefndin yrdi þá mjögsvo gagnslítil fyrir land vort. En ef Ísland ætti ad hafa sameiginligt Landsþíng med Sjálendíngum, þá gætum vér þó eigi sendt adra þángad enn embættismenn, því adrir enn þeir eru ei svo æfdir ad mæla á danska túngu, eda svo kunnugir hegdan og sidum Dana, ad þeir séu færir til ad leysa slíkt eyrindi af hendi, svoad landinu væri gagn ad og sómi. Þetta er því mín þridja ástæda

fyrir þeirri meiníng ad konúngsins tilgángr med Landþínganefndirnar uppfyllist eigi i Íslandi, ef þad fær eigi Landþíngisnefnd útaf fyrir sig.

**Önundr.** Lítid gerir þú úr Embættismönnunum, gamli madr, þú fornermar þá, eda . . þú gerir þeim órétt til; þú mættir fyrirvirda þig.

**Ármann.** Þad sé fjærri mér ad nidra þeim eda ad gera þeim órétt til, þad væri illa gert af mér, og kæmi líka nidr á ómakligum, þarsem eru yfirvöld lands vors, þau er nú eru uppi. Þad er eigi af vantrausti til embættismannanna af minni hálfu, ad eg held ad þad sé eigi hagkvæmt ad þeir séu alþýdufulltrúar, en þad kemr til af stödu þeirra; þeir eru konúngsins þjónustumenn, og geta því eigi, ad minsta kosti ad útvortis áliti, eins vel og adrir, byrst sem lýdsins þjónustumenn, því þad lítr þá svo út, eins og þeir þjóni tveimr herrum, sem lengi hefir þótt forveldt. Eg játa ad vísu, ad konúngsins og þegnanna sanna gagn sé eitt og hid sama, og ad embættismennina lángi hjartanliga til ad mæla fram med skynsamligum óskum lýdsins; eg játa ad þeir jafnvel beri meiri umhyggju fyrir lýdsins sönnu velferd enn lýdrinn sjálfr, og ad þeir hafi betra vit á því enn flestir adrir; en Landþínganefndirnar hindra eiga þessa godu eginligleika frá, ad gera allt þad gott sem þeim er unt, þó ad embættismennirnir verdi eigi (allrasízt einsamlir) í nefndinni, því þeir eiga ad verka, ad sínu leiti

eins eptir sem ödr. En því verdr heldr eigi neit= ad, ad embættisstéttinn hafi vissar hugmindir sem ekki koma saman vid fólksins, og ef svo er, þá fer bezt ad hvörutveggi láti sínar hugmindir og þanka í ljósi, því ad þá sést betr hvad réttast er og bezt í hvörju máli, þegar því hefir verid velt á allar hlidar; þad er og ætlan mín ad þá fari bezt, þegar embætt= ismennirnir og nefndin hafa auga hvört med ödru, en þad getr eigi audveldliga ordid, nema svo sé, ad embættismennirnir séu fyrir utan nefndina ad nokkru leiti. Engin taki ord mín svo, ad eg haldi ad þad sé rádligt, ad engin embættismadr væri í nefndinni, ef hún væri hér í landi, því eg hygg ad hitt væri naud= synligt, ad nokkrir veraldligrar stéttar embættismenn væru í henni, til ad leidbeina mönnum í því, hvörnig þeir skyldu haga framburdi mála sinna og s. frv. Þad er og audséd, ad yfirtaks mikid rídr á, ad í Landþíngisnefndinni séu þeir menn, sem vel eru viti bornir, og hafa ljósa þekkíngu á landsins veruliga hag, og landsins málefnum. Nú hafa embættismenn= irnir þetta framar ödrum til ad bera, og því er þad og af þessum rökum naudsynligt, ad nokkrir af þeim yrdu valdir; en þar er mikill munr á, hvört nokkrir embættismenn eru þar, eda þeir eru þar einir, og engir adrir. Eg vil loksins geta þess, ad mér virdist, ad prestum ætti ad vera audveldara ad öđlast Landþíngissetu enn veraldligrar stéttar embættis=

mønnum, því bædi hafa þeir lítil afskipti vid Stjórnina, og líka er hagr þeirra og ástand líkara almúgans. Þetta er nú sagt med tilliti til þess ad Ísland fái Landþíngisnefnd fyrir sig.

Þyki þér enn, Önundr minn! ad eg geri embættismønnunum rángt til, og þú þykkir fyrir þeirra hønd, þá hefi eg enn þá afbøtun, ad eg hefi eigi sagt annad hérum, enn vitrir menn hafa sagt í opinberum ritgjørdum í Danmørku í vetr *), og hefir engum embættismanni þar komid í hug ad þykkja þad. Mér er líka kunnugt, ad nokkrir embættismenn hér í landi, og margir sem vona ad verda embættismenn seinna meir, eru á mínu máli, og svo munu flestir verda.

Ønundr. Eg held þú segir satt, Ármann! Ef Danskir hafa sagt þad, þá er þad víst satt og rétt; en þad held eg þó, ad fáir bændr séu í standi til ad gera skynsamlig forsløg á nefndarþínginu.;

Þjódólfr. A! heldurdu þad! alltént getúrdu svo góds til okkar, hitt heldr þó! þegar eg verd valinn . . . til . . . til . . þarna hvad þad heitir . . . til

Ármann. Til fulltrúa.

Þjódólfr. Já! til fulltrúa, þá stíng eg strax uppá því fyrsta daginn, ad engar landskuldir

*) Holstein: om de Danske Provindsialstænders Væsen og Værd, S. 30—34.

verdi borgadar ... (í hálfum hljódum) nei, þad er satt! eg á 6 jardir sjálfr, (hátt) nei, ad engir skattar verdi borgadir, vildi eg sagt hafa, og engum presti og engri kirkju, og ekkert hreppsúkísvar, hananú! heldurdu þetta sé þá svo vitlaust?

Sighvatr. Þá skyldi eg stínga uppá ödru: eg skyldi stínga uppá því, ad vér efnudum oss uppá heyfordabúr og matarbúr, og reyndum til ad koma ár okkar svo fyrir bord, ad vér yrdum eigi Danmörku til þýngsla; þad yrdi oss sjálfum til-góds, og þá sæi konúngrinn ad hann hefdi eigi gefid oss Landsþíngisnefnd til óhýtis.

Ármann. Vid skulum ekki tala um þad í þetta sinn hvad best væri ad stínga uppá á Landsþínginu, þad verdr ad bída síns tíma. En þad sem þeir Sighvatr og Þjódólfr hafa nú sagt, sýnir, ad þóad sumir verdi eigi Landsþíngissetunni vaxnir, þá verdi sumir þad þess betur. Þad mun og optast fara saman, ad þeir sem med öfgar fara, munu eigi geta mælt fyrir þeim, en hinir sem bera fram vitrlig rád munu jafnan hafa málsnild nóga til ad tala máli sínu. Svo mundi þad og fara hér: ef ad Þjódólfr og Sighvatr ættu ad gera grein á ástædum fyrir tali þeirra, þá mundi Þjódólfr engar ástædur hafa, en Sighvatr margar og miklar, svoad allir sannfærdust og Þjódólfr sjálfr snérist á hans mál. Þer megid og þakka gudi fyrir, ad margir bændr á medal ydar, eru skynsamir og rádvandir

menn og vel viti bornir, og nokkrir, sem eigi sídr enn sum yfirvøldin vita hvad fødrlandi þeirra bezt hagar. Munu þeir og leggja meiri alúd á, ad afla sér þekkíngar á slíkum hlutum héreptir. Svo munu og þeir, sem valrétt hafa, láta sér annt um ad velja rádvanda og vitra menn, en sneida hjá þrætugjørnum mønnum og þeim, sem eru miklir í ordi en litlir á bordi, og er øll von á ad þá fari vel. Þess ber og øllum ad gæta, ad allt er komid undir því, ad menn velji skynsamliga, og láti hvørki vinfengi eda áeggjanir eda fégjafir eda metord aptra sér frá ad velja þann sem bezt er tilfallinn.

Þjódólfr. Þú segir satt, Ármann! Eg sé þad núna ad eg hafdi órétt; eg sagdi þad svona ad gamni mínu.

Ármann. Hérna sakar þad ekki, en á Landsþínginu mega menn eigi tala þánkalaust og ekki ad gamni sínu; þar á madr ad standa reikníng af hvørju ordi.

Önundr. Mér skilst þad sem þú segir, Ármann! en hvad er þad svo fleira sem þér þykir mæla fram med því, ad Ísland hafi Landþíng útaf fyrir sig?

Ármann. Þad fjórda, sem mælir fram med því, er: ad fulltrúa valid kæmi uppá einhvera hendíngu ef mjøg fáir yrdu valdir, sérhvørr veldi einhvørn sem væri næstr hønum, valid væri þá komid undir

því, hvert hèradið hefði flesta innbyggjendr, og enganvegin undir því, hvarr best væri til þess fallinn.

Í fimta máta yrði það örðugt fyrir fulltrúana, þegar svo á stæði, að þekkja almúgans óskir í öllu landinu.

Í sjötta máta mundu fulltrúarnir opt eigi þekkja vel til annara landsfjórðunga og sveita ásigkomulags, og væri það þó nauðsynligt.

Í sjöunda máta er hætt við að fulltrúarnir mundu draga ofmikinn dóm af útlöndum, og ætla eg það þó sannast, að Ísland hefði mikinn óhagnað þar af, því Ísland á, að minni meining, að vaxa eptir sínu eigin vaxtarlagi, ef því er vöxtr ætlaðr, og eigi eptir annara landa, því annars er hætt við að það fái æxli og annann vanskapnað, sem lini þess heilsu og veiki þess krapta.

Það áttunda sem mælir fram með máli mínu er það, að Holsetuland og Slesvík og Jótland eiga að fá Landþínganefndir hvert fyrir sig, og eru þessi fylki þó miklu líkari Sjálandi enn Ísland, og miklu nær því.

Önundr. En heyrðu, Ármr! það yrði mikilstil of kostnaðarsamt að hafa fylkisnefnd í landinu sjálfu, því þá yrði að velja marga fulltrúa.

Ármr. (heldr áfram). Mín níunda ástæða er sú, að það mundi verða 3 sinnum til 6 sinnum kostnaðarmeira fyrir landið, að senda 3 fulltrúa suðr

til Danmerkur, enn ad hafa yfir 30 fulltrúa hér í landi. Fulltrúarnir yrdu ad fara utan ad haustinu; yrdi nu Fulltrúaþíngid í Sjálandi haldid um vetrinn eptir, þá kæmu fulltrúarnir heim aptr ad vorinu. Eigi ad sídr mundi hverjum fulltrúa eigi veita af 800 dølum til launa, því þeir yrdu ad halda sér til eptir útlendum sidum, til þess ad halda á virdíngu sinni: þad yrdi fyrir þá alla 2400 dalir. En ef ad Landþíngid yrdi eigi haldid fyrri enn um sumarid eptir, þá yrdu fulltrúarnir ad vera í Danmørku hálft annad ár, og þá veitti þeim eigi af 4000 dølum eda þaryfir, øllumsaman, og mundi almúganum þykja þad tøluverd byrdi, fyrir ekki meira gagn enn hann mundi vænta af før þeirra.

En ef ad Ísland fengi Landþíngisnefnd fyrir sig, innan sinna takmarka, þá geri eg rád fyrir, ad þad mundu verda valdir 2 fulltrúar úr hverri sýslu, nema úr þeim sem minstar eru, þær mundu láta sér lynda med 1, og geri eg þá rád fyrir ad fulltrúarnir yrdu 34 alls. Nú hygda eg þad rádligast ad gefa fulltrúunum eigi meira kaup enn svo, sem svaradi ferdarkostnadi og fædinu, svoad enginn fýktist eptir Landþíngissetunni fyrir peníngávinníngs sakir; hygg eg því ad þad væri nær sanni, ad þeir sem byggi næstir þíngstadnum fengi 15 dali, og þeir sem lengra væru frá nokkud meira, allt ad 40 dølum. Þetta mundu verda alls hérum 800 dalir. En sé þessi borgun

heldr í minna lagi, þá mætti það vera fulltrúunum betri og þægiligri uppbætir, að vita, að meðborgarar þeirra bæri traust til þeirra, og meðvitundin um að hafa gert sitt til að koma nokkru góðu til leiðar fyrir landið. Þess ber og hér að geta, að nefndarmennirnir voru eptir Jónsbókar þingf. b. 2 kap. miklu fleiri og höfðu líka miklu minna kaup. Þeir voru alls 84 að tölu *); þeir sem lengst voru frá úr Múla-þíngi fengu 18 aura í kaup, og þeir sem áttu skemsta leið, t. d. ur Kjalarnesþíngi, fengu aðeins 4 aura. Alls fengu þeir hérum 35 Hundr.; Geri menn það að peníngum eptir Kapitulstaxta meðalalin, þá verðr það eigi meira enn 560 dalir silfrs, því þóað meðalhundrað reiknist nú a sumum stöðum meira enn á 16 dali eptir öruverði, þá verðr það þó eigi meira í silfrreikníngi. Héra sést, að sérhverr nefndarmanna hefir fengið hérum þremsinnum minna kaup enn eg hefi getið til að fulltrúar vorir mundu fá.

Þjóðólfr. Mér þykir þessi kostnaðr nógu mikill, þó hann verði eigi aukinn með því, að senda

---

*) Eptir Hákonarbók eða Járnsíðu áttu þeir að vera 140 að tölu; eptir Jónsbók 84, og eptir réttarbót Hákonar Magnússonar 48, en réttarbót þessari var aldrei hlýðt.

fulltrúa sudr til Danmerkur, og eiga svo undir kasti hvad þeir hafast ad. Mér þykir þad lángtum nær, ad vid höfum þá hérna hjá okkr, svo ad vér getum haft auga med þeim; þeir mundu eigi kjæra sig stórt um þad hvad vid segdum, þegar þeir væru komnir út í Útlönd.

Ármann. Þú munt nærri fara, Þjódólfr minn!

Önundr. Eg held þú segir satt, Árm.! um kostnadinn, þad hugsadi eg þó ekki, en nú sé eg annad sem mælir á móti þínu máli. Eg held þá fyrst og fremst, ad Ísland fái eigi svo marga fulltrúa, af því ad þeir verda þá miklu fleiri eptir fólkstölu enn í Danmörku, og væri þad þó eigi rétt ad gera mun á löndunum í því.

Ármann. Þad virdist mér audsært, ad svo marga fulltrúa þurfi ad velja í hverju því landi, er hefir Landþíngisnefnd fyrir sig, ad innbyggjendurnir geti borid traust til nefndarinnar, ad hún vekji fólkid til eptirþánka, í einu ordi, ad hún nái sínum tilgángi; og þá er þad audséd, ad fulltrúa talan eigi getr verid bundin vid fólksfjöldann eptir sama jöfnudi í því landi, er hefir fátt fólk, eins og í ödru sem hefir þad margt; hvorutveggi löndin hafa jafnann rétt fyrir því.

Önundr. En heldrdu ekki ad Íslendíngar yrdu þrjótslir?

Arm. Nei, það held eg ekki, Íslands saga hrekr slíka sakargipt, síðan landið kom undir kóng.

Önundr. En það yrði of örðugt og kostnaðarsamt að safnast saman á einum stað í landinu.

Ármann. Um kostnaðinn höfum við talað, hann verðr þó miklu minni enn ef vér sendum fulltrúa til Danmerkur. En hvað örðugleikanum viðvíkr, þá yrði hann eigi meiri nú, enn hann var um þau 800 ár, sem Alþíng stóð. Enda er örðugleikinn ekki mikill fyrir ykkr, um bezta tímann á sumurin. Þér eruð vanir við ferðalög, og það á vetrardag þegar verst eru veður, og því mundi þíngreiðin um þetta leiti (um og eptir Jónsmessu) eigi þykja örðug heldr skemtilig; menn mega heldr eigi setja nokkurn örðugleika fyrir sig, þegar föðurlandið á í hlut. Eg get hlegið að yðr, þegar þér hafið slíkar viðbárur í frammi, þér, sem alla yðar æfi hafið vanist við að yfirvinna torveldni, já, að álíta það torvelda auðveldt. Ólíkir yrðuð þér þá feðrum yðar göfgum, þeir vílaðu það eigi fyrir, sér að fara til Alþíngis, og taka þátt í opinberum málefnum; þá voru bændr lögskildir að fara til þíngs, þegar þeir voru kvaddir til að bera kviðu *), eða höfðíngjarnir kvöddu þá

*) Kviðr var nefnd manna, 5, 9 eða 12 að tölu, eptir málavexti. Þessi nefnd var miðt á milli

fylgdar, og létu menn þad eigi á sér heyra, en ef menn nú adeins vilja skylda 2 menn úr sýslu til þíngferdar, þá kveinid þér og kvartid, eins og ydr sé lagt óbæriligt ok á herdar. Takid því til ydar manndóm og hugrekki, og leggid nidr kveifaraskap þann, sem nú virdist muni ætla ad gera útaf vid öld ydar; og keppist hvorr vid annann ad bera tor-veldni og ördugleika fyrir födurlandid.

Þjódólfr. Gættu ad, Ármann! Um vor-tímann eiga menn svo annríkt ad menn komast ekki til ad víkja sér útaf heimilinu.

Ármann. Forfedur ydar áttu eins annríkt eins og þér, og fóru þó til þíngs úrtölulaust, og

---

vitna dómara, en var þó hvörugt. Þeir sem í kvid vorn áttu ad bera um, hvort þeir héldi ad madr væri sekr eda sýkn, eda hvad þeir hugdu sannast í því máli sem undir þá var borid. Kvid-burdrinn var því betr eda midr grundvöllud get-gáta, en sjaldan nein vissa, þótt domararnir dæmdi eptir hönum, þegar eigi kom bjargkvidr eda gildr vitnisburdr í móti. Enginn var skyldr til þíng-reidar fyrir kvidburdar sakir, er átti fé minna enn gegndi þíngfararkaupi (er nú gegnir skatti) þótt hann væri tilkvaddr. Grág. þíngskapa þáttr Cap. 13 til 18 og fl. st. Kvidir voru vidhafdir í öllum málaferlum, og voru nábúar ádylja sak-ar, eda þess er sóttr var, til þess kvaddir.

svo ættud hér ad gera. Er og viddára þessi minna verd, enn hún sýnist. Fyrst eru þad mjøg fáir sem þíngferdin þarf ad tefja, og þarnæst fá þeir nokkud í adra hønd: í þridja lagi verda fæstir valdir hvørt ár eptir annad í mørg ár; en þad sem sannar bezt søgu mína er þad, ad menn á vorin eru mest frá heimili sínu og á ferdalagi, hér og hvar um landid, svoad þad er engin nýung, ad menn séu frá heimili sínu um þennann tíma.

Sighvatr. Þú segir satt, Ármann! ad minsta kosti erum vid Skagfirdíngar sjaldan heima um þetta leiti, og víst held eg ad miklu fleiri geri sér ferd til Sudrlandsins enn naudsyn ber til; okkr þykir þad skemtiligt ad létta okkr upp fyrir sláttinn. Þad ætla eg og víst, ad eigi mundum vid Skagfirdíngar telja þad eptir okkur ad fara á Landþíngid þegar landsins gagn lægi vid.

Þjódólfr. Ekki verdum vid Austanmenn eptir, þó vid þykjum minni á lopti.

Ønundr. Vid Sunnanmenn eigum svo skamt, ad ekki verdum vid, tilbaga . . . á eptir.

Allr Þíngheimrinn æpti: Enginn telr eptir sér ad fara á Nefndarþíngid, þegar landsins gagn liggr vid!

Sighvatr. Þú segir, Ønundr! ad þid Sunnanmenn eigid svo skamt til þíngsins, hvar heldr du þad verdi haldid?

Ohundr. Hvar eg haldi þad verdi haldid! þad er svosem sjálfsagt, í Hovedstaden Reykjavík.

Sighvatr (þegir fyrst, og segir sídan). Hvad segir þú til þess, Ármann!

Ármann. Eg vil eigi geta á neinn vissann stad ad sinni, en eg vil telja nokkra eiginligleika sem eg held ad þíngstadrinn ætti ad hafa. Þad er þá fyrst, ad eg hygg ad hann ætti ad vera sem næstr midju landsins; þarnæst ad hann væri nálægr þjódvegum, svoad afvegir eigi gjørdu leidina lengri og torveldari, og ferdamenn, þeir er vildu koma á þíngid, gætu hægliga komid því vid, án þess ad gera mikinn krók á leid sinni; þarnæst hygg eg, ad þar ætti ad vera gód hagbeit fyrir hesta; þarnæst ætti þar ad vera fridsamt, svoad skarkali og háreisti og ønnur umsvif eigi glepti fyrir fulltrúunum, og loksins vilda eg sá stadr yrdi valinn, sem framar ødrum gæti veitt Fulltrúa- eda Landþínginu álit hjá landsmønnum, gæti vakid fulltrúanna fødurlandsást, og upphvatt þá til ad líkjast forfedrunum ad árvekni og framsýni, til ad leggja allt kapp á, ad veita landinu þann vøxt, er samkvæmr væri þess vaxtarlagi og engann annann, og til þess ad vidhalda Þjódarandanum og styrkja hann; þetta sídarsta er ad minni hyggju hid mikilvægasta atridi í þessu efni, og ætti því ad ráda málalyktum.

Önundr. Þessi stadr er Reykjavík, þad þori eg ad banna uppá.

Ármann. Hitt er ætlan mín, ad enginn stadr hafi þessa eiginligleika sídr til ad bera enn Reykjavík. Hún liggr út vid sjó og lángt fra midju landsins; þar er mjøg torveldt ad fá beit fyrir hesta um lestatímann þegar øllu ægir saman; þar er svo mikil øs og skarkali og mannþraung, ad vid sjálft liggr, ad menn verdi frávita. Þad mælir og heldr eigi fram med Reykjavík, framar enn ødrum stødum, ad þar séu gestgjafar eda gestaherbergi, þessu er enda miklu midr farid í Reykjavík enn annarstadar, einkanliga um lestatímann; þá liggr nærri, ad hverr trodi annann undir. En hvad vidvíkr hinu sídarstnefnda atridinu, þá sé eg eigi betur, enn ad þad eigi hjá engum stad sídr heima enn Reykjavík. Í Reykjavík búa útlendir verslunarmenn mest megnis, er mæla á útlenda túngu, og hafa útlenda sidu, sem von er, en Íslendíngar eru þar fáir búsitjandi, en þeir sem þad eru, semja sig ad háttum bæarmanna, sem von er, og verda framar útlendir enn innlendir bædi í hegdan og tali. Er þad af þessu ljóst, ad Reykjavík hefir mjøg lítid af því til ad bera, sem landinu eda Þjódinni er eiginligt og íslenzkt má kalla. Héraf leidir þad, ad hinir skynugri menn á medal almugans, eigi hafa Reykjavík í neinum hávegum, þvíad þeir ætla ad þar dafni helsta rótin til alls þess, sem

virdist ad vera gagnstædt þjódarandanum, og heldr virdist ad spilla enn bæta. Þetta segi eg enganveginn til ad lasta bæarmenn, hvad hess er öll von ad þeir mæli á sína túngu, og hafi sína eigin sidu. Slíkt hid sama mundum vér gera ef ad vér bygdum oss bæ í framandi landi, og nokkr dugr væri í oss og eigi geta þeir adgjört, þóad landsmenn leitist vid ad apa eptir þeim, þad sem þeim er sjálfum til ógagns enn engra nota; en eg vard ad segja þad sem var, svoad þad sanna eigi dyldist. Af öllu þessu er þad audsært, ad hvörki getr Reykjavík lífgad födrlandsást og þjódaranda fulltrúanna, og eigi aukid þeim álit í augum landsmanna, eda eflt trúnad til þeirra; hitt er heldr líkara ad Reykjavík mundi tálma hvörutveggju.

En fyrst eg hefi nú sýnt, ad Reykjavík hafi eigi þá eiginlígleika er eg nefndi, þá munud þér ætlast til, ad eg vísi ydr þá á annann betri stad. Þykist eg gera þad, þegar eg nú vísa ydr á þennann stad sem vér stöndum á; hann hefir alla þá eiginlígleika til ad bera sem eg taldi ádan.

Önundr (forvida og hálfbistr). Þenna stad! Hérna, í hrauninu því arna villtu láta halda Próvindsíastöndin? Nei, nú ertu gal, Ármann! Nú vil eg ekki tala med þig lengr. Nei þad verdr aldrei, þad skal aldrei verda! Það þarf engra bevísnínga vid, þad fyrirstendr sig af sig sjálfu, þó skal

á til yfirklódughelta gefa hér nokkra grundi fyrir mínu uppástandi.

Fyrir þad fyrsta vill kóngr, ad Hovedstaden Reykjavík skuli verda sem stærst, og því er öllum nálægum yfirvöldum bodid ad búa þar; af sömu rökum mun Próvindsíaslöndunum verda skipad ad halda samkomur sínar í Reykjavík.

Fyrir þad annad, mætti brúka yfirréttarhúsid í Reykjavík, til ad halda samkomurnar í.

Fyrir þad þridja, yrdi þad miklu kostnadarsamara ef nýtt hús yrdi byggt, ad byggja þad hér vid Öxará enn í Reykjavík.

Fyrir þad fjórda, yrdi þad miklu kostnadarsamara fyrir fulltrúana, ad lifa hérna enn í Reykjavík. Eg er ganske viss uppá, ad einhvörr færi og bygdi þar vertshús, þegar hann væri viss um værínguna af fulltrúunum.

Fyrir þad fimta, ansé eg þad fyrir mikid áríd andi ad sem flestir fái léligheit til ad sjá samkomur Próvindsíastandanna, en þetta verdr hvörgi eins og í Reykjavík um lestatímann, því þegar mönnum verdr ó milli, þá geta þeir skotist uppí yfirréttarhúsid og hlustad á; en fáir mundu gera sér krók híngad til þess.

Ármann. Margar röksemdir ber þú fram, en þó ætla eg ad svar liggi til þeirra allra. Hvad vidvíkr hinni fyrstu, þá er þad audséd, ad stjórnin hefir breytt meiníngu sinni seinna, því nú er flest-

um embættismönnum, þeim er áttu að búa í Reykjavík, leyft að búa annarstaðar; líka var skólinn fluttr þaðan eptir fárra ára veru. Má af þessu ráða, að eigi muni Landþíngið sett í Reykjavík af ríkdri roksemd; mun hún og því síðr verða gildandi héreptir, sem allt virðist að benda til, að Reykjavík aldrei verði mikil og eigi stórt meiri enn hún er orðin.

Yfirréttarhúsið í Reykjavík er oflítið fyrir svo fjölmennt þíng, sem Landþíngið líkliga yrði, að minsta kosti mundu fáir geta komist að, til að sjá og hlýða á það sem framfæri.

Það er satt, það yrði þeim mun kostnaðarsamara, að byggja húsið hér við Öxará, enn í Reykjavík, sem húsaviðarflutníngrinn kostaði þaðan og híngað; en yrði húsið byggt af steini, ætla eg það mundi verða þeim mun hægra hér, sem flutníngskostnaðinum gengði. Eg vil um leið geta þess, að eg hygg að kostnaðarminst yrði, að hver sýsla sendi eins marga menn til að byggja húsið, af steini, eins og hún sendi marga fulltrúa.

Þú heldr, Önundr! að fæðið mundi kosta fulltrúana meira hérna enn í Reykjavík. Mín ætlan er þinni gagnstæð. Þú heldr einhverr bygði gestaherbergi eða matsöluhús í Reykjavík vegna Landþíngsins, en það held eg þó að enginn gerði þeirra vegna, þegar eigi væri von á að fulltrúarnir yrðu þar nema svosem hálfann mánuð annaðhvert ár, því

á einhvörjn yrdi herbergishaldarinn ad lifa þess á milli. En þó vid gerum nú svo rád fyrir, ad þad yrdi, þá mundi þad kosta meira ad borda hjá hönum enn ad lifa á malsekk sínum þérna. Líka kynni sumum ad verda hættara vid, ad eyda meiru í Reykjavík enn hér, því þar er fleira sem tælir. Þad er og ætlan mín, ad Landþíngid mundi geta fengid einhvörn til ad matreida fyrir fulltrúana hér vid Öxará, um bezta tíman á árinu, ef þeir vildu, og þá þyrftu þeir ekki ad sakna Reykjavíkr vegna matarins.

Þú segir ad í Reykjavík geti flestir fengid tækifæri til ad sjá og hlýda á Landþíngid. Þetta er ad vísu satt, og þín bezta ástæda; en þó sérdu sjálfr, ad þad eru margir menn úr einstökum stödum á landinu, er í Reykjavík fengi betra tækifæri til ad sjá á þíngid; Austanmenn og Sunnlendíngar ættu nokkud hægra med þad, en hvörki Austfirdíngar né Vestfyrdíngar né Nordlíngar, því leid Nordlendínga liggr fram hjá Öxará, og hinir eiga sjaldan leid til Reykjavíkr. Nú er þad audsært, ad þess væri miklu framar ad óska, ad skynsamir menn úr öllum landsfjórdúngunum sæu þíngid, heldrenn ad allir sæu þad úr einum fjórdúngi. Austanmenn og Sunnlendíngar, ega þaradauki mjög skamt hingad, svo ad þeim yrdi audveldt ad koma á þíngid sem vildu; þess er og ad vænta, ad ef Austfirdíngum og Vestfirdíngum og Nordlendíngum þætti svo mikid varid í Landþíngid

ad þeir vildu taka sér ferd á hendr til ad sjá þad, er margir af hinum heldri mönnum mundu gera; þá mundu Austanmenn og Sunnanmenn gera þad þeim mun heldr, sem þeir ættu skemri leid.

**Önundr.** Þad væri þá ofætlan fyrir Stiftamtmanninn og önnur háyfirvöld ad sofa í tjaldi hérna á alþíngi margar nætr, þad mättu þó tilstanda mér.

**Ármann.** Ekki þykir mér þad ofætlan fyrir innlenda menn; en nú á tímum eru Stiftamtmenn vorir úngir menn á bezta aldri, og mundu hyrda lítid um slíkt, þarsem höfudsmennirnir á fyrri öldum opt og tídum voru gamlir öldúngar, og hvörjum manni stóræettadri, og létu þó eigi slíkt á sig bíta. Ekki telja göfugir herforíngjar þad eptir sér, úti löndum, ad liggja lángstundum saman úti í tjöldum, enda láta kveifur einar slíkar úrtölur sér um munn fara. Vænti eg þess og því sídr af þér, sem vér höfum gert rád fyrir, ad hús verdi byggt handa fulltrúunum. En þad sem mest mælir fram med þessum stad er þad, ad hid sídarsta atridid sem eg ádan taldi ad þíngstadrinn ætti ad hafa, á svo vel heima hjá hönum. Þér ímyndid ydr hann, talid um hann og skodid hann med virdíngu, med lotníngu og med gledi; hann vekur í ydr endrminníngu um manndómligar athafnir forfedra ydvarra göfgra, um þeirra áhyggju og lagkænsku og

framkvæmd í landstjórn og opinberum málefnum. Hvíad hér á þessum stad samdu þeir lögbók sína, þá er Grágás er nefnd, og mjög þykir fyrir öllum ödrum lögbókum í hinum nyrdri hluta heimsálfu vorrar, á þeim öldum. Hér á þessum stad sögdu þeir lög og rétt í 800 ár, hér fann réttr og saklevsi athvarf og vernd, en órèttindi og glæpir andstot og refsíng. Hér komu saman lærdir og leikir, yfirbodnir og undirgefnir, til ad yfirvega landsins gagn og naudsynjar, hverjir med ödrum, eins og Fridrik konúngr enn gódi ætlast til ad nú verdi upptekid ad nýu. Þessi stadr glædir ydar fødrlandsást og tendrar ydar framkvæmdar-anda og þjódaranda, þvíad hann vekr í ydr endrminníngu um allt þad, sem þér álítid mikilvægt og tignarligt og heilagt, allt þad sem landinu er eiginligt, allt þad sem mest hefir eflt þess gagn, og aukid mest þess sóma.

Allr þíngheimrinn æpti til ad samsinna þessu. En þegar hljód vard tók Sighvatr þannig til orda:

Svo virdist mér sem þú hafir rétt ad mæla, Ármann! en nú vilda eg vita hvorjir þú heldr ad ödlist valrétt eda rétt til þess ad velja fulltrúa, og hvorjir þú heldr ad fái kosníngarrétt eda rétt til þess ad verda kosnir til fulltrúa.

Árm. Sú er meiníng mín, ad allir skattbændr fái bædi valrétt og kosníngar-rétt; eda þá ad hvor-

utveggi þeirra verdi bundnir vid eitthvert tíundarhundradatal, ef svo þykir betr fara.

Þjódólfr. Eg held ad hvorugr þessi réttr verdi ødrum veittr enn jardeigendum, eda stendr þad ekki svo í tilskipaninni. Jardeigendrnir eru þó mestir mennirnir.

Arm. Ekki þykir mér þad líkligt, því jardeigendrnir eru hvørki fleiri eda gagnligri fyrir fødurlandid, enn adrir medalbændr. Af lausafé gjalda menn skatta og ønnur útgjøld til opinberra þarfa, en af fasteign geldst enginn skattr, þegar jardeigandinn á lausafé fyrir skatti. Tíundin er þad eina sem geldst jafnt af fasteign og lausafé, enda geldr landseti hana og ekki egandinn. Sé eg þó engin røk til, ad þeir sem eiga þad fé, er sætir litlum útgjøldum til opinberra þarfa, skyldu ødlast slíkan rétt, er hinum væri fyrirmunadr, er ættu þad fé er stædi fyrir øllum útgjøldum til almenníngs þarfa, því þeir sem framar ødrum eru skyldir ad fullnægja opinberum þørfum, virdast framar ødrum ad hafa rétt til taka þátt í opinberum málefnum. Ekka held eg ad allir embættismenn andligrar og veraldligrar stéttar, ødlist hvorutveggi réttinn, því þó margt mæli á móti því, þá virdist þó fleira ad ráda til þess, eins og eg hefir ádr ávikid; því vil eg og vidbæta: ad þá yrdi meiri eining á milli embættismannanna og Landþíngsins, sem mér virdist ýfrid naudsynlig. Þad

er audskilid, ad enginn þarf ad velja embættismennina fyrir það framar enn hvørn annann. Mundu og valmennirnir sjá til, ad aldrei yrdu fleiri embættismenn valdir enn annarhvørr madr í mesta lagi.

Þjóðólfr. Þú munt satt segja Ármann! já! þú segir satt. En hvørnig heldrdu farid yrdi ad velja fulltrúa?

Árm. Eg held þeir yrdi valdir á vorþíngum med skrifudum sedlum, eda á annann líkann hátt. Þó held eg það væri betra í mørgum greinum, ad það væru sem fæst kosníngarþíng í hvørri sýslu, svosem 2 eda 3, eptir stærd og ásigkomulagi; slík fjølmenn þíng eru hátídligri, og vekja þjódarandann lángtum framar enn hin minni; þá yrdi og meiri eining í kosníngunni. Líka mundi það betr fara, ef Sýslumenn fengi skilmálalausann kosníngarrétt, eins og adrir, ad einhvørr annar hefdi forráð á kosníngaþíngunum.

Sighvatr. Þetta þykir mér allt mikid líkligt. En segdu mér, Ármann! hvad heldurdu verdi gert á Landþínginu; um hvad helduruu verdi talad?

Ármann. Eg held þar verdi talad um allskonar opinber málefni sem vidkoma landinu, og efla megu þess hag. Get eg til, ad sérhvørr fulltrúi verdi fyrirfram ad lýsa því fyrir nefndinni, hvad hann ætlar um ad tala, svoad allir geti búid sig undir, og hugleidt það mál. Geri eg og ráð fyrir, ad sá sem uppber

frumvarpid, mæli fyrstr fram med því, og svo verdi öllum sem vilja leyft ad tala um þad efni slíkt er þurfa þykir. Þó hygg eg, ad einhvörr viss tími verdi tiltekinn, svoad enginn megi tala lengr. En þegar sérhvört efni þykir nógsamliga yfirvegad og umrædt, þá get eg til, ad atkvædum verdi safnad, ef menn greinir á.

Sighvatr. Eitthvad líkt þessu held eg þad verdi. En segdu mér, Ármann! heldurdu ad fullt trúa þíngid verdi haldid innan luktra dyra, eda ekki; hvad getskardu á þad?

Árm. Eg held þad verdi haldid opinberliga, svoad hvörr geti hlýdt sem vill. Med því móti fengi þad meira álit hjá landsmönnum og trúnad þeirra; hitt mundi verda kallad ískyggiligt ef enginn fengi þar ad koma, því Íslendíngar eru því vanir frá landsins bygging, ad þínghöld þeirra séu opinber og mundi þeim þykja kynligt, ef nú bæri útaf því.

Önundr. Svo miklu hefir þú nú spád um þetta efni, Ármann! ad líklegt er, ad ekki komi meira enn 10di partrinn af því fram. Eg get ekki sagt ad mér þyki þad svo ólíkligt, eda á svo veikum rökum bygt, en eg veit þetta, ad þegar búid er ad spá nokkru um einn hlut, þá gera menn opt leik til þess ad þad komi ekki fram, og svo ætla eg nú ad gera. Eg própónera þá . . .

Þjóðólfr (grípr framí). Própórera! hvad þýdir þad?

Önundr. Ertu gal! þad er sama sem ad fyrirslá.

Þjóðólfr. Þú mátt hvorki slá mig bak né fyrir.

Önundr (stiggr). Eg . . . Eg legg þá þad rád til, ad . . . .

Ármann. Þú getr engin rád lagt í þessu efni heldrenn eg, en geta máttu þess til, sem þér þykir líkligast.

Önundr (fokreidr). Eg get þess þá til, for pokur! ad hér verdi haldid Nefndarþíng í landinu, líkt eins og þú, Ármann! gatst til, þad árid sem Landþíngid eigi verdr haldid í Danmörku, en svo verdi utvaldir 2 eda 3 af fulltrúunum, til ad fara med þad til Danmerkur sem gerdist á Nefndarþínginu, til ad bera þad þar fram á Landþínginu, og til ad mæla fram med því hjá konúngi.

Ármann. Skynsamliga er þetta hugsad af þér ad vísu, Önundr minn! þvíad þad sýnist vænligt í fyrsta áliti; en þó held eg ad þad sé fleira og mikilvægara sem mælir á móti því, enn med því, þegar vel er skodad. Þad virdist þá fyrst og fremst ónaudsynligt, ad yfirvega landsins málefni á tveimr Landþíngum, já, þad virdist enda undarligt og óvitrligt, ad þau malefni sem væru yfirvegud á alla

vegu af landsins beztu og skynugustu mønnum, skyldu aptr verda borin undir adra Landþíngisnefnd í útløndum, sem bæri mørgum sinnum minna skyn á þau, søkum ókunnugleika, og sem, ad vonum, bæri litla áhyggju fyrir þeim. Þad mundi og draga kjark úr Nefndarþínginu hér í landi, þégar menn mættu eiga von á, ad þeirra gjørdir yrdu bornar undir slíka Landþíngisnefnd og ónýttar af henni. Þau ein málefni sem áhrærdu þá hluti, er Danmerkur og Íslands gagn mættust, væri þad ei med øllu óheyriligt, ad Íslendíngar bæru aptr fram á Landsþíngi í Danmørku, en slíks þykir þó eigi þurfa, þar sem fleiri Landþíng eru í sama konúngsríki.

Því næst er þess ad geta, ad ef ónýta mætti gjørdir Nefndarþíngsins hér í landi á Nefndarþíngi í Danmørku, þá kynni þad stundum ad vilja svo óheppiliga til, ad þeir fáu íslenzku fulltrúar, sem þángad yrdu sendir, legdu allt kapp á ad umbreyta og ónyta Nefndarþíngsins gjørdir, og þad þegar verst gengdi. Þad hefir og ætíd þótt varasamt fyrir lýd þann, er hefir ødlast þátt í opinberum málefnum, ad eiga mál sitt undir mjøg fáum mønnum. Þú sérd af þessu, Ønundr minn! ad allt kæmi hér í sama stad nidr, hvørt Ísland hefdi Nefndarþíng eda eigi. Eins yrdi því og varid, hvørt heldr sem væri, ad menn gætu eigi valid adra til fulltrúa í Danmørku enn embættismenn, og sýndi eg þér nokkur

vankvædi á því ádan, en hér vil eg því vidbæta, ad þeir mega eigi lengi vera frá embættum sínum; líka er þad athugaverdt sem nokkrir hafa sagt í Danmörku í vetr, ad fylkisþíngin mundu helzt mega vænta mótstödu af Embættismönnunum *). En þad sem bersýniligast mælir á móti getgatu þinni, Önundr! er þetta, ad kostnadrinn yrdi þá miklu meiri enn þá, er engin Landsþíngisnefnd væri hér í landi, og fulltrúarnir færu beinleidis á fylkisþíngid sudr í Danmörku, og sýndi eg ydr þó adan, ad kostnadrinn yrdi þó mjög mikilu meiri, og meiri enn von væri á ad landid gæti afkastad.

Önundr. Gert hefir þú nú tilgátu mína ólíkligri, en eg gled mig vid þad, ad þín uppfyllist eigi framar enn mín.

Ármann. Svo kann þad ad fara sem þú segir. En þad veit eg med vissu, ad svo víst sem Ísland er ólíkt Danmörku í öllum greinum, svo víst er þad naudsynligt, ad nidrskipan Landsþíngisnefndarinnar fyrir Ísland, verdi í mörgu ólík því sem

---

*) Sjá Holstein: om de Danske Provindsialstænders Væsen og Værd. S. 74, og dóminn um þetta rit í Maanedsskriftet for Literatur 4 Aarg. 2 H. S. 186. Samanber Próf. Davids sendibréf til greifa Holsteins.

verdr í Danmørku, ef ad konúngsins nádugi og mikilvægi tilgángr á ad uppfyllast í landi voru, jafnt sem annarstadar i Danaveldi. Þad veit og med vissu, ad yfirvøld vor leggja alla alúd á ad þad verdi.

---

## A. H.

# Leidavísir

## til ad kenna børnum ad lesa.

---

Þjódólfr. Þú hefir, Ármann! frædt mig á hinu og þessu, ekki lengur enn til hefir tekist med fundi vora, og þó mér annadhvørt ekki skiljist allt sem þú segir, eda ekki gedjist þad, þa játa eg, ad margt hvad sé gott, sem þú rádleggur, og óskandi ad eptir því yrdi gert af sem flestum. Eg dyrfist því vid þig meir og meir, eptir sem vid finnumst optar, og ætlast til þú ekki takir mér þad illa upp, þótt eg leiti þinna atkvæda um eitt og annad, er mér þykir nokkru varda; munu heilrædi þín ei þá verda ad minna lidi, þegar þeirra er leitad, heldr enn þá þú gefur þau óbedinn.

Ármann. Kærast er mér þad, ad menn spyrji mig ráda, því þá er líkligt ad rádleggíngin komi helzt ad notum; þørfin er þá í samvinnu vid umhugsanina, og í flestu reynist hún framtaksøm

og verkdrjúg; en hvad er þad sem þú í þetta sinn ætladir ad bera undir mig?

Þjódólfr. Þad er margt sem eg þyrfti vid þig ad tala, og í mørgu er eg uppá lidsinni þitt kominn; margt verdr mér erfidt í húsføstjorninni, og gétr þad verid orsøkin medfram, ad eg kann ekki þá réttu adferd; nú er eg líka farinn ad eldast og þreytast, og þoli því hvørgi nærri þá áreynslu, sem eg hló ad, þegar eg stód uppá mitt hid bezta. Þó er ekkért sem fær meira á gedsmuni mína, heldr enn sú mæda, ad heyra á, þegar verid er ad kenna børnunum hjá mér ad lesa og læra. Á dagin er eg ad sønnu mest útivid, og hefi lítid af því ad segja, hvad þá fer fram innanbæjar; en þegar eg vakna úr røkkrinu, get og hvergi verid þar sem þessi són ekki heyrist. Konan getur ekki unnid hálfa vinnu innanbæjar, því hún er ad stagla vid krakkana mest allann daginn, þegar hún er ekki nidri vid. Hreppstjórnarnir setja til mín eitt kenslubarn eptir annad, og prestrinn er ekki betri, því eg hefi grun um ad hann rói undir. Mér þykir hann líka ædi vandlátr, helzt um lesturinn, og veit eg þó ekki hvad þessi lestur á ad þýda. Fæstir bændur, og enn sídr vinnumenn komast til ad lesa, þótt þad kunni, og næstum allir sem leggjast í lestur verda ónýtir búmenn, svo þeir ólæsu verda ad hjálpa þeim um hey

og mat þegar útá lídr, á hverjum vetri. Getur du ekki, Ármann minn! komid því til leidar, ad hætt verdi þeirri heimsku, ad kenna únglíngum ad lesa; þad mundi bæta vora búskaparháttu um allann helmíng, og eg vil gefa þér mikid til þess, ad þú gjörir allt hvad þér er møguligt. Eg horfi ekki í ad gefa þér beztu kúna mína, getir þú komid því til leidar, ad eg þurfi aldrei framar, hverki heima hjá mér né annarstadar, ad heyra staglid vid krakkana.

**Ármann.** Ekki þykir mér, Þjódólfr minn! ad þú bjódir svo mikid kaupid, sem mér virdist þér sé annt um ad því yrdi framengt, sem þú óskar.

**Þjódólfr.** Um kaupid skulum vid verda ásáttir en þú þekkir ekki kýrnar í Flóanum, ef þér þykir gód kýr ónýtr gripr.

**Önundr.** Nei! nú vil eg ekki heyra meir vitleysuna úr hønum Þjódólfi; hvørnig getur madr verid þad flón, ad vilja hætta ad kenna ad lesa; hvad verdr þá af upplýsíngunni, og øllum þeim dygdum sem af henni spretta? þad sér líka á ykkur eystra, þegar þid komid í kaupstadinn, svo sést ekki á ykkur nein dygd, ekki svo mikid ad þid kunnid ad hneigja ykkur uppá póleradann máta, med því ad setja fram undan sér hægri fótinn. Þetta lærum vér hér sydra af upplýsíngunni; en upplýsíngin kemur af lestrinum, og einkum þegar lesnar eru nýu bækurnar, og helzt þær dønsku. Eg vil því heldr fá rád hjá

Ármanni, sem komi þvî til vegar, ad allir læri ad lesa dönskuna.

Ármann. Nú er þad audsèd hversu torveldt er, ad gjöra öllum til vilja. Þid heimtid nú tveir af mèr hid gagnstædasta; Þjódólfr vill ad enginn læri ad lesa, og allra sîst þeir úngu, en Önundr, ad menn ekki einasta læri ad lesa módurmálid, heldr og ad minnsta kosti dönsku, svo menn læri rètt ad hneigja sig; kannske, Sighvatr gyrnist nú eitthvad, sem eins er fráleitt hinna tveggja meiníngum?

Sighvatr. Ekki vil eg menn hætti ad læra ad lesa, marga gledistund hefi eg haft af lestrum og gagn med; já eg held eg megi segja, ad tóvinna hjá mèr yrdi miklu minni á veturnar, væri ekki á vökunni lesid eitthvad î mînum húsum, sem hèldi fólki vakandi, og örfadi til samtals um eitt og annad, er lesturinn gefur tilefni til. Þad getur ei verid Þjódólfs vilji, ad eingin skuli læra ad lesa; einhvörr verdur ad vera húslestrarfær, þvî þad veit eg, ad Þjódólfr ekki muni vilja leggja nidr þann sid, sem ordinn er vor á medal ad vana.

Önundr. Já! húslesturinn þann arna læt eg vera; eingir útlenzkir, sem eru miklu upplýstari enn vid, lesa húslestur, og þeir sem vilja vera î manna tölu sydra, bruka ekki mikid med þessa heimsku. Aldrei er eg vid lestur, og ekki kem eg î kyrkju nema

á hátídum, eda þegar einhverr prédikar, sem eg ekki hefi heyrt til ádur.

Þjódólfr. Önundr er sjálfum sér líkr; ekki vil eg heyra hanns ósvinnu, en þér vil eg ansa Sighvatr minn! Eg mundi ekki til húslesturslns; en hann vil eg ekki missa. Foreldrar mínir lásu alltíd í húsum sínum nema um sláttinn, og fóru til kirkju þegar møguliga gátu, og sama sid hefi eg haft í búskapnum; já vid lesum jafnvel lesturinn í Jónsbók á aftekmu hátídunum, og samt bý eg ekki verr enn þeir á nesjunum, sem ekki tefja sig á þess-um døgum med lestri, og eg heyri sagt, ad vinni hartnær eins á Sunnudøgunum og hina dagana, eda ad minnsta kosti fari þá eins í kaupstadinn, þó ekki sé alltíd mikid erindid, til þess ad unnid geti virku dagana, eda þurfi ekki ad fara alla daga í vikunni þángad, til ad sækja sínar naudsynjar. Eg sé því, ad þad er mikid satt, ad nokkrir verda ad læra ad lesa; en þad held og sé óvit ad øllum sé kent ad lesa.

Sighvatr. Eg er ad mestu leiti á þínu máli; þad er til lítils ad kenna hálfvitum ad lesa, nema þad skyldi vera til þess ad gera þá ad óvitum, og til ad plága þá, sem vitid hafa. Eg þykist hafa tekid eptir því, ad gáfulausir únglíngar hafa mist sínar litlu gáfur, eptir ad farid var ad kenna þeim ad lesa; en ekki má, ad þetta hafi komid af adferdinni, eda af því ad

þeirra litlu gáfur voru ørþreyttar med of miklu ad-haldi. Verdi og ekki lyst til ad læra vakin, þá má ekki mikid kenna, því þa fer eins hvad gáfur snertir, ad eg fminda mér, eins og þegar sá bordar mikid sem ekki hefir lyst á ad borda; þad sem átti ad verda ad næríngu, verdr sjúkdóms efni í maganum. Gætir þú nú Ármann! gefid okkur gód rád til þess, ad audveldara verdi ad kenna ad lesa, þá mundir þú ad oss eiga tøluverdt kaup, því eins og Þjódólfr segir, þá er ekki lítid fyrir því haft af oss bændunum, sem ekki kunnum réttu tøkin á því, ad kenna børnønum ad lesa.

Ármann. Eg hefi nú um hríd heyrt á ykkur, og þykir mikid vandhæfi á ad leggja ørd í. Þad efni sem þér hafid á gómum, er mer ekki svo ljóst sem skyldi. Á minni Øld var annad stundad meir enn lestur, og fór þó ekki alt verr fram enn nú. Vid fornmenn vissum þad sem vid vissum; vid unnum meir enn vid tøludum, og hugsudum meir enn vid lásum. Þid talid meir enn þid vinnid, og lesid svo mikid ad þid verdid þegar heimskíngjar, svo uppløystir sem þid þykist vera, því þid hugsid ad alt, sem skrifad er, eg vil nú ekki tala um prentad, sé allramesta speki, og má þó med sanni segja, ad fáar bækur eru sambar á seinni øldum, sem innihalda meira af viti edr sannleika heldur enn svo sem tíunda partinn. Þegar nú hverr hálfvitinn á ad lesa þetta

rugl, þá er vll von til ad hann rugkist enn betur, og þegar þeir rugludu fara sídan ad kenna og semja bækur, þá er ekki von á gódu.

Þjódólfr. Nú líkar mér vid þig, Ármann minn! gjördu þad sem eg bad þig um, eg skal efna loford mitt og launa þér vel.

Ármann. Ekki gét eg komid því til leidar þótt eg vildi, ad hætt verdi ad kenna fólki ad lesa; hvörki má eg breyta lögum ykkar né ráda því, hvörnig nidrsetum er tilhagad í Jlóanum. En gæti eg gjört ykkur bændum audveldara, enn verid hefir, ad hlýdnast þeirri lagagrein, sem býdur, ad allir séu læsir, þæktist eg mikill madur. Tilgángr þess lagabods er og svo gódr, ad verdt væri ad hlýdnast bodordinu, og ekki sé eg hvad ykkar öld á ad hafa sér til ágætis, í samanburdi vid hinar, ef þid ætlid ad sleppa því eina, sem hun gæti, ef vel væri medfarid, talid sér til gyldis. Þó bækur séu líka misjafnar, þá eru þær til, sem verdt er ad lesa, því þær geyma holl sannindi; en sé enginn, læs verdur ekkért lid ad bókum. En þad skilst mér mikid vel, ad ekki sé til gagns ad kenna hálfvitum lestur, eins og nærri má geta, ad þad verk sé ekki audunnid; og væri þad satt, sem þid segid hérum, þá er þad ljós vottur þess, ad vit aldarinnar sé minna enn manna lætin. Þad er nú ad sönnu satt, ad bágt er ad velja úr þá sem ættu ad læra

ad lesa, en þó þeim se kent þad, sem ekki er til neins ad kenna slíkt, þá er ekki ødru spillt enn ómakinu, og er þá margt annad eins unnid fyrir gýg, því þeir sem eru óþolinmódir ad kenna, eda hafa ekki lag á því, ætla øllum ókennandi, sem fyrst í stad eiga erfidt ad nema; er því betra, ad vid nokkra, sem aldrei verda læsir, sé um hríd staglad, heldrenn ad mørgum sé slept og ekki kent ad lesa, sem vel geta ordid læsir, hefdi þeim verid kent þad.

En eg vil nú hverfa til vors eginliga umtalsefnis, sem var þad, ad eg vildi reyna til ad gera ykkur audveldara ad kenna bóklestur heldrenn verid hefir; kynni þad ad verda hendtugt þeim, sem eiga ad kenna tornæmum; en gáfada barnid lærir ad lesa hvørnig sem ad er farid.

Þjódólfr. Jæa! fyrst þú villt ekki ráda til þess ad lestrum sé hætt, þá er betra nokkurt lidsinni enn ekkért, og vil eg leggja vid bædi eyrun, ef ské mætti, ad eg gæti numid þad, sem þú ætlar nú ad segja; en ótrúligt þykir mér, ad eg færi mér nokkurntíma þenna léttir í nyt.

Sighvatr. Mig lángar mikid til ad heyra þetta, því eg gjøri rád fyrir, ad þér faríst þetta vel, Ármann! eins og svo margt annad.

Ármann. Ekki megid þid gera hér rád fyrir miklu, því fyrst lestur var ekki tídkadr mjøg í mínu

Úngdæmi, megid þid nærri geta, ad annad sé mér lægnara, enn kenna lestur. Þad sem helzt gerir ydur erfidt, ad læra lestur, er þetta: ad þér hafid óþarfliga marga bókstafi, og lærid ekki í tíma ad nefna bokstafina rétt.

Önundr. Nei! Nei! nú vil eg ikki heyra meir; mikla skømm gerir þú okkur Ármann, ad ætla vid kunnum ekki ad stafa. Nú sé eg ad þú hefir ekki séd þad sem prestrinn Henderson skrifar um Island, og er þad þó ordid kunnugt um alla Nordurálfu; hann segir ad enginn Únglíngr sé sá, sem 9 ára geti ekki lesid og skrifad fullkomliga vel; þetta hefi eg sjálfar lesid í þýzkri útleggíngu af hans ferdabók, sem til er í høfudstadnum Reykjavík; allir þar geta lesid bædi dønsku og þýzku — en — kannske þad sé ødruvísi upp til sveita.

Þjódólfr. Hvada sveitir talar þú um, Önundr?

Önundr. Eg tala um Rángárvelli, Flóann, Mosfellssveit, og adrar Districtur í Árnessýslu!

Þjódólfr. Ef þú kant ekki betur ad lesa, enn ad skipta sýslum hér í landi, þá held eg ad prestinum mínum líkadi ekki lestur þinn, og ræd eg þer til ad setjast ekki ad í hans sóknum.

Önundr. Eg akta ekkért þessa sveita-presta,

eg gef þeim gódann dag; þeir kunna eingann lifimáta, og prédika í einskeptu hempu spada lausri.

Sighvatr. Verid þid ekki ad þessum ertíngum, þid hindrid Armann, og verdid engu fródari af ykkar kítíngi.

Þjódólfr og Önundr. Vid skulum hætta.

Armann. Ekki munu prestar ykkar kannast vid þad, ad allir únglíngar séu ordnir vellæsir 9 ára, því sídur vel skrifandi á Íslandi; og þó Henderson hafi þetta sagt, þá má fullyrda, ad þad er komid annadhvort af rángri eptirtekt, eda missögn einhvörs þess Íslendíngs, sem heldur vildi ad útbæríst hrós af Íslands háttum, heldrenn sannleiki; en hvad sem þad hefir, þá er sú min meiníng, ad ofmargir séu bókstafir ykkar; færri voru þeir hjá okkur fornmönnum og fór nógu vel á því.

Sighvatr. Hverjum viltu þá láta fækka?

Armann. Ur þeim sem hafa sama hljód í lestrinum, vil eg gera einn bókstaf, eda ekki brúka nema einn þeirra, eda þá nefna þessa alla eins í stöfuninni; þad eru þessir: c, k og q, sem í máli voru hafa sama hljód; því dugir einn þeirra fyrir alla; bezt væri ad brúka ekki nema 1 þeirra, en fyrst allir finnast í prenti og skrift, svo ræd eg til, þegar þid kennid stöfun, ad láta nefna þá alla eins.

Sighvatr. En c er líka lesid eins og s.

Armann. Ekki í norrænum ordum, og lærdir

menn halda ad þad hafi heldr ekki verid svo í látínu medan málid var talad; en hvad sem því lídur, þá kémur þad ekki börnunum vid, hvörnig þessi bókstafr á ad lesast í látinu.

Sighvatr. Má fækka fleiri stöfum?

Ármann. Z og X þarf ekki í Íslenzku; í upphafi ordanna getr enginn gert mun á þeim og Essi (s), en í midju ordi, og enda ordanna, má fyrir þá bruka tvo bókstafi; fyrir z ds eda ts, og fyrir x gs eda ks.

Þjódólfr. Odum fækka stafirnir, og vildi eg þú gætir farid svona med þá alla, þá tækist einhvörntíma ad kenna börnum ad þekkja þá.

Sighvatr. Ekki megum vid missa þá alla, Þjódólfr minn! en þad játa eg, ad allt, sem er óþarfi, má missast.

Ármann. Enn eru tveir stafir sem þid lesid eins, og ættud því ad nefna eins, þad er i og y.

Önundr. Nei! þad er ekki satt, ödruvísi er i nefnt heldrenn y í Reykjavík og hjá þeim Dönsku.

Ármann. Þad veit eg ad Danskir nefna ekki báda þessa stafi eins, en þeir láta þá ekki heldr hafa sama hljód í lestrinum, eins og þid gerid; þú verdr ad gá ad því, ad eg er ad kenna ad lesa íslenzku, en ekki dönsku.

Önundr. Og eg vil slétt ekki læra ad lesa íslenzku, hún á ekki vid mig.

Armann. Þú þarft ekki ad læra af mér ad lesa, hvorki íslenzku né dønsku, og engir þid, en eg er ad láta í ljósi mína meiníngu um þad, hvørnig mundi audveldast ad kenna børnum bókléstr; og hefi eg nú vikid á þad, hvørsu fækka mætti bókstøfum ykkar, eda finna sér léttir í lestri, medan þeir allir brúkast, med því ad nefna eins þá stafi sem eins eru lesnir.

Sighvatr. Vértu blessadur, Armann! fyrir þad, ad þú byggir út Egsinu (X), því margann almúga mann hefi eg heyrt nefna þann alræmda Persakóng Ekseres, og ekki Serkses, sem þó mun vera hans rétta nafn, og hafa þá lærdu mennirnir farid ad kýma ad okkur dónunum.

Armann. Ekki er þád rétt, ad kýma ad vannkunnáttu þeirra í bókmentum, sem ekki eru til bóka settir, og allrasízt þegar hinir lærdu gefa tilefni til þess, sem óhøndugliga fer hjá þeim ólærdu, eins og í því dæmi sem vid nú tølum um. En vid skulum halda oss vid efnid, svo ekki verdi þetta okkar tal ad tómum hégóma, og vil eg nú láta þá bókstafi, sem ekki hefir verid minnst á, óáreitta, en þótt nokkud mætti fleiri um þá tala, því eg vil hrada mér ad minnast nú strax á annad høfud atridi vídvikjandi støfuninni, og þad er þetta: *ad vara vid ad slengja støfum saman, og minna á ad nefna þá rétt.*

Önundr. Nú kemur það sem eg hefi opt sagt, að við ættum að læra að stafa uppá dönsku, og aldrei segja ó, heldur a; af því flýtur sá ljóti lestr Mársá þegar áið er ekki nefnt eins og Danskir nefna það.

Ármann. Það er nokkuð satt í því, sem þú segir Önundr! og nokkuð ósatt; stundum ættu Íslenzkir að nefna óið eins og Danskir, og stundum ekki; En það er ekki einasta óið, heldr flestir hljóðstafir, sem nefnast verða með tvennu móti, og það af því, að þeir lesast svo. Það er því mín fyrsta athugagrein, í þessu efni, að börnum sé kent að greina bókstafi, og nefna alla eins og hljóð þeirra í lestrinum segir til. Bókstafir í ykkar máli eru tvennslags, fyrsta tel eg

Hljóðstafina: þeir þekkjast á því, að þeir verða nefndir án þess að fleiri bókstafir heyrist í hljóðinu, og eru þessir: a, e, i, o, u, y, ø, æ; hinir aðrir heita samhljóðendur, og verða þeir ekki nefndir nema einhvørr hljóðstafr sé meðtekinn, annaðhvørt á undan eða eptir. Þeir sem þurfa, til að verða nefndir, hljóðstaf á undan sér, eru: f, l, m, n, r, s, eins og sjá má, þegar nøfn þeirra eru skrifuð eins og þau talast: eff, ell, emm, enn, err, ess; hinir samhljóðandi stafirnir hafa allir hljóðstaf fyrir aptan sig t. d. bé, cé, dé, gé, há, ká, og s. frv. Væri ekki af vegi, þegar kent er að stafa að

benda börnunum til þessa mismunar stafanna, en einkum rídur samt á, ad kenna þeim ad þekkja hljóds mismun á hljódstöfunum sem eg veit þid hafid eptirtekid.

Sighvatr. Víst hefi eg tekid eptir hönum, en ekki munu allir gæta hans, sem kenna börnum ad lesa.

Ármann. Og er þad ekki lítill skadi; þid heyrid sjálfir, hvarr munr er á hljódi hljódstafanna med striki yfir og án þessa striks; einir tveir af hljódstöfunum eru alltíd nefndir og lesnir eins, nefnil. Æ og Ö hinir allir ödruvísi, þegar strik stendr yfir þeim, heldrenn þá strikid vantar, eins og þid heyrid á framburdi þessara orda: madr, mádr (t. d. bókstafr), her (herlid) og hér (hérna), þor (árædi) og Þór (gudinn), vidr (trjávidr) og vídr (rúmr), bur (sonur) búr (matarhús). É þad, sem strik stendur yfir (é) ætti því barnid strax ad læra ad nefna eins og þad er lesid, nefnil. je, þad var og einusinni svoleidis skrifad í íslenzku máli, þó nú sé því aptr hætt. Allir vitid þid ad adgreina í lestri þá hljódstafi, sem eru med striki yfir sér, frá hinum, sem ekki hafa strikid, en þá ættud þid líka ad kenna börnum ad nefna þá ekki alla eins, því þad gerir kensluna erfidari enn hún þarf ad vera. Ef þid kénnid börnum sona ad stafa þetta ord fyrir (eff — y — err) fýr (— í — err —) ir, þá les þad eflaust

þetta ord fyrir, og les rétt eptir því sem þad var látid stafa, en rángt eptir ordsins framburdi í málinu; stafi þad þarámóti sona sama ordid: eff — y — err — i — err, þa les þad rétt ordid sjálfkrafa. Þad sem nú er sagt um þessa hljódstafi, má gylda eins um O og U; þegar ekkért strik stendur yfir Oinu (o), þá er þad einmidt lesid eins, Önundr minn! og þad óslukkuliga aa eda å í dønsku máli, annars nálægt því sem o í sama máli. U, standi ekki strik yfir því (u), er lesid sem y í dønsku. Hervid vil eg ad eins því vid bæta, ad i og y er eins lesid i íslenzku, og ætti því ad nefnast eins.

Önundr. Þér væri nær, Ármann! ad kenna okkr ad slengja ekki þessum tveimur støfum saman í lestrinum, heldr enn ad eggja oss til, ad nefna þá báda eins; þad gerã Danskir ekki, og munu þeir vita hvad þeir gera.

Ármann. Danskir vita vel at lesa sitt mál, þeir kunna líka ad nefna rétt stafina, en ekki er þad regla fyrir íslenzka, sem tídkast í dønsku máli. Eg skil ekki hversvegna sá stafur sem lesinn er sem i, skuli nefnast ødruvísi enn han er lesinn, en hvørki eg né þú rádum því, hvort hljód stafirnir fá í framburdi ordanna, enn eptir því verdr ad stafa, eigi støfunin ad verda audveld, sem er adal tilgángr minnar tilsagnar ad þessu sinni.

Þjódólfr. Á því ridur mér mest, Ármann!

minn! ad lesturinn sé gerdr audveldr, og þykist eg skilja, ad þad sem þú hefir um þetta efni talad, muni gera töluverdann léttir, ef eptir því væri breytt; því tekid hefi eg eptir því, ad börn sem lært hafa ad nefna v sem ú, hafa átt bágt med, ef tornæm voru, ad lesa þetta stutta ord vid, þau lesa þad: úid, og þykir mér líkligt, ad sami ördugleiki fljótt af sömu óreglu, þar sem um nafn hinna bókstafanna er ad gera.

Ármann. Eg hefi nú litlu í þetta sinn hér vid ad bæta, nema þessu einu, ad í ykkar máli fylgjast stundum tveir hljódstafir ad, sem hafa eitt hljód, og ættu því ad hafa eitt nafn; eg man samt ekki til ad þad séu nema þessir: au, ja og ei; au hefir hardnær sama hljód sem ö, en ja og ei hafa sitt egid hljód; sumir hafa nú nýliga fallid uppá ad skrifa öi fyrir au, en ekki kann fólk vid þá tilbreytni, og hún er líka óþörf, því ekki þarf annad, enn nefna au eins og þad er lesid, og kenna barninu þad strax; en þad gerir þeim ördugleika í lestrinum, séu þau látin nefna fyrst a og svo u, þau lesa þá þetta ord aumur svona: a — um — ur, en ekki eins og vera ber aum — ur; þau gera nefnil. úr ordinu þrjú atkvædi, í stad þess ad þad hefir ei nema tvö.

Eg vil ad lyktum innibinda í fám ordum þær reglur, sem eg hefi nú gefid fyrir stöfun íslenzkunnar, þær eru þessar.

I) Nefn c, k og q alla eins nefnil. K.

II) x og z í upphafi orda s, í midju og enda af ordi, ef þeir brukast, x sem ks eda gs, eda sínu rétta nafni x, og z sem ds eda ts.

III) Gjørid mun á hljodstøfum þegar strik stendur yfir þeim, og þá þeir eru striklausir, og kennid ad nefna þá ødruvísi strax, svo ekki þurfi ad berja bgrnid, þegar þad hefir sama hljód á ámu í þessum tveimur ordum: þá og þar og einn í mér og meri.

IV) Látid þau nefna i og y eins.

V) Látid þau nefna au einu nafni, en ekki tveimur; eins ei og ja.

Ef vid finnumst aptr, skal eg minnast á fleira sem getr gert bóklestur audveldari, bædi þeim sem kennir og lærir.

Þjóðólfr. Nokkur hjálp má ad þessu verda, Armann! en þó vildi eg þú gætir komid því til leidar sem eg í fyrstunni bad þig um, heldrenn ad fylgja þínum rádum.

Ønundr. Eg vil ekkert lesa í íslenzku máli, þetta túngumál er svo dónaligt, ad þad ætti slétt ekki ad hafa þad, en danska og franska ætti allstadar ad talast.

Sighvatr. Eg þakka þér, Armann minn! þessa leidsøgn, víst er ad einhverr hafi gagn af henni sem til hennar fréttir, en þótt engum þenkjandi manni mætti heita ofvaxid, ad vita allt þetta.

Ármann. Nú er þad framkomid, sem eg bjóst vid, ad ykkur mundi ei mikid tilfinnast; þad mátti heita ad fara í geitarhús ad leita ullar, þegar mæltust til af mér, ad kenna ykkur hvørnig ætti ad koma børnum á stofun. En ekki tel eg þad neinn ókost á minni tilsøgn, ad þú, Sighvatr minn! ætlar, ad hverr þeinkjandi madr ætti ad geta sagt sér allt þetta sjálfr. Þú hefir óvitandi hrósad tilsøgn minni, meira enn eg bjóst vid eda hún átti skilid.

---

Eptir þetta gekk madr ad steininum og sté uppá hann, og heilsadi þíngheiminum. Hann var tígugliga búinn, og høfdíngligr í vidmóti og límaburdi. Sumir søgdu hann væri Kaupmadr ad vestan. Hann tók þannig til orda.

G. S.

Nokkrar
Hugleidíngar
um
Þilskipaveidar
á
Íslandi.

Þér hafid nú, gódir menn! talad margt og mikid um ýmsa hluti á þessu þíngi, en engin hefir

minst á fiskiveidar, þad eg man, nema samfjórdúngs-madr minn, um verkan a klipfiski í fyrra. En þar fiskiveidar eru annar adalbjargrædis-útvegr lands vors, svo virdist mér ad menn ættu eigi ad gánga þegjandi framhjá hønum, þegar talad er um landsins efni. Satt er þad ad vísu, ad landgagnid hefir verid kallad bædi miklu vissara og meira, enn sjófargagnid, og svo hefir þad reynst híngadtil, en þad ætla eg sannast, ad sjáfarútvegrinn gæti aukist meira enn landgagnid úr því sem þad nú er, og ad þad geti ordid tøluverdt vissara enn þad nú er; eg játa ad vísu, ad landgagnid geti aukist og margfaldast med forsjá og kunnáttu og tilkostnadi, en þad virdist þó svo, sem takmørk þau, er jardyrkjan og landgagnid geti torveldliga yfir komist, séu miklu nær, og aud sénari, enn þau, er gætu afmarkad framfarir sjáfar-útvegsins. Landid, þurrlendid, hefir vissa stærd og getr eigi útþanist, en hafid hefir ótakmarkada stærd, (ad minsta kosti fyrir vorum augum) og sjaldan siglir madr svo lángt eda breidt, ad madr eigi geti komist lengra eda á annan stad. Jardyrkjan getr aukist: menn geta hladid garda, sléttad tún og aukid, veitt vatni af mýrum og flóum, og fengid þar engi sem engin voru ádr. Menn geta aflad allskonar kálltegunda og jardepla: menn kunna maske med tímalengdinni ad geta aflad korns og hørs og rækt-ad skóga, en þó þykist eg sjá takmørk, sem allt þetta

verdi einhverntíma ad nálgast, en þad er eigi auds veldt ad sjá fyrir endann á framförum og vexti þeim, er sjáfarútvegrinn virdist ad geta fengid. Menn geta naumast ímindad sér svo mörg skip, ad eigi geti fleiri ordid, og naumast ímindad sér ferdir þeirra svo lángar eda margkostnadar, ad eigi geti þær ordid enn lengri og margkostnadri.

Þad er hverjum manni ljóst, ad eg tala hér eigi um þiljulaus skip eda báta, er ætíd binda menn meira eda minna vid landid, og þad vissann stad á landinu; eg meina hér fiskiveidar á þilskipum. Á bátum má kalla ad madr hafi annann fótinn í fjörusteinunum, en á þilskipum hefir madr hús og heimili á sjónum; þá er madr og eigi bundinn vid vissann stad á landinu, heldr fer madr og flýgr umhverfis landid og utí regin haf, eptir ásigkomulagi og gedþekni. Madr þarf því eigi ad vera fisklaus í einni veidistödu, þó ad veidiskapr leggist þar frá um tíma, því þá leitar madr þángad sem veidiskapr er fyrir.

Þetta sídasta bendir til, ad sjáfarútvegrinn geti ordid vissari og óreidanligri, þegar menn leita hans á þilskipum, þvíad þegar menn hafa eigi annad enn báta, komast menn eigi lengra enn í næstu veidistödur. Þetta er nú mikilvægr eginligleiki sem þilskipa veidiskaprinn hefir framyfir bátaveidar, því med því móti kemst sjálfarútvegrinn nær því, ad jafnast vid landgagnid, og getr ordid betra athvarf í hallærum.

Þótt að hafið, sem umgyrðir land vort, geymi mikla björg og mikil auðæfi, höfum vér þó híngaðtil eptirlátið útlendum þjóðum, Hollendíngum og Frökkum, að sækja þessa björg og þessi auðæfi í náðum. Þeir hafa vitað, að vér sátum í fjörusteinunum og höfðum eigi áræði til at fara nema með annann fótinn úti sjóinn, og því hafa þeir komið siglandi hundruðum saman, með hús sín og heimili, sunnan úr heimi, til að sækja auðæfin til vor, ámeðan vér sitjum í fjörunni og sjóðum vorn litla feng, og horfum á þá með undran og lotníngu.

En það er sönn gleði og bót í máli, að vor öld sýnir nú meiri framkvæmd og áræði í veiðiskapnum enn hinar undanförnu, því þó að það megi eigi heita nema byrjun, þá sýnir hún þó, að þjóðarandi vor sé kominn á meiri hreifíngu enn áðr.

Eg vil nú í stuttu máli segja frá þilskipum þeim, er verið hafa á vestrlandi, því þar er mér kunnugast um. Eg veit að nokkrir sunnlendíngar hafa líka gert út þilskip til veiða, en mér er eigi svo kunnugt um það, að eg geti sagt frá því; þó veit eg að kaupmaðr og riddari Bjarni Sívertsen, og Jón Daníelsson í Vogum og þeir Njarðvíkrmenn hafa þarí verið forgaungumenn annara.

Fyrir árið 1806 hafði ekkert þilskip verið á vestrlandi, og eigi heldr neinn Íslendíngr, er hafði

vanist sjómensku á þilskipum eda þilskipa-smídi. En sídan má telja:

1. Slúpskipid Ste. Johannes 18 lestir ad innanrúmi. Kaupmadr sál. og riddari O. Thorlacius keypti þad 1806, og hafdi þad á Patrixfirdi. Lá skipid á vetrum vid Litlueyri, en var ad fiskiveidum á sumrum. Stýrdu því danskir yfirmenn allt til 1809, en þá gjørdist Þorleifr Jónsson á Sudreyri skipherra, og var þad allt til 1815, er þad var látid utan fara til algjørligrar endrbótar. Hann var þá um tvítugsaldr og sá einasti af vestfirdíngum, ad því sem mér er kunnugt, sem hafdi tekid stýrimans Examen. Sama ár fékk hann til yfirskipunar:

2. Jagtskip, kallad Metta, 13 lestir ad innanrúmi; þad var keipt hid sama ár af fyrrgreindum Thorlacius, og var því haldid út á sama stad. Nú er þetta skip egn kaupmans Árna Thorlacíusar í Stikkíshólmi. Hann hefir tekid bædi hid stærra og minna stýrimans Examen med heidri, og er hann sá einasti Íslendíngr, ad því sem eg veit, er hefir stýrt skipi á milli Íslands og Danmerkr á seinni tímum. Nú er Haldór Einarsson Kolvig fyrir þessu skipi.

3. Jagtin Metha Christina, 15 lestir ad innanrúmi; hún var bygd 1819 á Fjóni ad undirlagi ádrnefnds skipherra Þorleifs. 1827 gjørdist hann

kaupmadr á Bíldudal, eptir farsæla 20 ára formensku á þilskipum, og vard þá yngri bródir hans Jón Jónsson skipherra.

4. Jagtin Delphinen, 12 lestir ad innanrúmi. Hana keypti eg í Gullbríngu sýslu 1807 og hélt henni út í Tálknafirdi. Skipid týndist 1813 ásamt med skipherranum Gudmundi Ingimundarsyni.

5. Skonnortuskipid Charlotta, 14 lestir ad stærd; þad var keypt árid 1815, ad tilhlutan sál. Kaupmanns Henkel, og hélt hann því út í Önundarfirdi. Fyrir því var Símon Sigurdarson, kistamadr og fjörmadr mikill. Hann aflađi 1822 50 Skpd. af klipfiski og 108 tunnur af hákallslifur.

6. Skonnortuskipid Henrétta, 15 lestir ad innanmáli. Þad var keypt 1816 af sama manni, og hélt hann því út á sama stad. Skipherran var Sigurdr Andrésson.

7. Jagtskipid Patriótten, 11 lestir ad innanmáli. Þad keypti kaupmadr Fridr. Svendsen 1821 og hélt því út í Önundarfyrdi. Þad var rosid haustid 1828.

8. Slúpskipid Födurlandid, hérumbil 9 lestir, bygt af kaupmanni Svendsen 1827. Formadr Sakkarías Þórdarson.

9. Slúpskipid Eiríkr raudi, vidlíka stórt, bygt á sama stad 1828, af sama manni kaupmanni

Svendsen, góðfrægum að mentum og hjartanligri föðurlandsást. Baði skipin bygði hann mest af rekavið, er hann lét sækja norðr á strandir. Formaðrinn heitir Olsen.

10. Skonnortuskipið, Haabet, 10 lestir að stærð. Það lét eg smíða 1822. Veit eg eigi að þilskip hafi áðr verið smíðað á vestrlandi. Formaðr Steinn Sveinsson.

11. Slúpskipið Fætey, 13 lestir að innanrúmi. Það keypti eg 1826, og hélt því út í Flatey. Formaðrinn heitir Guðmundr Sighvatsson.

12. Jagtin Appollóne. Hana keypti eg 1829 og hélt henni út á sama stað.

13. Jagtin Magdalena, 10½ lest. Kaupmaðr Árni Thorlacius keypti hana 1827 og heldr henni út í Stikkishólmi. Magnús Jónsson er formaðr.

14. Slúpskipið (nafnið veit eg ei). Kaupmaðr Klausen keypti það 1829 og er því haldið út í Olafsvík. Formaðrinn hét Johannes Greyersen.

15. Jagtin Haabet, 12 lest. Hana keypti eg í fyrra (1831) og er Oddr Sigmundsson fyrir henni.

16. Jagtin Jens Peter den Gamle, 8¾ lest. Hana keypti kaupmaðr Jens Benediktsen á Isafirði, og heldr hann henni þar út með íslenzkum skipverjum og góðri heppni.

Af þessum er Skipid 9 selt til Eskifiardar, en 4 og 7 lidin undir lok. Hin 13 eru í gódri geymslu og brúkum á Vesturlandinu, sem líka telur sér 77 æfda Sjó- og Fiskimenn. Þó ad þetta kunni ad virdast ofur seinn og lítill ávöxtur af allri þeirri nád og adstod sem konúngrinn hefir audsýnt í því skyni, ad uppørfa landid til ad leggja stund a þilskipaveidar á egin kostnad og med egin skipum og fólki, svoad varníngr þess jykist og þad gæti flutt hann til útlanda og sókt naudsynjar sínar þadan aptr, er mer ei kunnugt ad Hans Landsfødurlig rausn hafi í ødrum efnum komid Vesturlandinu ad jafn miklum notum. Adrir enn framan nefndir hafa ei, svo telia sé, stofnad þilskipaveidar vestanlands; ad sønnu hafa 3 Féløg verid stiptud í því skyni, en þau fóru svo, ád ei þikir verdt ad geta þeirra framar; þó er þad engum tvímælum undirorpid, ad Fiskiféløg á hentugum stad, skipud þeim einum sem hafa greind, efni og gódann vilja, yrdu ad miklum heillum.

Hvad áhrærir stærd fiskiskipa þá er meiníng mín sú, ád 10 Lesta skip og minni, séu hentugri enn stærri skipin, einkum í hákallalegu. En med eptirfylgjandi reikníngi voga eg ad láta í ljósi mína meiníngu um þad, hvad þurfi til ad smída skip hér í landi, med svo móti, ad rekavidur sé vidhafdr, er

sökti sé med egin skipi nordr á Strandir, og furru-plánkar séu brúkadir, því eik verdur ofurdír. Lengdin milli stafna mætti vera nálægt 21 Alin, breiddin í midiu 6 ál. 22 Þuml., framan 6 ál. 21 Þuml., aptan 6 ál. 6 Þuml. og Dýptin 2 al. 18 Þuml. Líkliga mundi skip, er smídad væri hér í landi, geta ordid þægara í hákallalegu, en óþægara til siglínga, enn jagt fra Fjóni, sem híngad komin í gódu standi, mundi ei kosta minna enn 2400 rbd. r. s. Í seinni reiknínginum hefi eg útlistad útgjöld og Inntekt vid Þilskipaveidarnar eptir mínum máta og reynslu.

# Reikníngr

yfir efni og smídi á 10 lesta skipi hér, med tilliti til núverandi (1829) verdlags.

| | Vøruv. | |
|---|---|---|
| | Rd. | Mk. |
| Kjøltré 17 ál. á 17 rd., 2 stefni á 16 rd. | 33 | „ |
| Kjølsvín 8 rd., kjølpúdi og apakøttur 4 rd. | 12 | „ |
| 18 Búnkastokkar 36 rd., 18 máttarbønd 54 rd. | 90 | „ |
| 36 rengur á 36 rd., 18 Millibønd á 54 rd. | 90 | „ |
| Skjólbord med 16 styttum | 21 | „ |
| 12 Púllertar á 12 rd., 2 Akkerastyttur á 2 rd. | 14 | „ |
| Vindan og Vidíngur 5 rd., 10 stafnbønd 15 rd. | 20 | „ |
| 2 Hornbønd, 2 hnélistar vid aptrstefnid | 6 | „ |
| 19 Bitár med 38 Kollørdum | 76 | „ |
| 2 Bønd vid þiljur ad framan, 2 klysstré | 8 | „ |
| 4 Kollardar á þiljum og løibomman | 5 | „ |
| 700 ál. utanbordsplánkar á 28 ß. | 204 | 1 |
| 250 ál. þiljúplánkar á 40 ß. | 104 | 1 |
| 120 Vragvalbord í garnøríngu, afstúkur m. fl. | 120 | „ |
| Stýrid med járnum á 15 rd., Mastré Bógspjót bomm. ꝛc. 60 rd. | 75 | „ |
| 3000, 6, 5, 4, þuml. boltar naglar og reidajárn | 45 | „ |
| 6 menn ad byggja skipid í 100 daga á 1 rd. | 600 | „ |
| Segl, togverk og annar útbúnadur mun kosta jafnt Kroppnum | 1523 | 2 |
| Kostar þá skipid nýbygt | 3046 | 4 |

# Reikningr

## yfir útgjøld á þilskipi vid Vesturlandid med 7 mønnum.

| Utgjøld. | R. S. Rd. | M. | ß. | Vøruverd. Rd. | M. | ß. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Nýligt og ógallad fiskiskip úr eik, 10 lestir med øllum áhøldum í gódu standi . . . . . . . . . . . . . . . | 2400 | = | = | | | |
| Naudsynlig afþilja í lestinni framan til vid káhettuna, fyrir 20 tunnur af salti, 2 stokkar med sídunum, sinn vid hvørja hlid á stóru lúkunni, hvør fyrir 16 tnr. lifrar og fiskikistan, tilf. | 60 | = | = | | | |
| Hér fæst því midur ekki Assúrance fyrirhe imaverandi fiskiskip, talid med útgjøldum þó reidara verdi þad hér til inntekta fyrir ábædid 5 pCt. af 2500 rd. r. s. . . . . . . . | 125 | = | = | | | |
| Ársrenta af summuni 2500 rd. 4 pCt. . . . . . . . | 100 | = | = | | | |
| Tilløgur til þorskaveida | | | | | | |
| 24 Færi 60 fadma 12garns . . . . . . . 56 Rd. = M. = ß. | | | | | | |
| 50 holl. fortin. aunglar . . . . . . . . 8 — 2 — = - | | | | | | |
| 14 Blýlód 5 á 6 Pd. . . . . . . . . 14 — = — = - | | | | | | |
| er 78 Rd. 2 M. = ß. | | | | | | |
| Er | 2685 | = | = | | | |

| Utgjölt. | | R. S. Rd. | M. | ß. | Vöruverd. Rd. | M. | ß. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Flutníngr | 78 Rd. 2 M. = ß. | 2685 | = | = | | | |
| 7 slóg-hnífar, 6 krókstjakar . . . . . . | 3 — = — = - | | | | | | |
| 7 hálftunnu-stampar eda færakörf . . . | 1 — 4 — 8 - | | | | | | |
| 2 skierbord, 2 skiertunnur, Vaskballi . . . | 8 — = — = - | | | | | | |
| 52 tunnur salts í ablann 7767 þorska . . | 260 — = — = - | . . | . | . | 351 | = | 8 |
| Tillögur til hákarlaveida | | | | | | | |
| 3 vadir 120 fadma 14 Lpd. 8 Pd. . . . . . . | 80 Rd. | | | | | | |
| Pertlina 140 fadma, 2 akkeri 80 Pd. . . . . . . | 200 — | | | | | | |
| 200 Pd. selspiks í beitu . . . . . . . . . . | 24 — | | | | | | |
| 4 sóknir, 3 breddur . . . . . . . . . . . | 18 — | | | | | | |
| 4 minni og stærri skærur . . . . . . . . . | 6 — | | | | | | |
| 4 brýni, 2 þjalir, 2 skutlar . . . . . . . . . | 4 — | . . | . | . | 332 | = | = |
| Til skipverja eptir samníngi | | | | | | | |
| Sérhvörr fær ¼ af sínum þorskdrætti, óskeypis verkadann í Klipfisk tilsamans 15 Skpd. 15 Lpd. á 20 Rd. . . . . . . | | . . | . | . | 315 | = | = |
| Í nokkur ár hefir verkanin heppnast svo, ad í Kaupmannahöfn nefnist Flateyar klipfiskur, og borgast 3 rd. Skpd. betur enn annar; | | | | | | | |
| tilsamans | | 2685 | = | = | 998 | = | 8 |

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Flutningr | | 2685 | = | = | 998 | = | 8 |
| af 63 tunnum hákalslifrar fær skipherrann ¼ spec., Styrimadrin ⅛ Spec., hverr af 5 hásetum $\frac{1}{10}$ Spec. af tunu, tilsaman, rd. r. s. | 110 rd. = M. 5 ß. | | | | | | |
| í þokkabót til skipherrans 16 rd., styrimansins 8 rd. af ablanum . . . . . . | 24 — = — = - | 134 | = | 5 | | | |
| Utgjørd skipsins fra 15da Marzí til 1sta Sept. í 5½ mánud. | | | | | | | |
| 260 Pd. Smiørs á 16 ß. . . . . . . | 43 rd. 2 M. = ß. | | | | | | |
| 350 Pd. hveitibraud og svartabraud . . . | 36 — 2 — 12 - | | | | | | |
| 350 Pd. fiska . . . . . . . . . | 10 — 5 — 10 - | | | | | | |
| 400 Pd. af grióna= og rúgmjøli . . . | 25 — = — = - | | | | | | |
| 440 Pd. af geldfjárkjøti . . . . . . . | 18 — 2 — = - | | | | | | |
| Istadin brennivíns og annars sælgjætis hefi eg nú valid, ad gefa Yfirmønnum 2 rd., Undirmønnum 1 rd. um manadinn, tilsamans | 49 — 3 — = - | | | | | | |
| 2 tnr af sýru, 24 tnr mótorfs . . . . . | 12 — = — = - | . . | . | . | 195 | 3 | 6 |
| Til vidhalds og endrbótar á skipi og áhøldum árliga . . . | | 100 | = | = | 150 | = | = |
| Utgjaldasumman | | 2919 | = | 5 | 1343 | 3 | 14 |

# Reikníngr

yfir ablann af fiskiskipum mínum Haabet og Færey Árid 1828, sem eptir minni reynslu má telia í medallagi.

| | Inntekt. | R. S. Rd. | R. S. M. | R. S. s. | Vøruverd. Rd. | Vøruverd. M. | Vøruverd. s. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Haabet<br>Færey | 9212 Þorska<br>6323 —<br>15535, verkad í klipfisk 123 Skpd. 6 Lpd. á 20 rd. . . . . . . . . . . . . | . . | . | . | 2466 | = | = |
| | af 8 tunnum þorska lifrar, brædduſt 3 tunnur lýsis á 20 rd. . . . . . . . . . . | . . | . | . | 60 | = | = |
| Haabet<br>Færey | 71 tunna hákallslifrar<br>56 — —<br>127, sem sumarstadin í ílátum úti, bræddist í 85 tunnur lýsis á 13 rd. r. s. . . . | 1105 | = | = | | | |

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Haabet Færey | 18, heim flutta hákallabúka<br>32 — — —<br>60; Skipsfólkinu tilheyra 30; reidarans eru hinir 30, á 3 Rd. . . . . . . . | . . | . | . | 90 | = | = |
| Bæggia | Heilagfiski, flatur steinbítar; í reidarans helfíng | . . | . | . | 80 | = | = |
| | 3 Skpd. klippverkadar Laungur og Ísur . . | . . | . | . | 45 | = | = |
| | Árabli af Haabet og Færey 1823 vard | 1105 | = | = | 2741 | = | = |
| | Helfíngr af þessu virdist medal árabli af 10 Lesta-skipi, edr . . . . . . . . . . . . | 552 | 3 | = | 1370 | = | = |

# Jafnadar reikníngr ad endudum veidiskap í September mánudi.

| Utgift. | R. S. Rd. | R. S. M. | R. S. ß. | Vøruverd. Rd. | Vøruverd. M. | Vøruverd. ß. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Skipid med øllum áhøldum, asśurance, rentum . . . . . . | 2685 | = | = | | | |
| Kostnadr til Þorskaveida . . . . . . . . . . . | . . | . | . | 351 | = | 8 |
| — — Hákallaveida . . . . . . . . . . . | . . | . | . | 332 | = | = |
| Partr Skipsverja úr Ablanùm . . . . . . . . . . | 134 | = | 5 | 315 | = | = |
| Utgjørd handa Þeim . . . . . . . . . . . . | . . | | . | 195 | 3 | 6 |
| Vidhald skips og áhalda . . . . . . . . . . . | 100 | = | = | 150 | = | = |
| Verkan á 62 Skpd. af Klipfiski . . . . . . . . . | . . | . | . | 62 | = | = |
| Geymsla og brædsla hákallslifrar í 42¼ tunnu lýsis . . . . . | . . | . | . | 63 | 4 | 8 |
| Afgángs verda, auk margskyns hags- og menta-auka fyrirr eidara og skipverja . . . . . . . . . . . . . . | 290 | 3 | 13 | 51 | = | 10 |
| Summa | 3209 | 4 | 2 | 1520 | 3 | = |

# Inntekt.

| | R. S. Rd. | R. S. M. | R. S. ß. | Vöruverd. Rd. | Vöruverd. M. | Vöruverd. ß. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Arsablin . . . . . . . . . . . . . . . | 552 | 3 | = | 1370 | 3 | = |
| Velgeymt er: | | | | | | |
| skipsverdid . . . . . . . . . 2685 Rd. = M. = ß. | | | | | | |
| minkar vid árslit og skemdir um $\frac{1}{16}$ 167 — 4 — 14 - | | | | | | |
| ófargad . . . . . . . . . . | 2517 | 1 | 2 | | | |
| Sømuleidis, af kostnadi til hákalla og þorskaveida . . . . | . . | . | . | 150 | = | = |
| Fiskipræmian . . . . . . . . . . . . . . | 140 | = | = | | | |
| Summa | 3209 | 4 | 2 | 1520 | 3 | = |

Árid 1830 heppnadist þilskipaveidin enn betr, því hvørt af mínum þremur skipum afladi fyrir 2600 Rbd., þegar fengnum er jafnad nidr á þau øll; én í fyrra eda 1831 heppnadist mér nokkud midr, þó jafn betr enn 1828, því hvørt af mínum 4 skipum afladi fyrir 2000 dali, þegar øllum fengnum er eins jafnad nidr á þau øll.

Enganvegin hefir þessi byrjun þilskipaveidarinnar á vestrlandi verid mædulaus fyrir oddvitana, og eigi hafa þeir ætíd borid mikid úr býtum. Mun þad eigi hafa gert lítid ad verkum, ad þilskipaveidin virdist ad vera mørgum landsmønnum á móti skapi, og einkum þeim er forrád hafa í sveitum og sóknum; hafa þeir því tídum á lopti, „ad mikil eptirsjá sé í gagnligum mønnum frá báta útgjørd og heyønnum, og sum af þilskipunum fiski svo lítid ad ei sé gagn eda sómi í vidburdum þeirra"; þessi meiníng og þessar fortølur ætla eg muni hafa haft þær afleidíngar, ad eigi hafi fengist gódir fiskimenn á skipin. Þad mun og hafa tálmad veidiskapnum í meira lagi, ad sumir skipsegendr hafa borgad skipverjum sínum, stýrimønnum jafnt sem hásetum, víst kaup, framar lagad eptir viknatali, enn fengnum, hvíad þegar svo er adfarid, þykir skipshøfninni eigi svo mikid komid undir því, hvørt fengrinn verdr mikill eda lítill, þegar þeir ega víst kaupid hvørt sem heldr er. Sama má og seigja þegar eigi fást adrir enn vinnumenn, því eigi eru

þeir ætíd svo húsbonda=hollir, ad heldr vilji þeir meira strit og meiri feng, enn hid gagnstæda. Allt þetta hefi eg viljad fordast, og því farid ad á fylgjandi hatt:

Eg hefi fordast ad taka vinnumenn á skip mín, og hefi því heldr fengid reynda og góda fiskimenn, bædi einhleypa og líka búandi menn, sem eigi hafa haft mjøg marga ómaga, úr nálægum sveitum. En svo ad þeir mættu vel bjargast hér, hefi eg bygt tvø íbúdar=hús handa skipverjum mínum, og búa þeir þar leigulaust árid um kríng sem vilja, og eru nú 8 af þeim giftir. Til þess ad sérhvørr einstakr af skipverjunum leggi þess meiri alúd á veidiskapinn, læt eg hafa gát á, hvad hvørr fyrir sig dregr, og fær þá hvørr vissan hlut af sínum drætti, nema þad sé hákall, því þá fær hvørr skipverja vissa þóknun fyrir hvørja lýsistunnu sem af skipinu kemur, eins og reikníngrinn sýnir. Engin fær víst kaup eptir vikna tali, en øllum skipverjum veiti eg fædi á medan þeir eru ad veidiskapnum, svoad enginn þarf ad sjá fyrir því, eda líða skort um þann tíma. Þetta held eg hafi valdid því, ad mér hefir heppnast jafn betur enn ødrum, og líka hinu, ad mér hefir ordid gott til manna, enda lifa nú yfir 50 menn á þil=skipaveidum mínum. Þetta hefir nú blessast svona; gódu fiskimennirnir hafa fjølgad, og hvatt hvørr annann, þeir hafa ordid efnadir, gift sig og eru

haldnir sælli enn adrir medalbændr og vinnumenn jafnvel í bestu vistum.

Eigi er frétt fyrir því, ad þilskipaveidarnar heldr sæti mótgángi sumra manna; hefi eg helzt heyrt þetta tvent tilfundid: 1) ad bestu mennirnir megi eigi þannig missast frá vistum og báta útgjörðum, og 2) ad þvílíkir fiskimenn megi eigi fá hjónaband, nema þeir geti útvegad sér vissu fyrir jardnædi.

Hvad hinn fyrsta vidvíkr, þá er þad ad vísu satt, ad vinnufólksekla mikil er í landinu, en eigi sé eg ad þad sé rétt eda sanngjarnligt, ad láta þad standa fyrir, ad ardsamr bjargrædisvegr geti aukist, og allrasízt, þegar bjargrædisvegrinn er þannig lagadr, ad þeir menn geta gipt sig er hönum sæta. Þad er og enn athugaverdt, ad fólkid fjölgar ódum í landinu, og virdist ad benda til, ad menn leitist vid í tíma, ad auka bjargrædisvegu sína og fjölga þeim, því þad er ofseint þegar fólkid er komid í örtröd og hardna tekr í ári. Þad verdr því eigi sagt med sönnu, ad þeirra manna sé mist vid, sem leggja stund á nýjann atvinnuveg. Þilskipaveidin mun heldr eigi aukast í sama jöfnudi sem fólksfjöldinn í landinu, og því munu landsins vinnandi hendr fjölga eigi sídr fyrir þad, þó þilskipaveidarnar hafi nokkurn framgáng.

Hvad þad annad atridid áhrærir, þá er mín meining þessi: Mig undrar eigi þó ad menn leitist

vid ad reisa skordr vid, ad þurrabúdar menn fjølgi vid sjóinn, þar sem menn sækja veidiskap á bátum, þvíad ef veidiskapr legst frá þeirri veidistødu um hríd, þá eru slíkir þurrabúdar menn í voda staddir; en vid þilskipaveidarnar held eg sé allt ødru máli ad gegna; Þilskipaveidarnar eru, eins og eg hefi ádr sagt, miklu vissari enn bátaveidar, þvíad þilskipin geta leitad fyrir sér í allar áttir. Eg ætla því ad þessi munur ætti ad gera þad ad verkum, ad fiskimenn á þilskipum megi átølulaust gifta sig, þóad eigi hafi þeir jardnædi.

Yfirhøfud er þad meiníng mín, ad þilskipaveidarnar séu enn mikilvægari fyrir landid, enn þær kunna ad sýnast í fyrsta áliti, því eg ætla, ad þær geti ordid og séu rót til margra framkvæmda og menta, og mikillrar hreifíngar í hinu borgaraliga félagi.

Þad er þá fyrst ad telja: ad menn vid þilskipaveidarnar venjast á eginliga sjómensku og siglíngar. Þad annad er: ad menn venjast á ad sækja sjóinn med meira krapti og kænsku, og líkliga munu menn med tímalengdinni gera tilraun med hvalaveidar og annad sem nú eigi tídkast. Þad þridja er, ad med þessu kemst þad í verk, sem svo margir vitrir búmenn hafa óskad, ad vissir menn leggi stund á veidiskap ingaungu, og dragi fisk ad landinu, svoad sveitamenn þurfi eigi ad leggja eins mikinn hug á fiski-

veidar eins og ádr. Þad fjórda er: ad þilskipa-egnin mun leida til þess med tímanum, ad meiri samkvæmi verdi á milli landsfjórdúnganna og meiri innanlands verzlan; mundi þad leita undir þær verkeidandi, mædusømu og kostnadarsømu lestaferdir. Hvørttveggja þetta sídarsttalda mundi verda til mikils ábata fyrir jardarræktina, því bændr þyrftu þá eigi ætíd ad hafa tvø járn í eldinum í senn. Þad tel eg hid fimta: ad þilskipaveidarnar eru hid vissasta medal til ad gera verzlanina innlenda, ad minsta kosti ad nokkru leiti. Sá sem á mørg fiskiskip, hønum verdr þad bezt ad flytja sjálfr feng sinn til útlanda, og sækja naudsynjar sínar þadan aptr, hann getr þá og tekid borgarabréf í einhvørjum kaupstad, og haft dálitla verzlan ad auki, ef hann vill. Þannig hefi eg eitt skip auk fiskiskipanna sem fer á millum landa. Sendi eg med því feng minn til Kaupmannahafnar, og læt þad færa mér naudsynjar mínar aptr. Ad vísu hefi eg dálitla verzlan ad auki, en hún er ekki mikilsvirdi. Í Kaupmanna-høfn hefi eg vissann mann, sem tekr á móti skipi mínu, og selur vørurnar, og kaupir aptr þad sem eg þarf med. Af þessu leiddi aptr hid sjøtta og sídarsta er eg vil telja, og þad er þetta: ad menn vendist á ad koma peníngum sínum í fleira enn fasteign. Fasteignir hafa þad til ad bera, ad þær eru viss eign, en þær gefa eigi svo mikinn ávøxt

sem margir adrir útvegir, og þarámedal Þilskipa-veidarnar.

Þegar á allt þetta er litid, þá ætla eg, ad Þil-skipaveidarnar verdskuldi, ad menn séu þeim hlidhollir og eigi mótgengir, og ad menn heldr studli til ad þær eflist og aukist, heldr enn ad þeim fari hnignandi úr því sem nú er. Þad er ekki meining mín, ad veidiskaprinn skuli vera í fyrirrúmi fyrir landgagn-inu, nei, enganvegin, heldr hitt, ad landgagnid sé í fyrrirrúmi, en sjáfarútvegrinn eigi vanrækist: ad landgagn og sjáfargagn gángi hönd í hönd, og styrki hvört annad til almenniligra heilla og framfara.

Ad endíngu voga eg ad taka mér í munn ord Etats-ráds Hagerups (1771) til nýrrar yfirvegunar: „Hin-um mikilvæga veidiskap, sem sóktr er í opinn sjó og á haf út, fylgja vandrædi og vosbúd, þýngsla erfidi og áhætta, hann útheimtir mikinn kostnad, peninga út-legg og árædi, fremur enn einn madr fái fullnægt, og verda því fleiri ad hiálpast ad; líka er audskilid hvörnin slíkur útvegur á vid ásigkomulag bóndans; eigi hann nú ad framfylgja slíkum veidiskap, getur hann ei hagad sér ødruvísi enn bóndi, þad er ósim-liga, og samt má vid yfirlit veidiskapar á vissum stød-um undrast, hvad lángt óvalinn bóndi kemst med sitt uppátæki: hvad lítid hann søkum uppeldis og vana vílar fyrir sér mædu og vogun, þegar neydin þrýstir hønum til ad útvega sér atvinnu, eda lýstin ladar

hann ad sækjast eptir gróda. Allir vóru ad furda sig yfir þeim ábata og heppni, er sókti uppá útlenda kaupmenn sem fyrir nokkrum árum fóru ad búa í Christianía í Norvegi, og stundudu þadan þilskipa-veidar; á skømum tíma søfnudu þessir miklum aud-æfum og vensíngum, sem innlendir kaupmenn ekki gátu vidiafnast; sjálfir græddu þeir mikid, og þarad-auki komu miklir pensíngar nálægum almúga í hendur, sem sóktu veidiskapinn á þeirra vegum; engin gat ímindad. sér hvada leyndatmedøl þeir gætu haft, ad allt skyldi lánast so vel og verda þeim ad ávinn-íngi; en eptir minni meiníngu fór hér øllu náttúr-liga; allr leyndardómrinn var þarí fólginn, ad þeir sóktu veidiskapinn á annan hátt enn innlendir, vogudu miklu til ad ávinna meira, stýrdu almúgans abla-brøgdum og gjørdust fyrirlidar."

(Pontop. 1 D. Pag. 109—110.)

---

Þegar kaupmadrinn hafdi lokid tali sínu hneigdi hann sig og fór ofanaf steininum; en eptir þad vard nokkr stans á, því enginn gaf sig fram til ad fara aptr uppá steininn. Þjódólfr eyrdi því ílla og kall-adi hátt svo allir heyrdu:

Hvad á þessi bid ad þýda, ætlar þá enginn af þessum gódu mønnum ad fara uppá steininn aptr? (eptir nokkra þøgn) Bóndason! hvar ertu núna med

alla mælgina og mærdina? Þú hefir verid nógu framr og tannhvass híngadtil, en nú ertu líkliga hlaupinn í felur og þorir ekki ad láta sjá þig, sídan í fyrra ad vér fundum ad rædum þínum. Þár lá ad, ad ekki mundi vera mikill stadr í þér; þú ert spéhræddr eins og afgomul kelling. Ef þú ert heldr madr enn mús, þá farðu nú uppá steininn, og mærdadu eitthvad ad gagni.

**Bóndason.** Sýna mun eg þer þad nú, Þjódólfr minn! ad eigi sé eg svo spéhræddr sem þú ætlar, og mun eg eigi hyrda um fríunaryrdi þín; hér eru fleiri bændasynir enn eg og betr viti bornir, og munu þeir taka af mér ómak.

Þegar Bóndason hafdi þetta sagt, kom annar bóndason miklu tiguligri honum fram úr manna þraunginni og sté uppá steininn, kvaddi hann sér hljóds, og tók svo til orda:

# J. G.
## nokkur ord
um
# Nytsemi innlendra fræva
og
## hværsu þeirra megi afla.

---

O! fortunatos nimium sua si bona norint
Agricolas!

---

Eg hefi í nokkur undanfarin ár fengist vid kál-yrkiu í fødurgardi, sem mér hefir mørgum fremur vel tekist. Eittsinn í kuldavori, fékk fadir minn mér tvennslags kálfræ ad sá í gródrar stíur, og lagdi ríkt á vid mig, ad sá hværju útaf fyrir sig, setja vel á mig og segja sér, úr hværju fræbindinu hefdu fyrst uppkomid bestar og jafnast sprottnar pløntur. En sem eg hafdi sýnt hønum þetta nakvæmliga ádur farid var ad planta, tók han svo til orda: Vid skulum, Sonur minn! setjast í sætid okkar hérna í kálgardinum (það var umgirdtur grasbekkur í hønum midjum), því eg vil láta þig heyra, hvad vinur minn — sem þú veizt hværr er, en mátt ekki nefna á nafn — skrifadi mér fyrir nokkrum árum. Tók þá fadir minn upp bréf úr vasa sín-um, hvará þetta eptirfylgjandi stód ritad: „Dyr-

mæti Vinur! vid höfum svo lengi fengist vid kál-gardarækt á bæum okkar í þessu kalda landi, ad okkur væri ekki vorkun á, vid sameginligar tilraunir, ad hafa komist ad því, sem bezt hagar því efni. Á medal annars er þad eitt, sem eg ætla til þú gerir ödrum kunnugt, nl. hvad ómissandi sé, ad hafa jafnan innlendt kálfræ, og sendi eg þér nú dálitid af því, sem þú átt ad reyna. En eg á von á því, þegar þú heyrir þetta, ad þú leggir fyrir mig 3jú spursmál: 1) *Hvort møguligt sé ad eignast hér innlendt fræ fullroskid?* 2) *í hvøriu þad sé betra enn útlenzka fræid?* 3) *hvørnig vid getum þessara fræva aflad?*

Uppá 1sta spursmalid svara eg þér: Víst er þad møguligt, eins og allar okkar bestu kályrkju bækur verda samsaga um; því ef sá æruverdi bóndi, **Sigurdur Sigurdarson** á **Raudabjarnarstødum** í Mýra sýslu, gat nád fullrosknu næpna fræi, og fékk fyrir sinn fyrirtaks jardyrkju dugnad frá því konúngliga bústiórnar félagi, sem heidurs og virdíngar merki, þess 3ja silfur bikar, mundum vid þá ekki, þó vid séum nokkud vestar, geta aflad hins sama, jafnvel af öllum undirjardar kálrótum, sem hér vaxa; enn audvitad er, ad meiri nærfærni þarf ad brúka vid undirjardar kál (raba) rætur, ef menn skulu af þeim geta fengid fullroskid fræ, sem mér hefur þó reynst møguligt, enn vid adrar rótna tegundir.

En hvad vidvíkr hinu 2ru spursmálinu: *í hvörju það sé betra, enn það útlenzka?* þá svara eg: Margt ber til þess, vinur minn! því a) veiztu hvad bágt almenníngi er ad velja gott fræ hjá Kaupmönnum, þared það stundum hefir lengi verid fyrirliggjandi hjá þeim, og þessvegna opt ordid gagnslítid. Líka b) hefur stundum borid vid hér í landi, ad naudsynjar hafi ekki fengist í tækann tíma, vegna teppt:ra adflutnínga frá útlöndum, þegar vér þó höfum mest verid komnir uppá kályrkiuna, þó það yrdi okkur ekki ad baga, vegna landsfödurligrar umhyggju vors konúngs; á hinni sídustu stirjaldar tíd, er hann lét senda híngad gefins kálfræ, og sést þá best, hvad á því rídur, ad almenníngr kynnti sér þá adferd, einkum í þeim hérödum landsins er til fjalla liggja, því eg hefi heyrt náttúrufróda menn borna fyrir því, ad hitinn yrdi þar sterkastur. Líka c) er og þykir ætíd betra, ad þurfa ekki ad sækja það til annara landa, sem menn med ölúd og ydjusemi géta útvegad heima; en einkum d) vegna nytsemi þeirra innlendu fræva frammyfir hin, sem er þessi: Bædi þolir það innlenda fræ meiri kulda, svo þegar hid útlenda annadhvört deyr útaf eda kemur mjög seint upp, heldur það innlenda sér til fljótari óvaxtar, og er þó ad ödruleiti óvandfarnara med það; líka hafa kálræturnar viljad reynast mer þéttari og smekkbetri af innlendu fræi, sem mun koma af ólík-

um jardartegundum og loptslagi hér, hjá því sem erlendis; þad er og víst, ad stórum þarf ad setja á sig jardartegundirnar, enda strax í fræmædra reitnum, því þar undir eru komin smekkgædi og þrif aldinsins sídar meir af frævum hans. En ad tala meira þarum leyfir ekki þetta bréfs rúm, nema bæta vid þeim athuga: ad velja höfud-jardartirnar í nefndann fræmædra reit hinar sömu og eru í kálgardinum á bæ þínum, og jardyrkiu bækur telja til maturta.

En nú kemur þad erfidasta og 3ja spursmál þitt: Hvörnig vid getum þessara fræva aflad? Ad svara því eptir akuryrkju-frædi-manna reglum, er mér ofvaxid, en segja vil eg þér stuttliga mína adferd, sem þér gæti máske eins vel lánast og mér, til ad fá fullroskid fræ; og er ekki því ad leyna, ad mér hafi reynst notabest, ad stydjast vid þad, sem sá ódaudlegi menta vinur Íslands Vise-lögmadurinn Eggert sál. Olafsson hefir kennt okkur í sinni Maturtabók. a) Ad hausti ádurenn frost granda, taki madur upp nokkrar kálrætur gallalausar af medalstærd, stýfi kál af þeim tveggja fingra frá rótinni, og hennar smáu ánga ef vill, þó svo, ad hvörgi hruflist rótin sjálf; þareptir eru þær þurkadar úti vid sól, og lagdar nidr til geymslu í þurra vidar-kola ösku, annadhvört í stát, eda í þartil búna og ad innan upphladna gryfju innan húss, þar sem hvörki frost né slægi fær adkomist. Sídan takist þær upp

ad vorinu, og er þeim þá brugdid nokkrum sinnum útí sólskyn, ádrenn þær eru settar nidr í velræktadann af gamallri mykju og djúpt uppstúnginn reit, med 3ja qvart. millibili, sem best er, ad þar sé undir kálgards vegg, sem hlé er fyrir nordan vindum, og von er á sem mestum sólar hita framan af degi; enn svosem þetta er gert ad vorinu, hid fyrsta sem vedráttufar leyfir, fyrir og um fardaga, þá er ætid varligra ad byrgja vel stofnana ad ofan, med þurri og gódri mold vegna uppá komandi nætrfrosta. Ekki má hafa adgjæzlu á, ad skýla nidlanum, þegar hann fer ad springa upp úr moldinni, ef kuldi er í nánd. Gott er ad vökva reitinn med mykju vatni á morgna, ádur sól kemur vid, þegar næturfrost gánga en sólskyn um daga; er sídan eigi annars ad gæta, enn skýla reitnum einsog gródrarstíum í uppá komandi stór-hretum, og halda honum frá öllu illgresi, setja styttur vid kálstokka, þá hækka, þannig: ad 2ja eda 3ja álna laungu skafti er stungid þétt nidur í moldina, ekki mjög nærri stofni eda rót, og vid þad bundinn nidlinn med vidartágum, vídar enn í einum stad. Betur fer ad nema burt sídu greinir, sem skjóta sér stundum út nidur vid rótina, eda skamt fyrir ofan hana. Þegar álídur sumar, og karlstaunsguls blómid er fyrir laungu fallid, enn fræ belgir ordnir þrýstnir, er adgjæzla sú vidhöfd, ad nema þá burt, sem farnir eru ad blikna og sést mót fyrir

ad opnist, þó sumir á sömu frjómódur séu enn grænir og í vexti, svo fræid missist eigi nidur vid skekíngu káleykarinnar af vedrum. Ádur enn frost koma mikil ad hausti eru þær uppteknar, og greinirnar med þeim bliknudu fræbelgjum bundnar útaf fyrir sig í smá knippi, og þær med hinum grænu einnig í bindi sér, og svo hvörtveggja med höndlad, eptir því sem segir í Naturtabók Vise-lögmans Egg. Olafssonar, bladsídu 42, §. 46—47. Þó hefir mér reynst gott, ad taka fræbelgi, sem þá eru grænir, strax af greinunum og láta þá í smáa posa af gisnu lérepti, og hengja þá uppyfir rúm í badstofu, eda láta þá vera í rúmunt, enn þar svo varliga í brád, ad ekki samansnerpist af ofmiklum varma. Sídan þegar þeir eru fullbliknadir ordnir, þarf eigi annad fyrir ad hafa, enn núa þá med hægd millum handa sér uppyfir þurru kláti, hvarí fræid fellr ásamt hisminu, sem sídan verdur hægt frá ad skilja. En svosem b) opt má géra rád fyrir, ad sumarhitinn verdi stundum svo lítill hér vestra og nordanlands, ad ekki fáist samsumars fullroskid frjó, helst af kálraba undir jardar rótum, þá hefir mér bezt reynst, ad taka upp frjómædurnar, ádurenn þær hafa tekid skada af kuldanum, og innsetja þær í saggalaust hús, hvar ekki frjósi og bjart sé um daga, hvört einnig opna megi á frostlausum þurrum vetrar dög-

um, og ad vorinu; setja sídan ekki fyrri út á eptirkomandi sumri í sinn forna stad gardsins, enn allr vorkuldi meinast á enda; skal um þær buid sem fyrri, enn sídan taka vara á, nær fræid er fullroskid, sem vænta er ad verdi nokkru fyrri enn samsumars. Þessi adferd er ad sønnu undirorpin nokkru meira vandhæfi. Ad lyktum vildi eg drepa á þá c) adferd, sem mér hefir vel heppnast: madr sáir lad vorinu eigi fyrr enn um fardaga í afsídis reit í skjóli undir gardi, þar sem alldrei bregdst ad skafl leggi yfir á vetrum, enn hiti verdi hvad sterkastur á sumrum, útvøldum og gódum frækornum, nokkud dýpra enn venjuliga med 3ja kvartila millibili, þessar rætur láti madur standa óhrærdar, nema slýsi ofanaf heim kálid í gódu vedri þurru, þá ekki er sólskyn né von á frosti, byrgi sídan med nýrri kúamykju, sem ekki takist af á næsta vori, fyrr enn frost eru á enda, og náttúrligr sumar varmi er kominn, og í hennar stad dreifist samt til varhygdar — eins og ádur er á minnst — þumlúngs þikkri moldu, sem þó á ad blandast til helfínga vid þá mykju, sem á kálstofninum lá um veturinn, þartil ávøxturinn hefir hrundid frá sér þessari léttu skýlu, og medhøndlast sídan eins og ádur er ávikid.

Ekki ræd eg þér til þess, ad brúka til frætekju eptirleidis þá njóla, sem komid hafa af vanþrifum samsumars uppúr káli, því verkuninn líkist orsak-

inni, svo ad af rótarinnar spillíngu gétur ekki fengist óspillt fræ, þó nái vexti og vidgángi: Einnig ræd eg þér til, ad þurka og geyma vel þitt innlenda fræ, og vera svo bygginn af því, ad þú þurfir ekki ad brúka þad fyrri enn árśgamalt.

Med þessum hætti hefir mér tekist, dýrmæti Vinur! ad fá fræ af allskyns kálrótum, er hér geta vaxid, hvers hins sama eg óska og svo þér, og þeim mínum kjæru löndum, sem til þess kynnu ad spyrja og vissu ekki betri adferd.

---

Þegar bóndason hafdi lokid tali sínu, hneigdi hann sig og fór ofan af steininum, en í stad hans kom annar madr gáfuligr og ordhagr; sumir sögdu hann væri stúdent, hann tók svo til orda:

## S. N.
### um
# Ljáa Smídi.

Þad er alkunna, ad mestr þorri vor Íslendínga, lifir af fénadi; heya afli handa hönum er því sú ardsamasta og ómissanligasta vinna vor yfir höfud ad tala; enn hvad á því ridi, eigi slætti ad verda vel framgengt, ad hafa gagnligann ljá í orfinu, einkum fyrir þá, sem á þurrengi hafa ad gánga, vyrdist mér mesti óþarfi ad fjölyrda um, því enginn hlutr þykir sveitabóndanum gyrniligri enn gódr

ljár, en því er midr, þessi er ej ætíd í ein=kaupi. Þad er satt, margir smída ljái, enn fár af þeim mörgu kunna þad, af hverjum eg er máskè einn, þó má eg segja þad, þó sjálfr eigi eg í hlút, ad aldrei hafa mèr gefist annara ljáir eins vel og mínir eigin, og sama hafa þeir fáu sagt, sem hjá mèr hafa ljái fengid. Fáeinum högum úngum mönnum hefi eg sagdt frá adferd minni vid Ljáa smídi, sem segja sèr hafi hún vel gefist; mèr hefir því komid til hugar, ad nota tækifærid, sem Ármanns útgèfara lofsverda fyrirtæki býdr, og reyna hvert þeir vildu ljá fáeinum línum um ljáa smídi rúm, þar eg ímynda mèr ad gagn gæti ad því ordid, og ein=hverr hagr únglíngr gæti eitthvad þaraf lært; eg veit hvad feginn eg hefdi ordid, ad fá vidlíka tilsögn, þá eg fór fyrst ad bera smídar vid.

Þad járn sem brúkast skal í ljái, hlýtr ad vera sèrliga gott; gædi þess siást af sárinu, þá þad er nýbrotid og hreint. Ekkert annad járn er vel hæft til ljáa, enn þad, sem öldúngis eda næstum þverbrotnar, þad er ad segja, ef eda þar sem þad er óveikt; þad má ek slitna, ei standa miklir nabbar eda ójöfnur útúr sárinu, heldr vera svo slètt í brotid sem mögu=ligt er ad járn gèti ordid, líka vel hvítt og bjart á lit, og heldr smá enn stórkyrnt; því þó sá svo=nefndi ísakaldór bíti sæmilega á gras, hrökkr hann sundr þá minst varir, og stendr þá sláttumadrinn

rádalaus. Þessa vegna hefi eg ætíd fordast hann, en valid smákyrnta hvíta járnid, sem mér hefir aldrei brugdist. Þarámóti er þad járn, sem er dimm- og dökkleitt í sárid, slæmt, þolir illa sudu, og er lítt nýtt til alls, menn ættu því ad fordast þad.

Um stál í ljái, þegar þess þarf (því stundum fæst einhæft járn í ljái, sem er hvad bezt, þá þad hittist gott), gét eg ekkért annad sagt enn þad, ad mér hefir reynst allt hvít- og bjartleitt stál vel til þessa, hvert heldr dýrt eda ódýrt verid hefir.

Nú er farid ad efna til í ljáinn, og géri eg nú fyrst rád fyrir deigu járni med stáli; skal nú slá til 4 lengjur af deiga járninu, 2 þykkri, 2 þynnri, og 3 af stálinu, allar jafn-þykkar, og skulu lengjur þessar allar vera jafnlángar, sídan skal leggja þær þannig saman, ad 2 þykkri deigu lengjurnar séu ytst, þá komi 2 stál lengjur, þá 2 þynnri járn lengjurnar og seinast í midjuna þridja stállengjan; ytstu lengjurnar skulu lítid bognar ad, svo efnid falli vel í báda endana, þá taungin kemr utan um annann endann; sídan skal setja hespu á tángar armana, til ad halda henni saman, hver vera á í lögun einsog handfáng í kistugafli, og af þeim verdr madr ad eiga 3 misstórar, eptir sem þad er þykkt, sem í taungina er látid. Nú skal hleypa kraumsudu í annann endann, og þá allar lengjurnar eru þar vel samfastar ordnar, skal heita efnid alt uppad tángar

kjaptinum, og hamra það þétt saman, svo alt falli vel. Nú er farið að sjóða efnið, skal þá hafa nóg af góðum birkikolum, brandа- og öskulausum og ej mjög stórum ó reiðum höndum, og bæta jafnóðt nýum við og brenni fyrir miðjum afli; áðr ný kol eru nú á eldinn látin, skal leggja járnið svo fyrir aflinn, að hérum 2 þumlúngar þess gángi yfirfyrir blástur opið, og hérum 1½ þumlúngr skal millum aflsins og járnsins. Nú eru kolin rakuð yfir, og blásið ördugt; þá vel fer að krauma, fer maðr að snúa og velta járninu fyrir aflinum, og dregr það um leið oft lítið til og frá; þá suðan er vel tekin, tekr maðr það með skyndi úr eldinum, og þjappar því saman þár sem sýðr, með tíðum enn léttum höggum, og slær seinast raðirnar vel af; þannig færir maðr sig uppá miðt efnið, heitir síðan einusinni alt, sem suða hefir um farið, og slær nu betr inn raðirnar; að því búnu, er taungin færð á soðna endann, og farið altað einu með seinni endann sem þann fyrri, og sem það er búið, skal sjóða hann að nýu, því víða kunna enn að vera veitur í hönum; með þessar suður skal fara altaðeinu sem hinar, snúa járninu og velta ýðugliga við, meðan á suðunni stendr, og smá draga lénið til og frá, og þá suðan er vel tekin, þá að hamra lénið óðt og tíðt enn ekki þúngt, á allar síður. Þessar suður eiga að vera svo þéttar, að engin veila geti orðið eptir millum þeirra. Þannig

skal nú áfram halda yfir alt lénid; flýta skal madr sér sem mest verdr med járnid í eldinn, þá búid er ad hamra sudurnar, þad er kola- og tíma-drýgra.

Stórar sudr ó vandliga ad fordast, sem eyda og spilla efninu, og hleypa jafnvel brestum í. Þá þannig er nú alt lénid vandliga samansodid, fer madr ad slá þad til, og skal vandliga strjúka med radskørpu járni allann sora utanaf því í hvert sinn og þad kemr úr eldinum, ádr farid sé ad hamra þad, hvad adgætast á vid allt járnsmídi, ella berst gjallid inní járnid, og skilr eptir hrufur og holur, þó þad dettr utanúr því køldu; skal nú fyrst beigja þjófid ádr grant er ordid; sídan er oddrinn sleginn til, ljárinn uppeptir íboginn til eggjar, því hann réttist þá framm er tekinn, bakkinn skal vel jafn, en smá þykkna eptir sem uppeptir dregr; varast þarf ad á hønum kraumi, úr því farad er ad slá ljáinn til, þó er þad skadligast, úr því farid er ad taka hann fram. Bezt er ad byrja ad taka ljáinn fram á oddi, og taka altaf fram í midja breidd, med munna sléttum hamri. Gæta þarf líka ad því, medan verid er ad slá lénid, ádr fram er tekid, ad hamra þad jafnt á bádar sídur, og þynna þad jafnt fram til eggjar beggja vegna, svo stálid verdi ætíd í midjunni. Þad mun vera mátuligt ad $\frac{1}{5}$ partr efnisins sé stál, enn $\frac{4}{5}$ deigt járn (og eptir því meira af þessu, enn minna af

hinu, sem járnid er hardara), t. d. móti 24 lódum af deigu járni þarf 6 lód af stáli; þar sem mjøg er á grýtta jørd ad gánga, má máské hafa lítid minna af stálinu, þó er betra ad herda ljáinn minna, enn hafa hann ad efninu til nógu hardann.

Hafi madr einhæft járn í ljá, sem brotna verdr í fyrstu begjn vel herdt, skal þad rekast þunt, og leggjast saman serfaldt, og sjódast saman med ødr greindri adferd, med því móti verdr efnid jafnara enn ella, ljárinn stiltari og bitbetri. Þá smída skal ljá úr spíkum, er best ad sjóda spíkna brotin saman í 2 eda 3 léni, leggja sídan stál-flýsir þunnar inn á millum þeirra. Hafa skal þær deigustu ytst, þarf madr því ad reyna herdslu þeirra ádr, þekki madr þær ei, einkum eru spíkna þjóf í þessu tilliti athugaverd, því sumir láta sér duga ad leggja stál til í þjófid; betra er ad hafa ljái þjóflánga, þeir losna þá sídr í, og skémma minna orfin; líka er betra ad leggja ljáinn nidr svoleidis, ad vinda hann heitann í graslaginu, heldrenn beigja þjófid nedan til, sem skemmir ljáinn og orfid, enn er þó vída vani. Varligra er ad snjallbeigia ekki ljái í þjófbug, sem þó dykir fallegra og smidligra, vegna þess, ad kreppi eda rétti ólagligr ljáinn sídann, kann máské ad bresta fyrir á kverkinni, og verdr þetta stundum orsøk til ad ljárinn dettr þar í sundr.

Um ljáa stærd og løgun þegi eg hreint, því

hagar hverr eptir vana, vallar og engjalagi og s. frv. Enn sé þessu sem hér ad framan er sagt, nákvæmliga fylgt, trúi eg ekki ødru enn ljárinn verdi vel brúkanligr eda í betra lagi, og máske réttgódr.

Alla somu adferd má vidhafa vilji menn smída sér rakhnífa á gærur, líka vel brúkanliga tálguhnífa.

Hérmed læt eg nú útsagt í þetta sinn, og hefi eg leitast vid ad orda þad svo stutt og greiniliga sem eg gat, og einúngis fylgt minni egin reynslu, sem søgd er ólýgnust, ef rétt er eptirtekid. Eg á hér einasta ordastad vid lagtæka únglínga, og vidvanínga, en þad er fjærri mér, ad eg ætli smidum hérmed neitt ad kenna, eg er ekki þess umkominn, enda munu þeir ei þykjast þurfa þess med.

Gedjist mønum ad þessum fáu línum, verdr þad máske upphvatníng fyrir mig, ef lifi, ad segja almenníngi frá einhverju líkskyns seirna meir, bjódist tækifærid.

---

Þegar stúdentinn hafdi lokid tali sínu, hneigdi hann sig og fór hann ofan af steininum; en eptir hann kom gamall madr og høfdíngligr og sté uppá steininn; hann heilsadi þíngheiminum blídliga og virdugliga, og hóf svo tal sitt, og flutti þad med svo mikilli stillíngu og stadfestu, ad þad var audsært, ad þad eigi var hid fyrsta sinn, ad hann taladi opinberliga. Ræda hans hljódadi þannig:

# G. J.

## Tilsøgn
til
## ad mæla ílat og tilbúa
svo þau taki víst mál;
allt eptir mælíngu innanrúms þeirra.

I) Sé ílátid ferhyrndt, svosem kista, stokkr, koffort edr annad þessháttar, þá skal fyrst mæla nákvæmliga lengd og breidd, og margfalda þær hverja med annari, og þá hefir madr fengid botnvídáttuna; þessi botnvídátta margfaldast sídan med dýptinni, og kemur þá fram ílátsins innihald í ferskeittra þumlúnga, kvartila, feta edr álnatali, allt eptir því hvad menn hafa brúkad fyrir mælikvarda. Til dæm. Hér er kista, sem er ad leingd milli gafla 32 þumlúngar danskir, ad breidd innan hlidfjala 15¼ þumlúngs og á dýpt 13¾ þuml.

Lèngdin margføldud med breiddinni, gerir 488 ferskeitta þumlúnga, sem er kistunnar botnvídátta. Þessi botnvídátta margføldud med dýptinni 13¾, sýnir kistunnar gjørvalla innanmál 6710 kúbíkþumlúnga edur teníngsmindada þumlúnga.

Nú er mér hugleikid ad vita, hvad marga potta edr merkur þessi kista inniheldr. Þad getr madr vitad svoleidis:

Eg veit ad brennivíns og øltunna á ad inni-

halda 4¼ kúbikfet, sem gjörir 136 potta, en korn-tunna á ad innihalda 4½ kúbikfet, sem gjörir 144 potta, og kúbikfetid inniheldr því 32 potta. Eitt kúbik- edur teníngsmindad fet er 12 þumlúngar á hvörn veg, og þegar eg margfalda 12 med 12, koma 144, og þetta aptur margfaldad med 12, gerir 1728, og svo marga teníngsmindada þumlúnga inniheldr eitt kúbikfet. Þegar eg nú skipti rúmi eins kúbikfets: 1728 þumlúngum med 32 pottum, kemur í hlut 54, og þessvegna á eitt pottrûm ad innihalda 54 kúbik-þuml., en merkurrúmid 27.

Þegar eg nú vil vita, hvad mikid ádrnefnd kista tekr af vatni edr ödrum lög, set eg þetta í þrig-gjalida reglu þannig: 54 þumlúngar gera 1 pott, hvad marga potta gera 6710 þuml? svar: 124⅓ potta, edr 248⅔ merkur. Og þar almennt mál er, ad pund af smjöri liggi í merkurrúmi, þá ætti þessi kista ad taka 248 pd., edur 24 fjórd. 8 pd. smjörs.

2) Eitt vatnsker er 6 álna lángt, 1½ ál. breidt og 1¼ ál. djúpt, hvörsu margar tunnur vatns liggja í því, þegar ein tunna vatns heldr 4¼ kúbikfet? svar: 21$\frac{3}{17}$ tunnur.

3) Í dánarbúi, sem á ad uppskrifast, finnst medal annars kornstokkr fullr af korni, sem er 18 álna lángr, 5 álna breidur, 1½ álnar djúpur. Nú er spursmál, hvad margar tunnur af korni þar liggja, þegar 1 tunna heldur 4½ kúbikfet? svar: 200 tunnur.

II) Þegar mæla skal kríngløtt slát þá er það nokkuð vandara. Menn hafa fundið, að hlutfallið á milli þvermælirsins og sjálfs hríngsins er sem 1 á móti 3,141592 *) eðr í styttri tølu, sem 113 á móti 355, eðr sem 7 á móti 22, svo þegar þvermælirinn er 1 **) þá er umgjørðin 3,141592, þegar þvermælirinn er 100, þá er umgjørðin 314,1592; Þegar maðr veit þvermælir eins hríngs, þá getr maðr eptir þessu hlutfalli fundið umgjørðina með þriggjaliða reglu svoleiðis:

Eins og 1 er á móti 3,141592, svo er þvermælirinn á móti umgjørðinni, eðr eins og 113 eru á móti 355, svo er sá gefni þverm. á móti umgjørð. eða eins og 7 eru á móti 22, svo er þvermælirinn á móti umgjørð.; þó er þetta síðasta hlutfall ekki eins nákvæmt eins og tvø þau fyrri. Þegar maðr er búinn að finna umgjørðina á hún að margfaldast með fjórða parti þvermæl. eðr með øllum þvermæl., og skipta síðan próduktinu (útúrðinni) með 4, kemur þá út hríngs innihaldið eðr botnvíðátta kersins. Þegar þessi botnvíðátta er margfølduð með dýptinni, kemur út kersins gjørvalla innihald.

---

*) Þetta er tugabrot og þýðir 3 heila og $\frac{141592}{1000000}$ parta úr 1 heilum.

**) 1 þuml. fet eða alin, þ. e. eining þess kvarða sem hafðr er. B. L.

T. d. Eg vil vita, hvad mikid þad ker tekr, sem er 1¼ alin dønsk edr 36 þumlúngar innan stafa, og eins djúpt.

1 : 3,141592 = 36 : 113,0973, umgjørd.
9, ¼ þverm.

botnvídatta . 1017,875808

Eg finn ad ummálslínan verdr 113,0973; þegar hún er margføldud med 4da parti þvermæl. 9, verdr innihald botnvídáttunnar 1017,875808 ferskeittir þuml. Þessi botnvídátta aptr margføldud med dýptinni 36 þumlúngum, sýnir gjørvallt kersins innanrúm 36643,529088 kúbikþumlúnga. Þegar þessari summu er skipt med 54, koma í hlut 678,5 pottar, sem kerid tekr; og þegar þessari tølu er aptr skipt med 136 (því svo marga potta inniheldr lagartunna) koma í hlut 4 tunnur 134½ pottar, edr nærstum því 5 tunnur.

Med sama móti má mæla kerhøld, føtur, eskjur, askа, leigla, strokka o. s. fr., nema vid strokkinn verdr ad mæla vídd hanns bædi ad ofanverdu og í botninn, leggja þær saman og taka þaraf midlúngstølu fyrir þvermæl., og reikna svo eins og ádr er sagt. T. d. Hann sé 5 þumlúngar i botninn, en 13 ad ofan, hér legg eg saman 5 og 13, sem gjørir 18, þar af helmíngrinn 9 medal þvermælir.

Askur, sem er 5¼ þumlúngr ad þvermáli, edr

5,25 í tugabroti, enn á dýpt 4 þuml., hvad mikid tekur hann?

1 : 3,141592 = 5,25 : 16,49

5,25

4) 86,5725

21,6431 botnvídátta.

Botnvídáttan 21,6431 margföldud med dýptinni 4 þumlúngum, sýnir heila innanmálid 86,57 kúbíkþuml. Þegar þessu innihaldi er skipt med 27 kúbíkþuml., sem merkurrúmid inniheldr, koma í hlut 3,2 edur $3\frac{1}{5}$ merkur.

Hér er annar askr, hvørs þvermælir er 5 þ., en dýptin $5\frac{1}{2}$. Hvad mikud tekur hann?

1 : 3,141592 = 5 : 15,708 × $\frac{5}{4}$ = 19,635 botnvídátta

botnvídáttan marfølduð med dyptinni 5,5

sýnir asks. innih . . . . 107,99 = 108 kúb.þ.,

$\frac{108}{54}$ = 2 pottar = 4 merkur.

Tunna, hvørrar þvermælir um sponsid er 18 þuml.

enn til endauna einasta . . . . . 12

2) 30

þaraf medal þvermæl. . . 15.

1 : 3,141592 = 15 : 47,12388 × $\frac{15}{4}$ = 176,71455 botn.

margföldud med dýptinni . . . . . . . 32 þuml.

sýnir tunnunnar heila innihald 5654,8656

$\frac{5654,8656}{54}$ = 104,5 potta = $104\frac{1}{2}$ p.

# Máti
## ad tilbúa ílát, sem taki víst potta- edur marka-tal.

a) Ef ílátid á ad vera aldeilis teníngmindad, eins á leingd, breidd og dýpt, þá þarf ei annad enn útreikna ílátsins innihald í kúbikþumlúnga tali, og útdraga þar af kúbikrótina nákvæmliga, og sýnir hún hvad ílátid á ad vera á hvørn veg. T. d. madr skyldi eiga ad tilbúa stórt jafnsída ker eda stokk, sem tæki 1600 potta.

Pottrúmid inniheldr 54 kúbikþumlúnga, þessvegna margfalda eg 1600 med 54, og verdr þá innihald þess íláts, sem smídast á, 86400 kúbikþuml. Utaf þessari tølu dreg eg kúbikrótina, og verdr hún 44,208, og sýnir hún hvad ílátid skal vera á hvørn veg, leingd, breidd og dýpt. Þess lengur sem madr áframheldr med útdráttinn, því nær kemst madr því rétta innihaldi. Þannig er kúbiktalan af 44,2 = 86350,888, enn af 44,208 = 86397,7838.., svo hér vantar ei nema rúma 2 kúb.þuml. uppá þad rétta innihald, og ef madr vildi láta mismuna enn nú minna, þá getr madr haldid lengra áfram med útdrátt kúbikrótarinnar.

b) Ef ílátid skal vera ødruvísi lagad, svosem í kistuformi, þá getr madr tiltekid einhvørja lengd og breidd eptir velþóknan, margfaldad saman lengd

og breidd, og skipt med pródúktinu (úrurdinni) kersins edr slátsins innihaldi, sýnir þá hluturinn hædina. Madr skyldi t. d. eiga ad smída eins stórt slát og þad næstumgetna, sem innihéldi 1600 potta edur 86400 kúbíkþuml. og hafa lengdina 60 þuml. enn breiddina 30 þuml. Þegar lengdin og breiddin eru hér margfaldadar saman, verdr botnvídáttan 1800 □ þuml. Med þessum 1800 þuml. skipti eg kersins innihaldi 86400, og fæ í hlut 48, sem sýnir, ad kerid eigi ad vera 48 þuml. á dýpt.

c) Ef slátid skal vera kringlótt, so sem kér, kerhald, fata, askr, leigill o. s. fr., þá er þad meiri vandi, ef vídd og dýpt ega ad vera mátuliga samsvarandi hvort ødru. Madr skyldi t. d. eiga ad smída ker, sem tæki fjøgur 40 marka kvartil edur 160 potta, þad eru 8640 kúbíkþumlúngar.

Hér tiltek eg einhvørn vissann þvermælir, sem eg hyga ad láti nærri til þess ad kerid verdi skøpuliga lagad, og læt hann vera 20 þ., sídan útreikna og þaraf umgjørdina og botnvídáttu, eins og ádr er sýndt, svoleidis:

$1:3{,}141592=20:62{,}83.\ 62{,}83\times 5=314{,}15$ botn.

$\frac{8640}{314{,}15}=27{,}534 \mid 314{,}15\times 27{,}534=8649{,}8.$

Med botnvídáttunni 314,15 skipti eg innihaldinu 8640 og fæ í hlut 27,534, sem sýnir dýptina.

þegar botnvídáttan er margföldud med hædinni, koma
ut 8649,8, svo hér munar ei nema $\frac{8}{100}$ þuml.

Enn þyki manni kerid illa lagad, þar þad uppá
annann máta verdur hærra, enn þad er vídt til, þá
etr madr tiltekid annann nokkud stærri þvermælir,
svosem 24, og útreikna svo aptr, hvad umgjördin
g botnvídáttan verdr eptir þessari tiltölu:
: 3,141592 = 24 : 75,398208 × 6 = 452,389 b.v.

$\frac{8640}{452,389}$ = 19,096 dýpt. | 452,389 × 19,096 = 8638,8.

Svoleidis er hægt ad midla til med þvermæl.,
þartil manni þykir lögunin mátulig.

Sé þvermælirinn gefinn eda tiltekinn, þá skal út-
reikna botnvídáttuna, og skipta med henni því kúbik-
þumlúnga tali, sem kerid á inni ad halda, og kemur
þá hædin í hlut. En sé hæd eda dýpt kersins til-
tekin, þá skal med henni skipta kersins innihaldi,
og kemur þá í hlut botnvídáttan, og má sídan af
henni finna þvermæl., sem hér eptir mun syndt verda.

Ef madr ætti ad til búa 40 marka kvartil, edr
hálfánker, er bezt ad útreikna hvad marga kúbik-
þumlúnga þad á ad innihalda, og er þad hægt med
því, ad margfalda 27 med 40, því merkurrúmid á
ad innihaldi 27 kúb.þ. 27 × 40 = 1080. Nu
verd eg fyrst ad tiltaka einhvörn vissann þvermæl. t.
d. 16 þuml. og leita svo upp botnvídáttuna eins
og ádr.

$113 : 355 = 16 : 50{,}265 \times 4 = 201{,}66$ botnvídátta

$\frac{1080}{201{,}06} = 5{,}37$ dýpt.

Þessi løgum þykir mér ekki góð, og sé eg, ad eg hefi tiltekid þverm. offstórann, reyni því til í annad sinn, og set þverm. $8{,}5 = 8\frac{1}{2}$.

$113 : 355 = 8{,}5 : 26{,}7 \times \frac{8{,}5}{4} = 56{,}7375$ botnvíd.

$\frac{1080}{56{,}7375} = 19{,}35$ dýpt

Nú ef þetta kvartil kynni ad þykja oflángt á móti víddinni, þá má setja þverm. 10, og verdur þá reikníngrinn svolátandi:

$1 : 3{,}141592 = 10 : 31{,}41592 \times 2{,}5 = 78{,}54$ botn.

$\frac{1080}{78{,}54} = 13{,}75 = 13\frac{3}{4}$ dýpt.

Svoleidis getr madr breitt til, þartil manni þykir løgunin mátulig.

Eg vil tilbúa skeppu mælir, sem taki rétta 18 potta edur 972 kúbíkþumlúnga, og skyldi dýptin vera 8 þumlúngar. Hér skipti eg innihaldinu 972 þ. med hædinni 8, og kemur í hlut 121,5, sem er botnvídátta. Enn til ad finna þvermálid, álykta eg svoleidis: Eins og hríngs innihaldid 7854 er á móti fermálstølunni af sínum þvermælir, svo er líka hríngs innihaldid 121,5 á móti fermálstølunni af sínum þverm., og þegar eg dreg þar út af fermálsrótina, þá

sýnir hún mér þvermæl. skeppumælirsins. Set því þetta í þriggjalida reglu svoleidis:

7854 : 10000 = 121,5 : 154,696969 þaraf $\sqrt{}$12,4337

Héraf sé eg, ad þverm. á ad vera 12 þuml. og frekliga $\frac{4}{10}$ þumlúngs, enn ekki fullur $\frac{1}{2}$ þuml.

Nú vil eg aptr gjøra vid, ad þverm. skyldi vera tiltekinn 10 þumlúngar, hvad stór á þá dýptin ad vera? Hér hlýt eg fyrst ad uppleita umgjørdina og botnvídáttu innihaldid med þrílidu:

1 : 3,141592 = 10 : 31,41592 $\times$ $\frac{10}{4}$ = 78,54 botnv.

Med botnvídáttunni 72,54 skipti eg því ádurnefnda sképpumælirsins innihaldi 972 og fæ í hlut 12,376 þ., sem sýnir dýptina.

Botnvídáttan 78,54 $\times$ dýptinni 12,376 = 972,01104.

Ef madur vildi smída 4ra marka ask, sem á ad innihalda 108 kúbíkþumlúnga, og sé þvermælir 5 þumlúngar.

1 : 3,141563 = 5 : 15,70796 = 15,708 $\times$ $\frac{5}{4}$ = 19,635 bv.

$$\frac{108}{19,635} = 5,5 \text{ dýpt.}$$

Héraf sé eg, ad þegar þvermæl. innann stafa er 5 þ., þá á dýptin ad vera 5$\frac{1}{2}$ þ. En þess er ad gæta, ad askrinn med þessari mælíngu, getur stadid undir 4 mørkum, en er óberandi, verdur því alltíd ad leggja lítid eitt fram yfir á dýptinni, ef hann skal vera vel berandi.

Þegar madr vill búa til krínglótt ílat, sem sé helmíngi minna ad bottnvídáttu, enn annad tiltekid, þá getr madr skipt botnvídáttu innihaldi þess gefna kers í tvo helfmínga, og er þá annar helmíngrinn botnvídáttu innihald þess kers, sem smídast á; en til ad finna þvermælirinn, set þetta í þrílidu: 7854 : 1000 = botnvídátta á móti fermálstölu þvermælirs; t. d. madr skyldi eiga ad smída 2ja marka ask. Botnvídátta 4ra marka askfins var 19,635 þaraf helfmíngrinn 9,8175 kúb.þuml. þessvegna verda 7854 : 1000 = 9,8175 : 12,5 fermálstala þvermælirs, þaraf $\sqrt{}$ 3,5355, þvermælir.

Líka getr madr skipt þvermælir 4 marka askfins: 5 þumlúngum med fertölu eda kvadratrótinni af 2, sem er 1,4142, og kemur þá allteins í hlut 3,5355, sem er þvermæl.

En í bádum þessum tilfellum verdur hæd 4ra marka askfins, ad halda sér á 2ja marka askinum, því ei tjáir líka ad skipta hædinni med fermalsrótinni af 2, þar innihaldid verdur þá oflítid.

Ef madr skiptir hæd 4ra marka askfins med $\sqrt{}$ 2, þá verdr botnvídáttan ad halda sér. Annars er þessi deilíng med kvadratrótum hentugri vid kvadrat enn kúbík-mál.

Ef madr skyldi smída 3ja marka ask, sem á ad innihalda 81 kúbík þuml., og víddin væri tiltekin $5\frac{1}{4}$ = 5,25 þuml., hvad á þá dyptin ad vera?

$$1:3{,}141592=5{,}25:16{,}493357\times\frac{5{,}25}{4}=21{,}64753$$ botnv.

$$\frac{81}{21{,}64753}=3{,}74=3\tfrac{3}{4}$$ dýpt.

Eg vil smída fötu, sem taki réttann fjórdúng edur 540 kúbikþumlúnga, og sé þverm. 10 þuml. hvad skal þá dýptin vera? hér útreikna eg fyrst botnvídáttuna:

$1:3{,}141592=10:31{,}41592$ umg. $\times\ 2{,}5$ ($\frac{1}{4}$ þverm.) $=78{,}54$ b.v.

Nú veit eg ekki hvad dýptin á ad vera margir þumlúngar, en hugsa hún muni láta nærri ad vera líka 10 þuml. margfalda því botnvíddáttuna 78,54 med 10, og fæ í pródúkt 785,4. En þar áttu ekki ad útkoma meir enn 540 kúb.þ., þá er þessi dýpt ofmikil, og segi því: 785,4 koma af 10, af hvørri tølu koma 540? svar: af $6{,}875=6\frac{7}{8}$.

Þegar eg margfalda botnvídáttuna 78,54 med dýptinni 6,875, verdr pródúktid 539,98 = 540, sem sýnir, ad þessi adferd er eins áreidanlig sem sú fyrr talda, ad skipti innihaldinu med botnvídáttunni, svo menn geta brúkad hvørja sem heldr vill.

Taki eg 9 þuml. fyrir þverm. verdr reikníngrinn svolátandi:

$3{,}141592\times 9=28{,}274328\times\frac{9}{4}=63{,}617238$ botn.

Eg set hædina . . . . . 8

508,938 innihald

Þar þetta innihald er ofĺítid, segi eg: 508,938 koma af 8, hvaraf koma 540? Svar: 8,488 = 8½ djúpt; innihaldid verdr 63,6 × 8,5 = 540,6.

Ef smída ætti ker edur krínglótt flát, sem væri aldeilis jafnt ad breidd og djúpt, t. d. ker, sem tæki 136 potta, edur 7344 kúbískþumlúnga, þá er þad meiri vandi. Og þó menn geti nákvæmlega útreiknad bædi þvermæl. og djúptina, verdr þad ómøguliga mælt svo smásmugliga nema í útreikníngnum. Þó ef nokkurn lystir ad reyna til þess, má brúka þessa eptirfylgjandi adferd:

Innihald kersins kann ad álítast sem innihald eins Cylinders *), sem hefir jafna vídd og hæd; þó menn nú útdragi kúbískrótina af kersins innihaldi, þá verdr hún kantr og djúpt ferkantads kers, sem tekr 136 potta, en þvermæl. þess krínglótta verdr ad vera nokkud stærri. Menn hafa fundid, ad innihald sérhvørs hríngs er á móti fermálstølunni af hans þvermælir, (Qvadrato Diametri) sem 7853,98 edur styttra: sem 7854 á móti 10000. Eptir þessu undirlagi má med þriggjalida reglu finna fermálstølu af þverm. þess kers, sem inniheldur 7344 Kubískþumlúnga, þannig:

*) Cylinder er sérhvad þad, sem er sívallt og hefir jafn stóra enda; vér gætum kallad þad sívalíng.

7854 : 10000=7344 : 9350,64935, fermálstala hvm. Þegar út af þessari 4du tölu er dreigin kúbikrótin nákvæmliga, finnst hún ad vera 21,06754, sem sýnir bædi þvermælir og dýpt 136 potta kersins, þad eru 21 þuml. og ekki fullir $\frac{7}{100}$ þumlúngs.

Nú er mér hugr á ad reyna, hvad nærri þessi útreikníngr kemst því rétta innihaldi; uppleita því umgjörd og botnvídáttu med sama hætti og ádur er sýnt, og þegar eg hefi hana fundid, margfalda eg hana med þverm., þar kerid á ad vera eins djúpt, sem þad er vídt.

1:3,141592=21,0675:66,18545 umm. $\times$ ¼ þverml. 5,2669 = 348,5921466 botnvídátta $\times$ 21,0675 = 7343,96 = 7344.

Héraf sé eg, ad ei mismunar frá því rétta innihaldi meir enn $\frac{4}{100}$ úr þumlúngi.

## 2 Dæmi.

Mér er hugleikid ad vita, hvad þad kerhald skal vera ad vídd og dýpt, sem tekur 32 potta, og sem sé aldeilis jafnt ad vídd og dýpt. 32 pottar gjöra 1728 kúbikþumlúnga.

Hér uppleita eg fyrst fermálstölu þvermæl. eins og ádr, og dreg þar út af kúbikrótina nákvæmliga til 5 eda 6 tugabrota.

7853,98 : 10000 = 1728 : 2200,158518356.

$\sqrt[3]{}$ 13,006226.

Héraf sé eg, ad þvermæl. og dýptin á ad vera 13,006226 þ. Til þess nú ad vita hvørt rétt er reiknad, uppleita eg med þríggjalida reglu ummálid og þar af botnvídáttuna, med því ad margfalda ummálid med ¼ þvermæl. edur med øllum þvermælirnum, og skipta svo pródúktinu med 4, en seinast margfalda eg botnvídáttuna med dýptinni, sem hér er sama og þvermælir.

$$1:3{,}141592 = 13{,}006226:40{,}86 \text{ umm.} \times \frac{13{,}006226}{4}$$

$$= 132{,}85864 \text{ b.v.}$$

$$132{,}85864 \times 13{,}006226 = 1727{,}99 = 1728.$$

Hvad stór skal vera þverm. þess hnattar, sem skal innihalda 32 potta Rúm, edr 1728 kúbisk-þumlúnga? svar: 14,89.

Þar hnattarins innihald er á móti kúbisku talnumi af hans þverm. sem 157 á móti 300, svo set eg þetta í þriggjalida reglu svoleidis:

$$157 : 300 = 1728 : 3301{,}910828 \sqrt[3]{\ } 14{,}89.$$

$$1 : 3{,}141592 = 14{,}89 : 46{,}778 \text{ p.} \times \frac{14{,}89}{4} = 174{,}1311$$

$$\text{b.v.}$$

$$174{,}1311 \times 14{,}89 = 2592{,}812079 \text{ skvalkngs. innih.}$$

Þaraf ⅔ = 1728,44. hnattarins innihald.

Af þessu framanskrifada er audséd, ad ef 32ja potta ílatid skal vera reglulígr kúbus edr teníngsmindad,

á það að vera á hvern veg, leingd, breidd og dýpt 12 þuml. því kúbíkrótin af 1728 er 12.

Skuli slátið vera kríngĺótt, og jafn vídt og djúpt, á þess þverm. og dýpt að vera 13,006226 þumlúngar.

Enn skuli það vera fullkominn hnöttur, á hans þverm. að vera 14,89 þuml.

---

Þegar hinn gamli madr hafdi þetta sagt, hneigdi hann sig og fór ofan af steininum. Eptir hann kom siglðr madr á kjól frumúr mannþraunginni og hljóp uppá steininn; hann hafdi mikil manna læti og tilgerd, og sást það á, ad hann þóktist mikill madr vera. Menn héldu það mundi vera hálærdr madr, og lögdu eyrun vid, til þess ad heyra hvad hann taladi, en þegar þeir heyrdu umtals efni hans, þá sáu allir, ad hann mundi skinnabarkari eda sútari vera, og datt ofanyfir menn hrædiliga, enda vildu sumir fara af stad og lofa honum ad tala vid sjálfann sig, ef hann vildi, en ekki vard af því ad sinni. Ræda sútarans hljódadi svona:

## B. E.

# Fáein ord
um
# helztu atridi Skinnaverkunar
eda um
## ad barka og súta skinn.

---

Íslendíngar og gódir menn!

Svo er skinnaverkun margbreytt, og svo er mikid um hana ritad, ad eiga er hægt ad útlista hana til fulls med fám ordum, en þar þad efni er svo ókunnugt hér í landi, ad fáir bera hid minsta skyn þará, þá hefi eg ætlad, ad þad mætti verda ad nokkru lidi, ef menn lærdu ad þekkja adal atridi skinnaverkunarinnar, því bædi er hægt ad útlista þau í stuttu máli, og líka má nokkud verda hér, eins og í svo mörgu ödru, betra enn ekkért. Eg veit ad sönnu, ad ydr rídr mikid á greiniligri tilsögn vid skinnaverkun, þar þér berid minna skynbragd á hana, enn nokkur önnur þjód í veröldunni, því skrælíngjarnir í Grænlands óbygdum bera lángt af ydr í þessu, en mér þykir íssjárverdt ad vera mjög, fjölordr, á medan eg veit eigi hvört ydr er nokkur forvitni á ad frædast um þetta efni. Verdi eg þess var, ad ydr þyki tal mitt nokkrs verdt, þá skal eg

feinna gera ydr ljósari grein á mörgu, sem hér ad lýtr.

§. 1.

Skinnabörkun er mikid gömul í flestum löndum, og hafa menn fundid hana upp af sjálfum sér, og þau medöl er til þess þurfa, án þess menn hafi haft ljósa hugmind um verkanir þeirra; samt sem ádr hafa menn í hinum ýmsu löndum haft áþekka adferd.

§. 2.

Nytsemi skinnabörkunar er sú, ad tálma því ad skinn geti fúnad eda úldnad, og ad gera þad sterkt, haldgott og seigt, og svo vatnsheldt sem verdr. Þetta skedr á þann hátt, ad allr vessi úr skinninu verdr burtnuminn og þad innsta af því eda þad sem næst liggr kjötinu, burtskafid; eptir þetta sameinast börkunarefnid (sem er í börkunarmedölunum) hinu þerrada og hreinada skinni, og veitir því nýa eginlegleika. Auk hinna ofan töldu er sá einn, ad skinnid verdr aldrei líkt hráskinni, hvad lengi sem þad liggr í bleytu, og er þa audrádid, ad þad muni endast miklu betr. Sútun skinnanna gerir þau mýkri, hálari og glæsiligri.

§. 3.

Skinnabörkunin inniheldr 3 höfud atridi,

1. Bleytíng og hreinsun húda og skinna, frá allskonar óhreinindum og hári og slími og vessum.

2. Svellíng skinnanna; svo kalla eg þann atburd er kemr skinnum til ad svella eda þrútna.

3. hina eginligu børkun.

Adferdin er ýmislig, eptir því hvørt barka skal þykkar húdir til sóla eda þunn skinn til uppledrs á stígvélum, eda til annarar brúkunar.

## I. um hreinsun og þvott skinna.

### §. 4.

Ef húdin er tekin strax ný, eptir ad nautinu er slátrad, þá er þad fyrst, ad leggja hana í rennandi vatn, ef til er, til ad þvo af henni allt blód og saurindi. Menn leggja húdina eptir endilaungum læk, reka sinn hæl í hvørn lækjarbakka, hnýta snæri í augnaholurnar á húdinni, og binda hana svo vid hælana. Hudin má liggja í vatninu dægrlángt eda sólarhríng eda lengr, allt eptir því hvørt hún er þykk eda þunn, eda vedrid er heitt eda kallt. Hafi húdin verid hørd ádr eda sølltud, þá liggr hún lengr í bleyti, og optastnær þángad til vid sjálft liggr ad ýldu slái í hana, er bezt finst á lyktinni. Menn taka húdina tvisvar eda þrisvar upp úr vatninu á dag, og skola sem bezt úr henni og binda hana svo vid staurana aptr. Hafi húdin verid þur ádr eda søølltud, þá er eigi einasta naudsynligt ad skola úr henni, heldr og einnig ad leggja hana á skøfunarbakid *)

*) Skøfunarbakid er þykt bak af digrum og sívølum

svoad hárramrinn snúi nidr, og skafa holdrosuna med tvísk eftum hnífi med þykkri meitilsegg sem ekki bítur. Er þetta gert til þess ad kreista vatn þad útaf húdinni, sem hún hefir drukkid í sig og øll óhreinindi sem vatnid hefir bleytt upp, og tekr med sér.

## II. um svellíngu.

### a) um svellíngu þykkra húda til sólaledrs (eda á Isl. skóledrs).

§. 5.

Eptir bleytíngu og þvott húdanna kemr svellíngin. Só er tilgángrinn med hana, ad húdin

---

bjálka, hérum 2 alna lángt eda styttra; annar endinn stendr á gólfinu eda jørdunni, enn hinn endinn liggr á dálitlum trønum. Bakid rís þannig skáhalt upp, svo ad sá endinn sem upp veit taki manni upp yfir mjadmirnar, þegar hann stendr rétt fyrir hønum. Bakid snýr upp, og er húdin løgd á þad; en sá sem skefr hana stendr rétt fyrir hærri endanum, tekr skøfunarhnífinn tveim høndum, hvørt sem hann er sljófr eda beittr, og skefr húdina ofan eptir bakinu. Skøfunarhnífarnir eru eins og bogin ljár í løgun, nema þeir eru jafn þykkvir til beggja enda og tvískeftir. Þegar sá sljófi hnífr er vidhafdr, skal snúa egginni rétt inn ad húdinni og skafa þannig, en beitta hnífinn leggr madr á eins og rákstrar hníf á skinn eda gæru.

opni sig eda gisni, svoad hárin losni, og einkanliga ad hún drekki þess betr í sig børkunarefnid. Þetta verdr med mørgum hætti.

1) Sá eldsti og almennasti háttrinn er sá, ad leggja húdirnar í kalkvatn. Ad því er svo farid, ad menn grafa grafir ofaní jørdina, láta þari brendt kalk (svosem tvo 10 potta kúta fyrir hverja húd sem kalka skal) og metta þad med vatni. En þegar vatni er hellt í brent kalk og hrært samanvid þad, þá hitnar í því, en kólnar aptr þegar þad eigi getr drukkid meira vatn. Þegar kalkid er ordid kallt, koma menn meiru vatni í grøfina, og hræra kalkid þar saman-vid, sídan láta menn húdirnar ofaní þad, og byrgja svo grøfina med bordum. Þad er adgætandi, ad kalkid søkkr til botns, þarf því ad hræra vel uppí kalkvatninn med spødum, ádrenn húdirnar eru látnar í þad, og skal flýta sér ad láta húdirnar ofaní strax á eptir. Her liggja húdirnar í viku, sídan taka menn þær upp, og leggja þær hverja ofaná adra á grafar bakkann, og láta þær liggja þar adra vikuna; þarnæst láta menn húdirnar í grøfina aptr adra viku, og taka þær svo upp aptr eins og fyrri, er þessu farid þannig fram á víxl, í tvo mánudi, eda svo lengi uns hárin losna, svoad þeim má vel kippa upp úr húdinni. Þegar svo lángt er komid, leggja menn húdirnar í hreint vatn, og láta þær liggja þar í sólarhríng, og skola þær vel daginn eptir, leg-

gja þær síðan á skøfunarbakið og skafa allt hárið burtu með hnífnum, sem eg lýsti áðan, með meitilseigginni. Þegar búið er skafa hárið af, lát húðirnar í kalkgrøfina aptr, og skipt til eins og fyrri, að taka þær uppúr og láta þær ofan í aptr, á vikna fresti og far svo fram í 4 mánuði. Tak þvínæst kalk og mett með vatni, og lát það í aðra grøf, hrær það samanvið vatn eins og áðr, lát húðirnar í þetta nýa kalkvatn, sem er nokkuð sterkara enn hitt, og skipt til eins og fyrri á viknamótum, að taka húðirnar uppúr og láta þær ofaní aptr; far svo fram aðra 4 mánuði. Mett hið þriðja sinn kalk með vatni, og hrær það daginn eptir, þegar allr hiti er úr því, samanvið vatn í hinni 3ju kalkgrøf, lát húðirnar þarí, og far enn að sem fyrr í 4 mánuði. Hér er gert ráð fyrir að fleiri séu kalkgrafirnar enn 1 eða 2, og að í þeim fyrstu sé kalkvatnið dauft, í hinum seinni sterkt. Þó má eins hjálpast við eina kalkgrøf; er þá komið litlu kalki í, allrafyrst, og bætt svo við brendu kalki og mettuðu smámsaman, eptir að það er orðið kallt í hvørt skipti, eins og áðr er sagt.

Þegar hér er komið, taka menn húðirnar uppúr kalkgrøfunum, leggja þær á skøfunarbakið, og skafa hárraminn með meitilseggjar hnífnum, til að þrýsta kalkinu ut úr húðinni, síðan snúa menn húðinni við og skafa holdrosuna vandliga, fyrst með hinum

sama hnífi, en síðan með beittum hnífi, til þess að ná burtu öllum kjöttæum og slími, sem er innanî húðinni, er það aðgætandi, að betra er að leggja skinn á sköf-unar bakið undir húðina sem skafast á, þá er mýkra undir henni og síðr hætt við að hún skerist; síðan skola menn húðirnar vandliga í vatni, og þæfa meðan þær eru blautar undir fótunum; allt þetta streka menn upp aptr og aptr þángaðtil allt kalk er út af húðunum.

Á seinni tímum hafa menn stytt tímann sem húðirnar eru í kalkvatninu, svo að menn láta þær eigi liggja þar lengr enn svosem 3 til 6 vikur, og taka þær ekki uppúr nema svosem tvisvar eða þrisvar í viku, stundarkorn; en síðan láta menn þær í kerhald og koma svo miklu skarnvatni þará sem þarf til að hylja húðirnar. Skarnvatn þetta er svo tilbúið, að menn hræra fugladrit eða hundakúk sem orðinn er hvítr, samanvið heitt vatn og hella svo köldu vatni í á eptir, og þarf tæpann pottmælir af þessu skarni á hverja húð. Í þessu skarnvatni liggja húðirnar í viku eða 10 daga, eptir því sem veðr er heitt eða húðirnar þykkar, og hafi menn hundakúk, liggja þær ei nema svo sem 2 eða 3 daga. Dregr vatn þetta kalkið utúr húðunum aptr, er annars tálmar börkuninni og svellir þær mikið. Menn taka húðirnar upp úr skarnvantinu 2svar eða 3svar á dag stundarkorn. Þá þykja húðirnar nógu þrútnar

er hárramrinn er ordinn sleipr átaks. Þad er audskilid, ad ætid þarf ad skafa húdirnar á skøfunarbakinu, eins og ádr er sagt, einkum holdrosuna, svoad engar kjøttágar verdi þar eptir.

Eptir ad menn lærdu ad þekkja hinar kemisku verkanir, sem fylgja med skinnaverkuninni, sáu menn skjótt, ad kalkid spillti skinnunum, einkum þegar þau liggja lengi í þvi; menn sáu og, ad þær gódu verkanir sem kalkid hefdi á skinnid, nefniliga hárlosid og svellíngin, gætu framkvæmst á miklu styttri tíma med ødrum medølum, nefniliga slíkum sem koma skinnunum til ad gerast eda sýrast, svoad þeim liggr vid sjálft ad morkna, þessvegna hafa menn svellt skinnin á margann annann hátt, og vil eg hér nefna þá helztu.

2) Tak eitt eda fleiri ílát og graf nidr í gólf, svoad barmarnir séu jafnir vid þad (líkliga mun þad geta stadid ofanjardar líka, einkum ef þad stendr í hita, svosem í fjósi), og kom vatni í þau; tak 10 eda 11 pund byggmjøls til hvørrar húdar, er vegr 5 fjórd. á blódvelli, og þú ætlar ad svella í þad skipti, tak einn fjórdapart af þessu mjøli, hell heitu vatni á og gjør súrdeig af, og lát þad gera (sýrast einsog í súrbraud). Þegar þad er farid ad ólga þá kom nokkru af hinu mjølinu þar samanvid, hell meiru vatni á og hrær vandliga saman, kom þessu í kerhald, sem

er grafid ofaní jørdina, og svo meiru vatni og hrær allt vel sáman. Þegar nokkud er frálidid, svosem hálfr mánudr, og menn vilja nýa upp grautinn, þá gera menn súrdeig úr því, sem eptir var af mjølinu og hræra vel út í kerhaldinu; þyki enn þurfa meira vid seinna, þá tak meira mjøl og far eins ad. Flestir hafa mørg kerhøld og flytja skinnin úr einu í annad, eptir því sem løgrinn dofnar vid brúkunina, en vel ætla eg megi bjargast vid eitt eins og eg hefi sagt. Má og bæta dálitlu af ediki í seinna, eda þá sýru í þess stad, sem hér mun gera sama gagn. Húdirnar tekr þú upp einusinni dagliga, og lætr þær vidrast, því loptid hradar geríngunni og svellíngunni. Hvad lengi húdirnar skuli liggja í þessum byggmjølsgraut verdr eigi sagt med neinni vissu, þad fer allt eptir hita og húdanna þykt og ødru ásigkomulagi; sumir láta þær vera þar í mánud og sumir í 6 vikur, en þad er áríðandi ad þær séu þar ekki oflengi, því þá skemmast þær. Sumir hafa þad til marks, ad þá sé húdin nóg sollin, þegar þad sem hrukkótt er á skinninu, eptir sínu edli, (t. d. púngurinn) er ordid slétt.

Þad er adgætandi, ad enn meira rídr á ad húdirnar séu vandliga hreinsadar og skoladar í vatni og skafnar á skøfunarbakinu, ádrenn þær koma í byggmjølsgrautinn, heldrenn þá þær eru settar í kalkvatn. Þegar húdirnar hafa legid svo lengi í bygg-

grautnum ad hárid er ordid laust (er serhvørr má adgæta), þá skafa menn þad af á sama hátt og ádr er sagt, sídan kasta menn húdinni í læk og láta hana liggja þar dægrlángt eda sólarhríng ef þurfa þykir; þarnæst taka menn þær og láta þær í bygg-mjølsgrautinn ad nýu. Þegar þær eru ordnar mikid þrútnar, tak þær upp aptr, og hreinsa og skaf holdrosuna vandliga á skøfunarbakinu, med beittum hnífi, á líkann hátt og ádr er sagt; legg húdirnar ad því búnu í rennandi vatn og lát liggja þar í tvær eyktir, tak þær sídan upp og legg í mjølgrautinn, enda ætti nú ad hræra hann dálítid upp med mjøli og sýru. Í þessum graut liggja húdirnar þángadtil þær þykja hæfiliga þrútnar einsog ádr er sagt.

3) Sumir rota húdirnar, (þ. e. láta hárin losna med því ad í þær komi hiti). Þad skedr á þann hátt, ad menn strá 2 eda 3 pd. af salti á holdrosuna á hvørri húd, þó ekki nema á annann helfmínginn, því húdin er løgd saman í midju og verdr þá salltid á milli; þánnig hlada menn þeim húdum, er menn hafa, hvørri ofan á adra, og þekja svo yfir med heyi eda ødru slíku; vid þetta kemr hiti í húdirnar svo hárid losnar, en eigi má bída svo lengi til þess þad dettr sjálfkrafa af, og er betra þad sé heldr fastara enn mjøg laust, ádr þad verdr afskafid; verdi madr var vid bletti er svo eru ordnir

meirir, þá strýkr madr þá med salltvatni. Menn snúa húdunum einusinni á dag, þannig, ad sú húdin sem var efst, verdr nedst, og snýr þeirri hlidinni nidr, er ádr var upp, og svo hvørri af annari uns sú er nedst lá, verdr efst. Menn geta komid enu sama til leidar án sallts; leggja menn þá hey eda hálm undir húdirnar og breida þad eins yfir þær. Annars fer madr ad øllu eins og ádr er sagt, þá sallt er vidhaft. Hárin losna þá opt nægilga á þrem døgum.

Þegar búid er ad skafa hárid af húdunum, láta sumir þær í áþekkann mjølgraut eins og eg nefndi ádan, uns þær þykja nógu þrútnar, en sá er munurinn ad Wallakkar, sem hafa þessa adferd, koma sallti í grautinn og gera hann smámsaman volgann med því ad hella heitu vatni í. Salltid fordar rotnan, en hitinn flýtir svellíngunni. Þad er adgætandi vid alla þessa svellíngarmáta, ad húdirnar mega ekki liggja oflengi í svellíngu, því þær skemmast vid þad.

4) Sá fjórdi máti er, ad svella skinn í gømlu børkunarvatni, því er hefir mist næstum allann sinn barkandi krapt til skinna, þeirra er menn hafa barkad í því ádr. Amedan børkunarvatnid hefir mikid børkunarefni í sér, samansnerpir þad húdarinnar smágjørfu þrædi og svitaholur, en þegar þad hefir mist børkunarefnid þá kemr geríng í þad og verdr súrt, og fær þannig þann eginligleika sem útheimtist

til ad svella skinn, þótt hann sé gagnstædr þeim er barkar. Adr enn menn láta húdirnar ofan í þetta vatn, hafa menn rotad þær eda rakad, skolad þær vandliga og skafid þær á holdrosuna, og þarnæst látid þær liggja í vatni í eina 3 eda 5 daga, eptir hita og ásigkomulagi. Þetta súra barkunarvatn fæst med því móti ad láta sama vatn síast aptr og aptr ígegnum þær urtir, sem hafa ádr verid hafdar til barkunar og misst hafa sitt barkunarefni ad mestu leiti; má þad gera med því, ad láta urtir þessar í slát, og hella svo vatni yfir, en bora gat eda fleiri smágøt á slátid ad nedanverdu, og setja þar undir annad minna slát, svo ad løgrinn geti lekid þarf. Í þessu vatni verda húdir full-þrútnar á hálfum mánudi og þrem vikum, en þá mun þurfa ad nýa upp barkunarvatnid smámsaman, svo þad verdi jafnsúrt eda súrara þegar álídr enn þad var í fyrstu, í útløndum hafa Skinnabarkarar mørg svellíngarker og láta þeir súrinn verda mestan í þeim kerunum, sem húdirnar eru lagdar seinast í. Hér má sjá hvørt húdin er nægiliga sollin (þrútin) eda ekki; sé hún þad, er hárramrinn hvítleitr eda øskulitadr, sé hún þad ekki, er hann gulleitr. Þessi svellíngarmáti þolir ekki mikinn sumarhita, en í mørgu þykir hann hafa yfirburdi yfir hina undangengnu: hann er fljótari og gerir skinnid betra.

5) Enn hafa nokkrir rádid til ad svella skinn

í brennisteinssýru hrædri samanvid vatn. Dr. Macbridi sem fyrstr stakk uppá þessu, rédi til ad hræra einn pott sýrunnar samanvid 200 potta af vatni, en Séguin hélt þad væri of lítid, og vildi hafa 500 potta af vatni, og nú halda menn ad 1 pottr sýru sé nógr í 1000 potta af vatni. Þessum svellíngarmáta er hrósad, og hefir hann þad ágæti vid sig, ad húdirnar skemmast eigi þó lengi liggi í þessu sýruvatni.

6) St. Real hefir rádid til ad svella húdirnar í heitu vatni á fylgjandi hátt. 1) fyrst skal leggja húdina í rennandi vatn eins og ádr er sagt, skola hana vel og skafa. Til ad vita hvert nóg er adgert, skér madr dálitla bót eda skekil af húdinni og sýdr í vatni, komi þá engin froda, er nóg adgert; 2) kom vatni í ketil og legg húdirnar þarí, lát vatnid eigi verda heitara enn 60° R. eda 75° C. (hitamælir þarf ad hafa), því annars skemmist húdin. Vatninu má halda fyrir nedan þetta hita-mál med því ad leggja hægann eld ad, og ausa vatni smátt og smátt úr katlinum, en koma ødru kaldara í aptr. Lát húdirnar liggja í hálfa adra klukkustund þarí, eda svo lengi sem þarf, til þess hárin losni; 3) legg húdina á skøfunarbakid og skaf hárid af; 4) Lát húdirnar í ketilinn aptr og lát vatnid verda allt ad 60° R. Þar eiga þær ad liggja til þess ekkert slím verdr eptir í vatninu; þegar lítid eitt af því

er lengi sodid, og látid svo kólna, þá þarf ad skipta um vøtn ad øllu leiti þegar þetta skal reyna. 5) Nú skal takka húdirnar og leggja á skøfunarbakid, og skafa holdrosuna vandliga; og 6) loksins skola húdirnar í køldu vatni. Med þessu móti má svella húdir á tveim eda þrem døgum.

## b) um svellíngu þynnri húda og skinna.

### §. 6.

Allar þynnri nauta og kyrhúdir (sem vega minna enn 5 fjórd. á blódvelli ad allra minsta kosti) og skinn af minni dýrum, svella menn einúngis í kalkvatni, á líkan hátt og ádr er frásagt. Þad er sjálfsagt, ad þau eru þvegin og skolud ádr þau koma í kalkvatnid, en í kalkvatninu eru þau ekki lengr enn mánud eda sex vikur á sumrin, og 6 eda 8 vikur á vetrnar. Kálfa- sauda- og geitaskinn mega vera þar skemr, 3 vikr eda mánud í mesta lagi. Menn skafa hárin af þeim skinnum á skøfunarbakinu, sem eigi hafa verid røkud ádr, þegar hárin taka ad losna, eins og ádr er sagt; en þegar skinnin eru ordin nógu þrútin, þá leggja menn þau í vatn, strjúka þau med meitilseggjar hnífnum á skøfunarbakinu, bædi á hárram og holdrosu, fimm eda sex sinnum hvad eptir annad, og skola þó skinnin þess á milli í vatni. Til 12 saudskinna þarf hérum 8 eda 9 pd. af þurru kalki.

## §. 7.

## Yfirlit yfir allt hid undangengna um sveitíngana med tilliti til Islands.

Húdir þær, sem menn í útlöndum hafa til sólaledrs, eru af gömlum uxum, og vega í hid minsta fim fjórdúnga á blodvelli, enn minni húdir kalla menn þunnar, enda eru þær verkadar þar eptir; eru þær hafdar til margvísligra hluta, svosem til stígvéla-bola, til sødla, til bókfells og fl. Vorar húdir munu flestar verda á medal hinna þynnri í ofannefndum skilníngi, og því mun vera hollast ad haga sér þar eptir; en af því ad vér þurfum á svo miklu skóledri ad halda, og þessvegna verdum ad brúka vor þunnu skinn til þess, megum vér þó eigi med øllu gleyma hvørsu sólaledr er verkad, og munum vér því verda ad fara bil beggja. En til þess hefi eg sagt frá svo margbreyttum verkunarháttum, ad sérhvørr gæti séd í hvørju þeir eru líkir, og sjálfr reynt hvørr beztr væri. Eg fyrir mitt leiti vildi gera tilraun á eptirfylgjandi hátt. Eg tæki kýrskinn eda nautsskinn, skoladi þad vandliga og skæfi eins og eg hefi sagt (§. 4) og legdi þad sídan í kiös; eg legdi húdina saman fersalda og kæmi dálitlu af salti á milli brotanna, eg breiddi hey undir hana og ofaná, og léti hana liggja svo dægrlangt, en sídan snéri eg henni vid einusinni á dag

og breytti brotunum þannig, ad þad, sem ádr vissi út, sneri nú inn; þetta léti eg gánga, til þess hárid væri ordid svo laust, ad því mætti vel kippa út, en laust má þad ekki liggja, því þá er húdin ofhlaupin. Þegar eg væri búinn ad skafa hárid af, mundi eg leggja húdina í rennandi vatn, svosem dægrlaugt, skæfi hana sídan vandliga, einkum holdrosuna, og legdi hana sídan í børkinn eins og sídan mun sagt verda. Hefdi eg nú adra húd færi eg eins ad, nema eg legdi hana svosem vikutíma í mjølgraut eda sýruvatn eda súrt børkunarvatn, eptir ad eg hefdi skafid hárid af og skolad hana, og skæfi sídan á skøfunarbakinu og legdi svo i børkunarvatnid. Eg kynni og ad útvega mér svosem tunnu eda hálftúnnu af brendu kalki hjá einhørjum kaupmanni, þar þad eigi er ad fá hér í landi, og reyna þad, þó mundi eg ekki láta skinnid vera lengr í því, enn þángadtil hárid væri ordid nógu laust, og svosem viku tíma eptir þad; og sídan skola þad vel og strjúka, sem mest rídr á eptir kalkvatnid. Eg mundi ætíd varast ad svella þau skinn mikid, (hvørr mátinn sem mér reyndist bestr), sem eg ætladi til skóledrs, því svellíngin gerir þau gisnari og veikari, en sparadi þess minna børkunarefnid, er ætíd þarf meira því þéttara ledrid er. Ef eg vildi verka kálfskinn eda saudskinn til skóledrs, þá mundi eg fyrst raka þau, og sídan láta sum svosem 2, eda 3 daga lengst, í

fjós, og önnur skinn, sitt í hvört af hinum ádr-nefndu svellíngarmedölum, sem ádr eru talin, svosem vikutíma, og vita hvört bezt væri. Allt þetta gæti eg reynt med 1 eda 2 skinnum, ef eg risti þau blaut í skædi, þá þyrfti eg og mikid lítil ílát, kollu eda fötu eda annad slíkt. Öll þessi ílát skyldi eg láta standa í fjósi á vetrum.

Ef eg vildi verka skinn til södla eda til bók-fells eda til skinnfata, þá skyldi eg svella þau nokk-ud meira, því þá rídr meira á ad skinnin verdi mjúk og þunn, heldrenn vatnsheld. En á þetta mun eg minnast seinna.

## III. um börkun skinnanna.

### §. 8.

#### a) um börkun enna þykkri skinna.

Þegar búid er ad svella skinnin skafa þau og skola, eins og ádr er sagt. Þá eru þau albúin til börkunarinnar, og þetta er adalatridid vid skinnaver-kunina; hitt er undirbúníngr. Í útlöndum barka menn med eykar eda furuberki, sem ádr er maladr á mylnu, er líkist kaffemylnu, nema hún er stærri, og verdr þad á fylgjandi hátt. Menn grafa vídt ker-hald ofan í jördina, svo barmarnir séu jafnir gólfinu eda jördunni. Þau eru svo stór, ad húdir geti lagt útbreiddar þarf. Nú er tekinn gamall börkr er ádr hefir verid brukadr til börkunar, er hönum dreift á

botninn svosem 5 eda 6 fíngra þykt, þar ofaná dreifa menn nýum berki fíngursþykt, breid húdina ofaná þetta lag vel út, þannig, ad hárramrinn viti upp; strá berki ofaná þessa húd, svosem fíngrs þykt, þó minna þar sem húdin er þunn og meira þar sem hún er þykk, legg adra húd þarofaná, þversum, ef rúmid leyfir, og viti hárramrinn upp; strá berki á hana eins og hina, og far svo fram med þær húdir, sem til eru og þú ætlar ad barka (og mega þær vera 10 eda 15) uns allar eru lagdar; ofaná hina efstu húd stráir madr berki nokkru þykkra, svosem tveggja fíngra, sídan er ausid vatni í kerid, einni medalfötu fyrir hverja, húd og ofaná alltsaman stráð gömlum berki; sídan er kerid byrgt med bordum.

Sumir láta þurrann börk í kerid, en sumir væta hann dálítid ádr í vatni, og þykir þad betra. Flestir hafa 3 eda fleiri börkunarker, er þá látinn minstr börkr í fyrsta kerid, því annars snerpast svita holurnar ofmikid saman ad utanverdu, svo börkunarefnid á bágt med ad komast eptir þad inn í húdina; en svo er látinn meiri og meiri börkr í þau kerin sem á eptir koma. Í fyrsta kerinu eru húdirnir í þrjá mánudi, í hinu ödra í 4 eda 5 og í hinu þridja í 4 mánudi. Hjálpa má ser eins med eitt kér, þarf þá ei annad enn veida hinn gamla börk uppúr kérinu á tédra tímabila fresti, og láta annann nýann í

stadinn; lætr madr minstann börk í hid fyrsta sinn, og svo meira sídan. Þegar menn skipta um börkinn, hrista men hinn gamla börk vel af, svo hann verdi eigi í veigi fyrir hinum nýa. Þad er gott ad láta holdrosuna snúa upp í ödru badinu, og ad skipta um legu húdanna, svo, ad þær verdi nedstar er ádr voru efstar.

Sumir láta strax töluverdt vatn í kerid og strá svo deigum berki útyfir yfirbord vatnsins, sem á ad verda undirlag, sídan taka tveir menn hverja húd, annar í framhlutann og hinn í aptrhlutann, en slá sídum húdarinnar upp beggja vegna ofaná midjuna; þeir bera húdina á milli sín, sinn hvorju megin kérsins, svo húdin er yfir því midju, sídan gefr annar þeirra teikn, svo bádir sleppi henni í einu, og hún falli flöt ofan á vatnid. Þegar hún er þar komin, slær annar þeirra sídum húdarinnar út med staur, sem hann rekur í göt, er til þess eru gerd yzt í húdina, enn hinn heldr húdinni med ödrum staur í mótsetta átt, til þess ad gera mótstödu, og hinn geti betr nótid afls. Þegar húdin er ordin öldúngis flöt, þá er strád berki ofaná hana, og svo önnur húd lögd þarofaná og svo hver af annari, á sama hátt, uns allar eru búnar, og loksins er berki strád ofaná þá efstu. Sumir hafa eigi þessa adferd fyrri enn vid seinni börkunarvötnin.

## §. 9.

### um børkun hinna þynnri húda og skinna.

Børkun enna þynnri húda og skinna er mjøg áþekk børkun hinna þykkri; hellzti munurinn er sá, ad skinnin eru látin í þynnra barkvatn í fyrstu, líka þarf miklu skemri tíma til ad barka þau enn þykkar húdir, og margir nýa ekki børkunarvatnid upp nema einusinni. Menn láta þau liggja 2, 3 eda 4 mánudi í børkunarvatninu eptir ásigkomulagi.

## §. 10.

### á hverju marka er, nær skinn eru fullbørkud.

Á øllum skinnum má sjá hvert þau eru børkud nóg eda ekki; þad sést á sárinu þegar í þau er skorid, einkum þar sem þau eru þykk; sé þad jarpt í gegn, þá er skinnid fullbarkad, en sé hvítleit eda døkkleit rák eptir midju sárinu, þá vantar þad skerpu. Þykir mønnum betra ad vísa til þessa merkis enn ad tiltaka vissann tíma er húdir eda skinn skuli vera í børkunarvatninu, því þad er mjøg misjafnt.

## §. 11.

### um ad flýta børkuninni.

Af því sem hér á undan er sagt er þad audsært, ad skinnaverkanin er mjøg lángsøm, einkum hvad hinar þykkri húdir snertir, þar sem hálft annad ár til 2 ár þarf, til ad verka þær til fulls, en 4

til 8 mánudir til ad verka hin þynnri skinn. Menn hafa þessvegna á seinni tímum fundid uppá ýmsum medölum til ad hrada skinnaverkuninni, en flest eru þau svo margbreytt og umstángsmikil, ad eigi er líkligt ad vér Íslendíngar færum oss þau í nyt ad sinni; eigi ad sídr vil eg geta tveggja, sem einföldust eru. Á annad hefi eg minnst, nefniliga St. Reals máta ad svella skinnin í heitu vatni, en þad var ekki nema byrjunin, eptir þad let hann skinnin barka vid eins mikinn hita nefnil. alltad 60° R. og urdu þykkar húdir fullbarkadar í hálfann mánud, en þunnar húdir og skinn í 2 til 4 daga. En Séguin hefir lastad þessa adferd, og sagt hana ónýta, enda hefir hann og kent adra betri, og hljódar hún svona:

Hann þvær og skolar húdirnar eins og vanaligt er í rennandi vatni (ef til er). Hann lætr hárin losna med því ad hengja húdirnar í kalkvatn (á þverslár) ádr. Þegar kalkid sökkr, þarf strax ad róta því upp aptr. Þarna hánga þær 8 daga, og er þá audveldt bædi ad ná hárinu af, og ad fá húdirnar til ad svella. Séguin rædr annars til ad rota húdirnar til ad ná hárunum af. Hann svellir skinnin í tré ílatum, kerhöldum eda bölum, og kemr í fyrstu $\frac{1}{15000}$ (einum fimtánþúsundasta parti) af brennusteinssýru í svellíngarvatnid, en sídan bætir hann smámsaman vid, þángadtil sýran er ordin $\frac{1}{1000}$ (einn þúsundasti partr) af vatninu; á tveim

sólarhríngum er húdin fullþrútin. Þad er annars hægt ad sjá á sárinu, hvørt skinnid er fullþrútid; þegar þad er svellt í brennisteinsshru, þad er þá gult ígegn, annars er hvítleit rák í þad midt er sýnir, ad þad vantar áherzlu. *)

Séguin leggr hvørki húdir né skinn í børk, heldr í løginn af berkinum, því børkunarefnid rennr í vatni þegar børkr eda urtir sem innihalda þad eru látnar í vatn. Hann fær løginn eda børkunarvatnid á eptirfylgjandi hátt. Han setr 4 eda 5 smá ílát, (svosem bala, stórar kollur eda slíkt) hvørt uppyfir annad, (annadhvørt á hillr sem eru settar hvør fyrir ofan adra, eda á grindur sem búnar eru til á milli 4 uppstandara), og lætr børk (eda þær urtir sem innihalda børkunarefni) í þau øll, nema þad nedsta, sídan hellir hann vatni á børkinn í efsta ílátinu; þegar þad hefir verid þar nokkra stund, og dregid til sín børkunarefnid (er ordid raudleitt og barkandi). Lætr madr þad renna ígegnum gat, er borad er nidr vid botninn á ílátinu ofaní ílatid sem er næst fyrir nedan, þar er þad látid standa nokkra stund, (líkliga dægrlángt), og látid sídan renna ofaní, hid næsta ílat fyrir nedan eda 3ja ílátid, og er þessu

*) Macbride heldr, ad svellíngin sé ekki øldúngis naudsynlig; hann segist hafa fengid margar ósollnar húdir eins vel barkadar eins og hinar.

haldid fram, uns lögrinn er kominn ofan í hid nedsta, sem enginn börkr er í. Eptir þetta fyrsta rennsli, er hellt vatni á börkinn í efsta slatinu, og farid ad öllu eins og ádr, og er þetta ítrekad, til þess vatnid eigi barkar lengr og kemr hreint aptr; þá er allt börkunarefnid runnid. Þad er adgætandi, ad vid sérhvert af hinum fyrstu þrem rennslum skal skipta um hid nedsta slat, svo hid fyrsta, annad og þridja rennsli eigi blandist saman, en séu fleiri rennsli, mega þau öll koma í þad slatid er þridja rennslid er í. Þegar börkurinn er ordinn úttæmdr, þá er hann tekinn úr slátunum og nýr börkr látinn í stadinn, og farid svo ad sem ádr. Einúngis er þess ad gæta ad fyrsta rennslid komi í sama slat, og svo hvert af ödru. Er þetta ítrekad til þess nægiligt börkunarvatn er fengid; og er þad geymt vandliga.

Af húdunum er skorid þad sem lakast er og þynnst, svosem höfudledrid (því útlendir slátrmenn láta þad vera áfast vid húdina), og ræmr sína af hvörri hlid húdarinnar, og þad látid í slat sér til börkunar. Þad sem eptir er af húdinni, er skorid þversum í tvo hluti, og eru þeir heingdir upp um þverslár sem liggja á börmum börkunar kersins, tveggja fíngra hvörr frá ödrum, svo þeir snerti hvörugr annann. Menn byrja á þridja og daufasta rennslinu, og hengja húdirnar í þad, eins og þær

koma úr brennusteinssýru-vatninu, nema það sem af þeim er skorið eins og áðr er sagt. Í þessu rennsli eru húðirnar í 2 eða 3 klukkustundir, og hefir þá hárramrinn fengið börkunarlit; en síðan eru þær hengdar í annað rennslið, og seinast í hið fyrsta; (hér þurfa þá þrjú börkunarker).

Með þessum hætti hafa þykkar húðir orðið fullbarkaðar í 6 eða 8 daga, og þær þykkustu og óþjálustu í 14 til 25 daga.

Það sést á sárinu hvört húðin er fullbörkuð eins og áðr er sagt, er þá bezt að skera svosem fíngrs eða tveggja fíngra pjötlu framan eða aptanaf húðinni í hvört skipti. Eigi má hraða þurk húðanna, svoað börkunar efnið hafi tíma til að brjótast.

Hinar þynnri húðir og skinn má vel barka með þessu móti á 2 til 4 dögum. Fyrst eru þau vandliga skoluð í vatni og hreinsuð, en ekki spellt, og eru svo strax látin í borkunarvatn, þó skal það vera daufara enn handa þykkum húðum. Þessi börkunarmáti hefir það gott við sig á meðal annars, að menn geta jafnan séð á sárinu hvað börkuninni líðr; en ekki dugar sama sárið nema einusinni. Þar geríng hleypr í börkunarvatnið með tímanum, fyrst víngeríng, og síðan sýrugeríng, má eigi tilbúa meira vatn, enn brúka skal í hvört skipti, því við gerínguna missir það allann sinn börkunarkrapt.

## Yfirlit yfir hid undangegna med tilliti til Íslands.

### §. 12.

### Um urtir þær sem barka skinn.

Þad er full ljóst af því er eg nú hefi um børkunina sagt, ad eigi munum vér geta fylgt útlendra barkara háttum í øllu, sem þar ad lýtr, því fáir munu gera skinnabørkun ad adal-atvinnuvegi ad sinni, enda væri þeim bezt, er þad vildu, ad læra skinnaverkun til fulls í ødrum løndum. En fyrir hinu er heldr rád ad gera, ad búhøldar reyni til ad barka nokkr skinn hvørr fyrir sig á sínu heimili, og muni þeir eigi vilja gera mikinn tilkostnad til slíks, heldr hjálpa sér vid þau ílát og ønnur áhøld sem til eru á heimilinu; en ádr enn eg læt meiníngu mína í ljósi um þad, hvørsu bezt mundi ad haga skinnabørkun á bæum, vil eg minnast á annann hlut, sem mjøg er áríđandi.

Í útløndum hafa menn mest megnis barkad skinn med eykar og furuberki, en af því ad menn á sumum stødum hafa verid hræddir um, ad slíkr børkr yrdi vandfenginn med tímanum, og hann aptr á ødrum stødum ekki hefir verid til, þa hafa menn á seinni tímum ransakad, hvørt eigi fleiri urtir innihéldi børkunarefni, enda hafa menn fundid margar slíkar. Þad kemr oss og í gódar þarfir ad margar af þessum urtum eda grøsum vaxa hér í landi,

þarsem vèr hvorki höfum eyk nè furu, og vil eg nú telja þær helztu:

1) Birki, Bjørk, Rifhrís (Betula alba. Sjá O. Hjaltal. grasafrædi bls. 284—5.). Eigi einasta börkrinn, heldr og einnig blødin og hinar úngu greinir innihalda börkunarefni, og má vel barka med þeim hin þynnri skinn.

2) Sortulýng, Mülnlngr (Arbutus uva ursi. O. H. grfr. bls. 184). Þessari plöntu skal safna nokkru eptir Jónsmessu, og er þess vel ad gæta, ad blødin eigi falli nidr, því þau innihalda mest börkunarefni. Med sortulýngi hafa Svíar barkad skinn um lánga tíma. Normenn eru líka farnir ad nota þad til þess, þótt þeir hafi nægann furubörk. Einkanliga kvad sortulýng vera gott til ad barka kálfskinn, og í Rússlandi þykir þad öllum urtum betra til ad barka saffian.

3) Beitilýng (Erica vulgaris — O. H. grasafr. bls. 175). Sumir segja ad þessi urt sè eins gód eins og eykarbörkr til ad barka skinn, nema hún barkar nokkud seinna. Enskr madr Thómas Rankin ad nafni, flýtti börkuninni med því, ad seyda hana í koparkatli í þrjár klukkustundir, hella sídan seydinu í ílát, og láta skinnin þarofaní, þegar þad var ordid svo kólnad ad hitinn var eigi meiri enn 54° C. eda 42° R.

eptir nokkra daga hellti hann seydinu af skinnunum og lét koma nýtt seydi ístadinn, og fór svo fram uns skinnin voru fullbørkud. Hann sagdi, ad eigi mætti hafa járnkatla til þessa seydis, þá yrdu skinnin dökkleit og þyrrin. Beutsch segir ad skinnin verdi ætíd nokkud þyrrin og vilji springa eptir børkun í beytilíngi, en því megi vel varna med því, ad láta nokkud af vel søxudu blódbergi (Thymus serpyllum. O. H. grfr. blſ. 126 — þad reiknast og á medal børkunarurta í C. T. Kummers Hand=Encyclopädie 1830.) samanvid, þá verdi skinnin mjúk og hvít. Reyna mætti ad seyda lýngid í járnpotti þegar blódberg væri látid samanvid, og mundi þá bezt ad hafi þridjúng af hinu sídarstnefnda.

4) Mjadurt (Spiræa ulmaria — O. H. grfr. blſ. 209). Gleditsch og Klein søfnudu þessari urt í blomstrtídinni, og børkudu saudskinn med henni á hálfs mánadar tíma.

5) Adalbláberjalýng (Vaccinium myrtillus — O. H. grfr. blſ. 173). Allt, nema rótin, inniheldr børkunarefni. Beutsch barkadi kálfskinn med þessu lýngi eingaungu, og vard þad í allann máta gott.

6) Blódrót (Tormentilla erecta — O. H. grfr. blſ. 216). Þad er sagt ad rót þessarar urtar

sé betri enn öll önnur börkunarmeðöl, og barki á skemri tíma, einkum þegar húu sé grafin upp á vorin.

7) Af víðirtegundunum nefnast a) Sauðvíðir (Salix arenaria — O. H. bls. 291). b) Selja eða Seljuvíðir (S. capræa — O. H. bls. 292) og c) Lárberjavíðir (S. pentandra — O. H. bls. 294). Af víðirbörk kvað skinn verða mjúk.

8) Maríustakkr (Alchemilla vulgaris — O. H. bls. 124).

9) Engjarós, Mýratág, Blóðsóley (comarum palustre — O. H. bls. 215.)

10) Blóðarfi, Oddvari (Polygonum aviculare — O. H. bls. 176).

11) Einir (juniperus communis — O. H. bls. 297). Berin, og hrýslurnar blandast saman.

12) Alment bláberjalýng (Vaccinium uliginosum — O. H. bls. 174).

13) Mýra bláberjalýng (V. oxycoccos — O. H. bls. 175).

14) Jarðberjalýng (Fragaria vesca — O. H. bls. 211).

15) Fjalldæla, Fjallafífill (Geum rivale — O. H. bls. 214).

16) Mura, Murusóley (Potentilla anserina — O. H. bls. 212).

17) Burni, Burkni, Hellubnodrarót (Rhodiola rosea — O. H. bls. 296).
18) Vallarsúra (Rumex acetosa — O. H. bls. 165); einasta rótin er brúkanlig.
19) Reinir.

Þad er ætlan mín, ad bezt muni ad seyda þær urtir er menn vilja barka med; þá gengr børkunin greidara, þad flýtir og fyrir, ad skipta nokkrumsinnum um seydid, og ad láta børkunarílátid standa í yl, svosem í fjósi. Flestar børkunarurtir eru þurkadar, ádr enn menn brúka þær.

## §. 13

## Hvørsu bændr geti barkad skinn án tilkostnadar

Eptir ad eg þannig hefi talid urtir þær er skinn barka, ætla eg nú ad láta mína meiníng í ljósi um þad, hvørsu bændr geti barkad skinn á heimilum sínum, án mikils tilkostnadar. Væri eg bóndi og vildi engu tilkosta, þá færi eg ad á fylgjandi hátt: Þegar búid væri ad skola og hreinsa og raka húdir og skinn, og svella þau, ef eg svo vildi, þá mundi eg saxa þær urtir er eg ætladi ad barka med, seyda þær sídan og hella seydinu í kerhald. Ef eg ætladi mér ad velgja løginn smátt og smátt, til ad flýta børkuninni, þá léti eg kerhaldid standa í eldhúsi; en ef eg ætladi mér þad ekki, þá leti eg kerhaldid standa í fjósi. Kerhaldid veldi eg svo vídt sem eg hefdi tek

á. Ef eg ætladi ad barka nauta eda hesta húdir, þá skæri eg þær í svo marga hluti, ad hvørr þeirra gæti legid flatr í kerhaldinu; ofan á hvørn hluta dreifdi eg svosem fíngrs þykku lagi af þeirri urt er eg barkadi med, svo skinnin eigi lægi samam; sama gerdi eg vid saudskinn ef þau gætu eigi legid útbreidd í kerhaldinn, þegar eg hefdi skorid af þeim yztu skeklana. Ef eg hefdi børkunarkerid í eldhúsi, og vildi flýta børkuninni med hita, þá jysi eg einusinni eda tvisvar á dag nokkru af børkunarvatninn úr kerinu í ketil og heitri þad allt ad 60° R. og hellti því svo strax aptr í kerid; stundum kynni eg ad láta dálítid af óseiddum urtum í børkunarvatnid í katlinum til þess ad gera þad sterkara. Ef þad væru nauta eda hrosskinn, sem eg barkadi, þá léti eg þau liggja þannig herumbil í viku. Þá mundi eg taka þau upp, hella børkunarvatninn út og hella ødru nýu og sterkara í kerid í stadinn, og láta skinnin liggja þar adra vikuna; þá mundi eg taka þau upp aptr, skera fíngrs eda tveggja fíngra pjøtlu af einu eda fleirum skinnanna, þar sem þau væri þykk, til ad sjá hvad þeim lidi (sjá §. 8); eptir því sem hvíta eda døkkleita rákin eptir midju sárinu væri breid eda mjó, eptir því léti eg sterkara eda daufara børkunarvatn á skinnin hid þridja sinn, og léti þau liggja í því uns þau væru fullbørkud. En væru þad kálfskinn eda saudskinn, sem eg barkadi, þá færi

eg eins ad, nema eg mundi taka þau uppúr hid fyrsta sinn ad fjøgra daga fresti og skipta þá um vøtn ef sýndist, enda mundi eg eigi þurfa ad skipta optar um þau, og léti eg skinnin liggja í hinu seinna vatni uns þau væru fullbørkud, en nýa heldr seydid upp med því ad láta óseyddar urtir í seydid, þegar eg velgdi þad, en þá þyrfti þad ad sjóda, en kólna þó aptr nokkud alltad 60° R. ádr. því væri hellt á skinnin aptr.

Léti eg børkunarkerid standa í fjósi, þá gæti eg gert hvørt eg heldr vildi, ad seyda urtirnar, eda ad láta þær óseyddar í kerid, og hella svo køldu vatni á, en varla mundi eg geta komid því vid, ad velgja seydid optar; Hér léti eg skinnin liggja nokkud lengr, ádr eg vitjadi um og skipti um vøtn og urtir, annars mundi eg láta sárid segja mér hvønær tími væri til umskiptanna.

Þess er ad gæta, ad ætid sé þad vatn daust er skinnin koma fyrst í, en sídan skal gera þad sterkara. Vilji menn fá mikid sterkt børkunarvatn, þá má þad verda á þennan hátt. Seyd børkunarurtir í potti, svosem 3 klukkustundir, tak svo urtirnar burt, og lát adrar nýar urtir í seydid, og lát sjóda eins lengi; viljir þú gera børkunarvatnid enn sterkara, svo ítreka þetta optar med hinu sama seydi; eigi sakar ad koma dálitlu af vatni í ketilinn í hvørt skipti, svo-

sem fyrir því sem vatnid sýdr nidr (eda rettara, gufar eda dampar burt).

Eg vil eigi fjölyrda frámar um þetta, sérhvörr getr sjálfr fundid uppá hæfiligum máta til ad barka, þegar hann hefir skilid þad sem hér ad framan er sagt, og hann veit í hvörju börkunin er innifalin.

## IV. Um sútun skinnanna.

Alla þá medferd, kalla eg sútun, er skinnunum er ætlud, frá því þau eru fullbörkud og til þess þau eru albúin til hvörrar brúkunar sem vera skal. Þessi medferd er ofrid margvísslig á hinum ýmsu stödum, og líka eptir því til hvörs skinnin eru ætlud. Þó má svo ad ordi kveda um flesta atburdi þá, er hér ad lúta, ad þeir fremur mida til fegurdar og ásjáligleika, enn til eginligrar nytsemi, einkanliga hvad sóla eda skóledr snertir. En þótt fegurdin sé mikilsvirdi þar hún skemtir augum sálar vorrar, þá er hún samt ekki öldungis naudsynlig á neinum hlut, fyrri enn hann gengr í verzlan. Nú þar eigi er sýniligt ad börkud skinnavara gángi í verzlan ad sinni á Íslandi, þá vil eg einúngis segja frá þeim allra einfaldasta sútunarmáta; læt eg þess heldr í þetta skipti þarvid lenda, sem vandasamt er ad lýsa öllum verkfærum þeim og atvikum, er þurfa vid hinn margbrotnari máta, og kostnadarsamt og ómaks mikid er ad útvega sér þad allt, er þar ad lýtr.

Eptir ad húdirnar eru teknar upp úr berklinum hengja menn þær til þerris í forsælu. Þegar þær eru ordnar hálfþurrar, eru þær teknar og breiddar út á fjalir eda vel slétt gólf, og makadar í heitum brædíngi. Brædíngrinn skal vera tveir þridjúngar tólg og einn þridjúngr lýsi. Sumir láta brædínginn vera brádheitann og hella hønum á skinnid, og núa hønum sídan inní þad í ákafa med ullarlepp, og er tekinn einn blettr eptir annan, en ekki øll húdin í einu. Húdin er møkud beggja megin, fyrst á holdrosuna og sídan á hárraminn, sídan er hún løgd saman ferføld svo ad holdrosan snúi inn, og løgd í bleyti svosem 8 klukkutíma eda 3 eyktir, nú er hún tekin upp og barin eda trodin med fótunum, og loksins dreifa menn vatni yfir hana. Sídan er hún hengd til þerris í forsælu eins og ádr er sagt. Sumir þarámoti núa brædíngnum køldum inní húdirnar, leggja þær saman ferfaldar, eins og ádr er sagt, og láta þær liggja svo í nokkra daga, en sídan eru þar hengdar upp til þerris. Sumir berja skinnid med trésleggjum, þegar þad er þykt og óþjált, og þykir þad bæta.

Ef menn vilja sverta skinnin, þá verdr þad á eptirfylgjandi hátt: Tak ridgud járnabrot og lát í slát, kollu eda føtu, eda annad slíkt, og hell þaryfir sýru svo mikilli, ad hylji járnaruslid; lát svo standa í 3 mánudi í yl, hell sídan sýrunni frá, og er hún

þá raudleit ad lit. Tak nú skinnid er súta skal, breid á fjalir og gjör hárraminn deigann med börkunarvatni, tak sídan bursta ef til er eda ullarlepp og dýf í téda sýru, og nú skinnid med hönum, og verdr þad svart. Eptir þad skal hengja ledrid útí forsælu og láta þad þorna ad mestu, sídan er þad núid á hárraminn med vel sléttum steini eda gleri sem til þess er gert *) og þaráeptir makad ad nýu med sýrunni; hid þridja sinn er farid allt ad einu; loksins er gott ad leggja skinnid í farg þegar þad er ordid þurt, og maka þad lítid eitt med feiti á eptir, þá verdr litrinn glæsiligri.

Nú er skinnid med öllu undirbúid til skógerdar edr stígvéla, þegar sá einfaldasti sútunarmáti er vidhafdr; samt sem ádr vil eg geta þess, ad skinnid er albúid til skó gerdar ádr þad er svert, en hinn svarti litr gerir þad ásjáligra; þad er eigi heldr naudsynligt ad slétta ledrid á milli þess sem fortan er borin á þad, og er þá audséd, ad medferd skinnanna er audveld eptir ad þau eru tekin uppúr berkinum.

---

*) Þad er herum ⅓ þumlúngs á þykt med tréskapti. Sú rödin sem skinnid er núid eda strokid med, er ávöl og slétt, og strýkr madr frá sér, líkt og madr hefli. Þetta verkfæri kallast sléttari, og mætti kannske vera af hördu tré.

Þegar hér var komid kalladi Þjóðólfr hátt svo allir heyrdu: hættu nú, skinnamadr! hættu nú, nóg er komid af svo gódu! Ekki held eg geti farid ad barka skinnin mín, ekki gerdi hann fadir minn sálugi það og ekki hann afi minn, og urdu þeir þó aldrei skædaskinslausir, og ef mér búnast hereptir eins og híngadtil, þá máttu vera aldeilis óhræddr um það, skinnabjálfi! ad eg skal aldrei koma og snýkja útúr þér barkud skinn eda sútud; allraslzt mun eg ágyrnast skinnin þau sem þú hefir makad og bakad í hundakúk; eg ætla það muni vera nógu falleg lykt af þeim greiunum þeim. Nú er líka ordid svo framordid, komid af nóni, eg má ekki vera lengr.

Sútarinn. Meira talar þú nú af kappi, Þjóðólfr minn! enn af athuga, því svo er mér sagt frá þér, ad þú sért nýtinn madr og farir vel med muni þína; veit eg það því fyrir víst, ad þú villt upptaka sérhverja adferd þá, er gerir skinn þín haldbetri og dýrari, því þá getr þú selt fleiri skinn enn ádr og færd líka meira fyrir þau, og þetta gerir barkunin.

Þjóðólfr. Ef það er satt, skinnamadr; þá er barkunin gód og blessud, en ef eg á ad segja þér eins og er, þá ætla eg ad þú munir ljúga þessu (eptir nokkra þögn). Ekki er það fyrir það, eg skal reyna skinnabarkun þína og sjá hvad hún dugar.

Önundr. Þú skyldir hafa kent oss ad gera

gott bókfell og gult skinnbuxnaledr, sem danskir brúka, og saffían eda fína skinnid smúkka í kambpúnganum, og svoddan nokkud, en ekki þetta grófa tøi, sem ekkert er uppí módinn.

Sútarinn. Hann Þjódólfr segir ad nú sé ordid svo framordid, ad eigi tjáir mér ad hafast hér vid lengr, en ad ári skal eg kenna þér þetta alltsaman, Önundr minn! ef Gud lofar, og muntu þá undrast hvad audveldt þad er.

Í þessu bili sást mannareid, og kendu menn þar hinn útlenda mann, er komid hafdi á þíngid tvø hin fyrirfarandi ár. Hann sté af hesti sínum, gekk til steinsins og heilsadi Ármanni hæverskliga; Ármann tók vel kvedju hans, og bad hann ad stíga uppá steininn; hinn gjørdi þad og heilsadi þíngheiminum blídliga; en Þjódólfr vard fyrri til orda enn hann, og mælti á þessa leid:

Hvad segir þú oss frétta frá útløndum, gódr madr! er kólera sóttin skæd ennþá, eda hvørt er hún komin núna?

Útl. Hún er nú komin til Bretlands ens mikla, og hefir hún farid þángad lángleidum yfir lønd og sjó, án þess ad gera vart vid sig á leidinni, því hvørki er hún komin til Hollands eda Frakklands ennþá. Ofríki þessarar sóttar mínkar og tøluverdt eptir því sem hún eldist, enda hefir hún aldrei

verid háskaliga skæd í Evrópu. Menn telja ad hún hafi sýkt 3 af hundradi hvørju, þar sem hún hefir komid, og deydt hérumbil helfmíng af þessum, eda 1½ af hundradi og er hún þá eigi skædari enn kvefsóttir eru stundum á Íslandi; og nú í Englandi er hún miklu vægari eptir søgn.

Þjód. Heldurdu hún komi híngad nokkurntíma, gódr madr?

Url. Ekki veit eg þad, en ólíkligt þykir mér ad hún komi í sumar, ef hún verdr ekki komin til Kaupmannahafnar ádr skip fari þadan af stad út híngad. Eigi er heldr líkligt ad hún komi med Hollendíngum í þetta sinn, þar sóttin er enn eigi komin þángad, þó mun bezt ad hafa sem mesta varhygd á sér.

Þjódólfr. Ef ad hún kólera kemr, þá skal eg gera henni bragd, eg skal hafa svo mikid hreinlæti sem eg get. Eg skal láta allt fólkid sofa útí skemmum í sumar, svo þad verdi ekki fýla eda óhollt lopt í badstofunni, og ef einhvørr verdr veikr á mínu heimili, þá skal eg láta hann sofa einsamlann í einhvørri skemmunni og hlynna þar ad hønum sem bezt.

Url. Gerdu þad sem þú villt, eg held þad sé óskarád.

Þjódólfr. Hannanú! (lítr uppí sólina) Þad er ordid svo framordid! Sleppum þessu. En heyrdu! hvad gengr ullin og tólgin þarna utanlands núna;

eg á nokkuð af rusli núna, og vildi eg vita hvað eg muni fá fyrir það.

Utl. Segja skal eg þér það, Þjóðólfr minn! en ekki er von þú fáir eins mikið fyrir það í kaupstaðnum hérna eins og utanlands, það kostar nokkuð að flytja það þángað.

Þjóðólfr. Þú munt satt segja, þeir munu vilja hafa nokkuð fyrir snúð sinn kaupmennirnir, en láttu mig nu heyra, eg má ekki bíða lengr.

Utl. tók blað uppúr vasa sínum og las þetta:

Verðlag á íslenzkum varníngi í Kaupmannahöfn vetrinn 1831 og 32.

| | Verð. lægsta. Rbd. | ß. | hæðsta. Rbd. | ß. |
|---|---|---|---|---|
| Harðr fiskr | | | | |
| stór 1 Skpd. | 14 | = | 16 | = |
| minni 1 Skpd. | 13 | = | = | = |
| Klipfiskr af þilskipum | 20 | = | 26 | = |
| af bátum | 15 | = | 20 | = |
| Ull hvít norðlenzk 1 pd. | = | 24 | = | 27 |
| sunnlenzk 1 pd. | = | 21 | = | 24 |
| Tólg 1 pd. | = | 18 | = | 20 |
| Lýsi 1 tunna | 24 | = | 27 | = |
| Tvinnabandssokkar | | | | |
| norðlenzkir 1 pr. | = | 24 | = | 34 |
| sunnlenzkir 1 pr. | = | 18 | = | 28 |

| | Verd. | | | |
|---|---|---|---|---|
| | lægsta. | | hæðsta. | |
| | Rbd. | ß. | Rbd. | ß. |
| Eingirnissokkar 1 pr. . . . . . | = | 16 | = | 28 |
| Tvinnabands peisur . . . . . | = | 64 | 1 | = |
| Eingirnis peisur . . . . . . | = | 48 | = | 64 |
| Vetlíngar . . . . . . . . | = | 5 | = | 7 |
| Lambskinn . . . . . . . . | = | 6 | = | 10 |
| Æðardún 1 pd. . . . . . . | 2 | 32 | 2 | 64 |
| Fiðr 1 pd. . . . . . . . | = | 24 | = | = |
| Tóuskinn | | | | |
| móraud . . . . . . . . | 1 | = | 4 | = |
| hvít . . . . . . . . . | = | 49 | 1 | = |

Hér sjáið þér eins og hin fyrirfarandi ár hvørr munur er á vøndudum varníngi, og vísa eg ydr til þeirrar hugvekju er eg gaf ydr í því skyni í fyrra (Arm 3 arg. bls. 189. 191).

Á útlendum varníngi var verdlag álíka og í fyrra; eg vil adeins geta þessa.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Rúgtunna . . . . . . . . | 5 | 64 | 6 | 48 |
| Mjøltunna . . . . . . . . | = | = | 6 | 48 |
| Baunatunna . . . . . . . | = | = | 6 | 48 |
| Grjónatunna . . . . . . . | = | = | 7 | 64 |
| Brennivín 1 pttr. . . . . . | = | = | = | 24 |
| Kaffe 1 pd. . . . . . . . | = | = | = | 32 |
| Sikr 1 pd. . . . . . . . | = | = | = | 30 |

Af þessu sjáið þér ad kornvørur muni kosti nokkru minna

enn í fyrra, og muni því líkligt þær verdi med nøkkud betra verdi í súmar.

Þegar hinn ókendi madr hafdi þetta sagt, hneigdi hann sig og fór ofanaf steininum, og gekk út i mannþraungina, en þegar mønnum vard litid aptr til steinsins, þá leid Ármann frá augum þíngheimsins ofan í Almannagjá, og var hann þegar horfinn. Þegar Þjódólfr sá þetta, fór hann uppá steininn og kalladi hátt svo allir heyrdu:

Fyrst hann Bóndason hefir verid sú bleyda ad hlaupa í felur, og hefir ekki viljad tala um túna og engjaræktun eins og hann lofadi, þá skulum vid nú hugsa okkr um þángadtil ad ári, og bera okkr saman sem bezt um þad efni, því þad er mikilvægara enn allt annad. Þid megid vera óhræddir um þad, ekki kemr hann Bóndason aptr, hannn er gengin aptr úr skaptinu til fulls, enda þykir mér einu gilda. Hananú! hugsum vid nû allir um engja og túna ræktun þángadtil ad ári! Eg vona vid getum haft miklu fleiri ær og kýr á eptir og fyrnt hey til frambuda í hallærum.

Allr þíngheimrinn æpti:

**Vér skulum allir yfirvega túna og engja ræktun, og rækta þau svo á eptir.**

# Prentvillur
## í þessum árgángi.

blf. lin.
13, 1 neðst embættismönunnum l. embættismönnunum
14, 15 hertagadæmunum l. hertogadæmunum
15, 20 lögbíka l. lögbýla
18, 6 og 7. En ádr enn nokkrt framvarp til þessara nakvæmari lagaboda verdi framlögd fyrir oss. l. - nokkrt algjört framvarp - - verdi framlagt, og s. frv.
41, 4 þanka l. þánka
50, 1 í skýrgr. vitna dómara l. vitna og dómara
51, 8 nýung l. nýúng
63, 1 nedst: malefni l. málefni
65, 11 mikilu l. miklu
66, 3 veit og l. veit eg og
67, 7 nú l. nú
68, 12 framengt l. framgengt
72, 20 enginn, læs l. enginn læs
74, 13 sjálfar l. sjálfr
77, 15 þád l. þad
80, 6 srik l. strik
82, 24 gangn l. gagn
85, 9 margkvístradi l. margkvíslaðri
90, 3 brukun l. brúkun
93, 9 fyrirhe imaverandi l. fyrir heimaverandi
94, 1 útgjölt l. útgjöld
118, 21 veitur l. veilur
128, 15 mikud l. mikid
139, 16 hreinada l. hreinsada
150, hrædri l. hrærdri
155, hvörja, húd l. hvörja húd
156, nótid l. notid
167, 16 herumbil l. hérumbil
169, 1 rettara l. réttara.